# ANDVÖKUR

EFTIR

STEPHAN G. STEPHANSSON.

1868 — 1907

I.



REYKJAVÍK
KOSTNAÐARMENN NOKKRIR ÍSLENDINGAR Í VESTURHEIMI
1909

*Tileinkað*

## *Menningarfélags-mönnunum í Dakota frá 1889.*

*Við munum, þó fámenni í flokk okkar stæði,*
*Að fát kom á spámenn; þeir rifu sín klæði,*
*Og spillingahrönnum þeir hótuðu í vændum*
*Frá hugsandi mönnum — það íslenzkum bændum.*

*En nú trúir enginn það upp muni fyllast —*
*Og einatt það gengur svo, spádómar villast.*
*Nú taka menn undir það hátt eða í hljóði,*
*Sem hreyfðum á fundum, í ræðum og ljóði.*

*Þó allir um þrítugt við eltumst sem þjóðin,*
*Frá aldrinum tvítugs eg býð ykkur ljóðin!*
*Og þekkasta löngun er þulinum hárum,*
*Að þekkið í söng mínum rödd frá þeim árum.*

*HÖFUNDURINN.*

# Bragamál.

Láttu í háttum meðan mátt
Magnið hreyfa þinna ljóða
Hvern þinn dýrgrip, alt sem átt!
Auð þinn snauðum heimi bjóða —
Fel ei lýsigullið góða!
Ljósið þitt um lífsins nátt.

Líf er straumsins stundar-töf,
Styttra vor, sem þroskar óðinn.
Skamt í myrka moldar-gröf —
Moldin kæfir hljóð og ljóðin.
Sporlaust hverfur þú og þjóð þín
Skilirðu ei framtíð skáldi að gjöf.

Sólar skin og skúra-drög
Skalt í hending saman tvinna.
Regnstorm við og reiðar-slög
Reyndu máttinn stuðla þinna!
Svo skal þjóð þín vakin vinna
Sumarstörf um láð og lög.

1891

# I.

# GRIPIÐ ÚR LAUSU LOFTI.

---

Eg hinzta dómsdag hræðist jafnt
Og heimaþingin, minna ræmd —
Því aldrei verður sál mín samt
Úr sjálfs míns eigu frá mér dæmd.

1897

---

## Sjálfskaparvítið.

Mér er sjálfs míns leti leið.
Líf og fjör í æðum dvínar,
Þegar að hún greipagleið
Glennir um mig krumlur sínar.

1868

## Talið ekki illa hver um annan.

Fyrir öllu eldra sér
Skal ungur lotning bera —
Lastaðu ekki Lúcifer,
Láttu karlinn vera.

1869

## Munnur og nef.

Oft vil eg, Kata, kyssa þig,
Kjarkleysið togar þá í mig.
Því nefið á þér sem þyrnir er,
Sem þreifa um rósir varnar mér —

Þó varirnar hvísli: komdu nær mér!
Þitt kónga-nef þrumar: stattu fjær mér!
1873

---

## Framþróun.

Í æsku tók eg eins og barn
Alheimskunnar trúna.
Með aldri varð eg efagjarn.
Engu trúi eg núna.
1875

## Tötrughypja.

Hypjuð, rifuð, rykt og skæld,
Ræfla-kistla ber hún.
Títuprjónum negld og næld
Niður og saman er hún.
1875

## „Hver fyrir sjálfan sig. Anzkotinn á þann aftasta“.

— Ameriskt orðtak.

Mér þó hrolls í hjarta-þrá
Hreður olli kífsins:

Í fanta solli flýgst eg á
Í forarpollum lífsins.

1876

---

## Mannúð og grimd.

Efast hagsýnin þar um þrátt,
Þegar í brösum hefir átt:
Hvort nokkrum sé verra og velferð hans
Villidýrs-hjarta en gæða-manns —
Ó, að þú værir upprisinn,
Óræk heimild um mismuninn,
Dáni Nebúkanezar minn!

1876

---

## Upp úr kyrru.

Blóð í öllum æðum
Ólgar, hugur sólginn
Enn er í að kynnast
Úti-heima geimum —
Eyjar-eldur þreyi eg
Úti í hellis-skúta —
Hremmir helzt til snemma
Hali kvellsjúk elli.

Illa undi eg mér
Ungur heima.

Lítið þótti löngum
Leiksvið æsku.

Bifreið skýja í bláinn
Bera mig lét eg,
Lyftist þá úr þröngsýn
Þrúðheimur ljóða.

Mér er nú í muna
Manna heim að kanna —
Berðu mig, eldmóðug eimvél,
Utar á jarðveg.

1880

---

## Alt fer að einu.

Taktu staf þér í hönd,
Gaktu langt út í lönd
Burt frá átthögum æskunnar heima.
Lærðu hugsunarhátt
Þeirra þjóða, sem mátt —
Leita grun af þér, láttu þig dreyma.

Studdur stafinn þinn á
Eftir flökkuár fá,
Alt ef lærðist en ekkert þér gleymdist:
Sérðu á endanum samt,
Leitað langt yfir skamt
Var að hlut, sem að heimlendis geymdist.

1880

## Lífsspeki Salómons.

Hver skömm sem sker,
Hún hefir verið, var og er,
Og hvergi að gera um glæný-ilt,
Alt gamal-spilt —
Eg vitna um það í þenna pilt,
Sem það gat sagt:
Að ekkert nýtt sé undir vorri sól.
Svo forsjónin er eilíft eins og algert hringa-ról,
Og hringurinn hérna þröngur og lélegt í hann lagt.

1882

## Hesperides.

— Þýtt. S. V. Cole. —

Seztu nú dagur, sveipa geisla-væng
Sólbjört í kringum Vestureyja nes,
Sem hilla í fjarska fram — Hesperides.
Þar vaktar blíðvind bárur hafs á sæng
Við strendur svanmilt syngja. Hníg og breið
Þinn huliðsvæng um höfgra drauma skóg
Og blómsturgarða og húmsins helgiró
Þeirra, sem aldrei vekur nokkur neyð.

Þar hvíla þeir sem báru tímans böl,
Sem berum við nú. Svo er vakan gerð —
Hve löng er, dagur, bak við fjöllin föl
Fjarlægð í haf, unz Eden minn þú sérð?

Eg ætla að koma — kannske í næstu ferð.
Og nær heyri eg færast ferjumannsins kjöl.

1884

## „Gaa aldrig paa Akkord med Sletheden".

— Orðtak Þ. G. Repps. —

Vertu aldrei vinnumaður varmenskunnar,
Þó hún bjóði gull og goðorð;
Gamli Hreppur setti í boðorð.

1884

## Hafræna.

Sé eg í huga in súgandi
Sædjúp og ströndina fjær.
Blákviku brávöllinn,
Boðana, háföllin
Brimgörðum brúandi
Höfin — finn stormbylinn steypa sér nær.
Burstir á baðstofum álfa,
Bergsnasir, heyri eg skjálfa,
Þegar eg minnist þú hafræna heitir,
Hægfara kul yfir innlendar sveitir.
— Mér skapar veröld með einstökum orðum
Íslenzkan nú, eins og hann gerði forðum.

1885

## Mikill meirihluti.

—

Þú storkar mér með þeim heljar her
Af hugsunarleysi, er fylgi þér!

Góði minn, gremstu mér eigi,
Græskulaust þó eg þér segi:
Það sanni ei neitt þó eg sjái
Þann smáa-stíl af þínu alvana-jái
Og nei-i.

1887

---

## Upphefðin.

—

Þér finst það að líkindum, málvinur minn,
Þó munur að sitja inn' á þingi
Og vera þar settur og »sirklaður inn«
Í svolitlum konunga hringi.
Og almennings »respektin« óx á þér stór
— Því enn leitar múgurinn tákna —
Er sá hún þig, lagsmaður, leiddan í kór
Af »lotterí«-félagsins djákna..

Þér finst það víst betra en flækjast hvern dag
Við frægðarlaust búamstur lýðsins,
Sem þrældóm og moksturinn metur sér hag
Og matinn sinn guðs-blessun stríðsins —

En sama þó hjartað og hugurinn er,
Hvort höndin er hvít eða slitleg,
Og því er það, kæri, að kveðjuna þér
Sem kónginum brauðlausa flyt ég

1890

---

## Uppörfun.

Lát ó-skelfdur heimsku hof
Háðs í eldi brenna —
Miskunn veldu og manndáð lof
Meðan veldur penna.

Lát óm þinna hljómfalla opna þér dyr
Í íslenzku kotin,
Og hritt því, að málið sem hugdirfði fyr,
Sé herlúður brotinn.

Eg skil það, að hann geri heiminum gagn,
Sem huggar en letur —
En skáldsins í valdi er voldugra magn,
Sem vekur og etur.

1891

---

## Ósk og ætlun.

Eg vildi eg yrði ungur
Um alla mína daga.

Á göngu um grjót og klungur
Og græna og slétta haga —
Að hlæja hjartanlega,
Og hindranirnar lækka,
Og titra á víxl af trega,
Er tími manna að stækka.

Eg ætla að vera ungur
Um alla mína daga,
En aldrei elli-þungur —
Það er svo létt með Braga,
Svo létt! að lesa og skrifa
Og líka að spyrja og efa,
Og altaf létt að lifa,
Og létt að fyrirgefa.

1891

## Vantrúin.

Hún kom eins og geisli í grafar-húm kalt,
Og glóandi birtuna lagði yfir alt —
Og aldirnar gegnum mér glóa hún virtist,
Sem gagnsæ þýðing mér heimurinn birtist.

Og gryfjan mín sýndist mér veraldarvíð,
Og verðandi stór eins og eilífðar-tíð —
Við ljós hennar bjarta hver skíma varð skærri,
En skuggarnir ljótari, grettari, stærri.

Og verðmætin breyttust — Sumt gullið var gróm,
Og gjaldeyrir svikinn og fjárhirzla tóm.
En hitt var þó meira, að skúmið í skotum
Og skarnið var alsett með gimsteina brotum.

En eitt var þó berast: í sjálfum mér sá
Eg samskonar gróm og í kringum mig lá —
Svo glitti þar líka í gimsteina brotin
Sem glóðu þar líka um rykugu skotin.

Hún kom eins og geisli í grafar-húm kalt,
Og glóandi birtuna lagði um alt —
Hún brá fyrir, kvísluð, sem kveldleiftur glampa,
En kveikinn minn snart hún og tendraði lampa.

1891

## Fullkomleikinn.

Til fullkomleikans litla ber
Eg lotning, þó til hann væri hér
Svo hver yrði heilagur hengill —
Að varpa nú þessum manns-ham af mér
Eg mælist ei til, skal eg segja þér,
Og standa sem storknaður engill.

Að hnjóta um lífsins hála svið,
Að hrasa og falla — en upp á við,
Er ferill að framfara auði.

Og heiminn ei bagar um heilagleik enn,
En hann þyrfti stærri og göfugri menn
En langfærri saklausa sauði.

1891

---

## Hrörnun.

Maður gengur af göflunum,
Gliðnar svo þrátt á hliðunum,
Bognar í keng á köflunum,
Klúkir á máttar-viðunum
Af því að hanga á hrapandi
Horrim í þjóðfélags brekkunni.
— Mannnautin ganga þar gapandi
Grenjandi-hróðug af skekkjunni.

1891

---

## Skriftamáli.

Eg hræðist ei grand hvenær hníg eg í
Þeirri hólmgöngu lífs, er eg kýs ei né flý —
Það einungis angrar mitt sinni:
Svo hlífðarlaus barátta ef eftir er,
Með alt sem eg hef' hugsað mér
Hann bani brennir mig inni.

1891

---

## Í brattanum.

Í kapphlaupi lífs er það kænasta lag
Hjá klungri né torfærum sneiða,
Að hlaupa eins rökkur og hábjartan dag,
Við hætturnar sporið að greiða,
Ef stefnuna veiztu — þó fylgd þín sé fá,
Þar fram úr sem aðrir sér hika.
Ef kemur að sprungu, ef kemur að gjá,
Það kastlyftu tilhlaupsins stelur þér frá,
Að doka við dýpið að stika.

Því sé það á annað borð ósk þín og trú,
Að áfram sé sporið og hærra:
Þitt fall væri heilagt, þó hrapaðir þú
Á hlaupum að vinna ið stærra.
Og frægðin og atgerfið fólgið er í,
Að fræknastur sértu og beztur
Og takmarkið hátt — ei er hitt móti því,
Að höfðingi kallist þú flokk þínum í,
Ef þú ert í mannraunum mestur.

1891

## Hvítasunna.

Hann yfir honum ensku les,
Og altaf svarar landinn: »Yes«,

En kerla um skrágat skrækir inn:
»Æ, skilurðu nokkuð, gói minn«.

1891

---

## Eitt til aðgreiningar.

Hvað sé skáld? Spyr þú að því!
Þarna er einkunn talin:
Það er djúpur eldur í
Ösku þunnri falinn.

Í blæ sem valla bærði rós
Blossa kann og funa,
Kveikja hita, líf og ljós —
Líka kannske bruna.

1892

---

## Heilræði.

Reyndu að safna þér sannfæringu,
Og sannfæring þá skalt' ei tauta o'ní bringu,
En frjálslega eigðu þann færasta kraftinn —
Og fremur en láta hann gefðu á kjaftinn.

1893

---

## Fjölskyldu-lífið.

Strákarnir stríðandi, lemjandi —
Stelpurnar skríðandi, emjandi —
Kerlingin klagandi, naggandi —
Karltötrið agandi, þaggandi.

1893

## Kristileg smárit.

Úr kirkjunnar helgidóm háum
Hann hellir út ræðum og bæklingagjörð —
Á annara strokkuðu áfum
Hann elur upp volaða guðskálfa hjörð.

1893

## Þingfarar-bálkur.

Við ættarkvísl ungri það erindi boðum:
Við andlegu hungri við lífsins-brauð hnoðum;
Í snatri við nestum hvern snapandi dóla
Á snöggsoðnum prestum og mjölsníkju skóla.

1893

## Búnaðar-skýrsla.

Búið hans er fremur félegt,
Fullvel hýst og utan-prjál —
Húsbóndans er höfuð lélegt,
Hjartað garmur, trössuð sál.

1893

## Kverkatök.

Þeir hugsa að vinna háleitt verk
Í herrans nafni, efalaust:
Sem taka fyrir kjarksins kverk
Og kyrkja sannfæringar raust.

1893

## Grasaferð Norðra.

— Max Nordau var í miklu gengi fyrir flugrit sitt »Ættlerarnir«, níð um helztu samtíðarskáldin. —

Norðri grár til grasa
Gekk í Braga túnum;
Hann kvaðst hálfan vasa
Hafa af súrum fúnum —
Fann ei fyrir þyrnum
Fegurð rósa-kranzins. —

»Alt er gult í glyrnum
Guluveika mannsins.«

1895

## Pólitísk jarðyrkja.

Pólitíska ekru ir
Embættanna plógur,
Honum gefa þykkjur þyr
Báðar: skjall og rógur.

Þarna glápir þorri manns,
Þegar svo er búið:
Sannleik, frelsi, fjárhag lands
Í flag er öllu snúið.

1896

## Kveðskapardísin.

Ef ánægju-sól er mér hverfandi hjól,
Í hreggi ef kólu þau blóm sem hún ól
Og kjarkinn minn næðir af kvíða:
Mín sál til þín söngdísin blíða
Og vonirnar lágfleygu líða,
Sem snjófuglar eltir í akranna skjól
Af aðköstum skammdegis-hríða.

1899

## Heyrnar-deyfan.

Þó dauft sé orðið eyra,
Upp það næstum berðu;
Þú kemst hjá að heyra
Heimskra þvætting, sérðu!

1899

## Dagblöðin.

Úr blöðunum hjómast ei hugsun til neins,
Mig hryllir við þvílíku sargi,
Því málið og stíllinn og efnið er eins:
Svo andlega meinþýfður kargi.

1899

## Um Íslendinga-dags ræður.

Vestur-heimskan klædd í kjólinn,
Kotroskin um eigin hag,
Rólar upp í ræðu-stólinn,
Roggin Íslendinga-dag,
Finnur á sér, ef hún þegði,
Enginn lof um hana segði —
Eigin höndin hollust er,
Hugsar 'ún og fer að gorta,

Segir úrþvætt Ísland skorta
Guð og menn á móti sér.
Sjálf er hún svo skrítið skinn,
Enginn vill með raus né rag
Hafa af mönnum hláturinn.
— Langverst mun hún montsins gjalda,
Megi 'ún óátalið halda
Sinni heimsku hunda-dag.

1899

## Venjan.

Enn er voða vanasár
Veslings almenningur,
Á þetta kónga pírumpár
Og presta barna-glingur.

1899

## Alstaðar og hvergi.

Hans sannfæring var aktións-góss, og ábatans eg ann
Og ánægjunnar honum — Það er gamla sagan.
En þráfalt misti drengskapurinn þrefalt betri mann —
Og það kvað liggja vegur til hjartans gegnum magann.

1899

## Basl-hagmennið.

Löngum var eg læknir minn,
Lögfræðingur, prestur,
Smiður, kóngur, kennarinn,
Kerra, plógur, hestur.

## Úlfur í hjörð.

Við söfnuð þinn tortrygðu sóma-mann
Sem sinnir ei trú þinni, prestur,
En vef um það kenning um kærleikann —
Í kirkju er hann affarabeztur —
Að Guðs-ríki viðlíkum vísað sé frá!
Sé verr' ekki að fá.

Sú falslausa kenning þín fellur svo mér:
Að fyr en það taki til orða
Svo andlega handfjatlað hárgreiðu-smér
Við harðmeti lífsins að borða,
Á eyðimörk ég fer með Jesú á burt
Og ét heldur þurt.

1899

## Leikslokin.

Fimleik skeikar, förlast mér,
Fætur reika eymdir,
Gigtarveikur armur er,
Æsku-leikar gleymdir.

## Sá sem bezt hlær.

Sá sem hefir alténd einn
Orðið sér til lífs að berjast,
Stundum átt í vök að verjast,
Reynt í straum' að standa beinn,
Þar sem fleirum þungt mun reynast:
Ef hann ekki missir mátt,
Ætti að geta hlegið hátt,
Hlegið bezt og hlegið seinast.

1899

## Elli og erfiðleikar.

Já, slitinni orku er erfiðleiki ei spaug,
Sem árum saman beygði þreytu-daga fjöldinn,
Þá svíður kvíðans gaddfrost í gugnaðri taug,
Sem góu-nepja af snjónum um sólarlag á kvöldin.

1899

## Útibeitin.

Þig langar að frétta um líðan manns hér,
Hvort léttur sé vetur, hvert tíðarfar er —
Jú, veðrið er skaplegt að vanda,
Og snjólétt að þessu. Svo hirðulaus hjörð
Gekk hérumbil sjálfala á frosinni jörð,
Sem mentunin mín og hans »landa«.

1899

## Vísan hans gamla Forna.

Láta árin á mér sjá
Elli-gára og brotin —
Greiði eg hárin grá og fá
Grettur um brár og lotinn.

## Raups-aldurinn.

Vit og orka, veikt og þreytt,
Valt í kör hjá honum —
Raupið vakir uppi eitt
Yfir sjúklingonum.

1899

## Verra en vissi.

Eg greinar-stúf las eftir lærðan mann,
Mig langaði að geta þá sagt við hann:
Já, skussi í íslenzku er eg, en þú
Ert óbótamaður — það veit mín trú.

1899

## Bölbænin.

Óbæn þinni, Illfús minn,
Æðri kraftur reiðist —
Guði finst hún framhleypin,
Fjandanum kvabbið leiðist.

1899

## Þjóð-skáldið.

Lof þér lýðir fljetta,
Lengi mun ei beðið.
Þjóðlegar' en þetta
Þú gazt ekki kveðið!
Hversdags-hugsun teygð og tætt,
Tuggin upp í ljóð.
Umbúðirnar eflaust vætt,
Innihaldið lóð.

1899

## Áminning.

Hlæjum þrótt í líf og ljóð,
Lúa þótt við höfum —
Kemur nóttin næðisgóð
Nógu fljótt í gröfum.

## Skemtigangan.

Einn að róla sér með sitt
Soll og ólund firtir —
Út' um hóla er yndið mitt
Ef af sólu birtir.

1901

## Snjótitlingar í kornstakk.

Eg veit hvað svöngum vetur er —
Þú veizt það kannske líka.
*Þorsteinn Erlingsson.*

Um þessara fugla þorra-töf
Því er til að gegna:
Eg tók þá af Guði á gjöf
Greyin — Þorsteins vegna.

1901

## Bitlinga-vonin.

Eg sálar-hag 'ans Sáms mér leiði hjá —
Um sannfæring hans þess má að eins geta:
Að stjórnar-hreppinn henni steypti á,
Hjá húsfrú kirkju varð hún niðurseta.

Hann fer eins og veltur vömbin —
Viljirðu þekkja mark á honum —
Eins og heima-öldu lömbin,
Eltir hvern sem gefur honum.
Óskift brot úr almenningi,
Allra gagn á hverju þingi.
Þetta er mesti meinleysingi —
Mundu bara: að gefa honum.

1901

## Er á meðan er.

Meðan ís í útlegð fer
En auðir rísa hjallar,
Sólskins-vísu syngja þér
Sumardísir allar.

## Menta-mennirnir.

Þeir koma svo skrítnir úr skólum —
Já, skratt' ertu fúll, ef þér stökk ekki bros —
Svo keimlíkir hofróðu kjólum
Með krögum, með »slögum«, með »lissur« og flos.
Eitt samkrull frá sextíu búðum
Af silki og borðum, með »slaufur« og glys,
Og innan í öllum þeim dúðum
Er örlítill mann-kjarni, smár eins og fis.

Eins koma þeir, kafnir í fræðum,
Svo hvergi sést mót fyrir lögun og stærð,
Í flugham úr ritum og ræðum
Frá rykugri fornöld og nútíðar mærð —
En hugurinn hleypur í skorðum
Um háskóla-spekinnar afmerkta blett,
Og brýzt út í bullandi orðum
Af bláþunnri mælsku, í skvett eftir skvett.

1901

## Hugur og hjarta.

Láttu hug þinn aldrei eldast eða hjartað —
Vinur aftansólar sértu,
Sonur morgunroðans vertu.

1901

## Did you ask dulcet rhymes from me.

— Þýtt. Walt Whitman. —

Þú baðst mig að syngja með hjúfrandi hljóð
Þér húsgangsins viðfeldnu mannrauna ljóð,
Of þungskilið kvæði eg við þér líka menn —
Til þín kvað eg víst ekki! geri ekki enn.

Það kveinstafur var ei, sem óður minn ófst
Við umbrot míns lands, þegar styrjöldin hófst.
Eg handtók minn streng þegar herlúður gall
Of husluðum val, eftir riddarans fall.

Þú skilur mig ekki. Ó þreyt ekki þig
Á þvílíkri ráðgátu — forðastu mig,
En farðu og skældu þig organið í —
Eg yrki ekki við þig neitt lúllum og bí.

1902

## Íslenzka þokan.

Fúl og hveimleið þykir þér
Þokan okkar fósturlands —
Veiztu ei maður, að hún er
Efasemdir skaparans.
Hann er þá, sem þú, að leita
Þess, hvað veðrið eigi að heita,

Báða reiti ragur við:
Rigninguna og sólskinið.

1902

## Stökur úr stefjum Schillers.

I.

Reifabarn, þín ruggan er
Rúm sem loftið yfir —
Þröng mun veröld verða þér,
Vaxirðu upp og lifir.

II.

Sé þér dauðinn sorgar-ský,
En sól að lifa megir:
Heildinni líddu og lifðu í,
Svo lifirðu þótt þú deyir.

III.

Hverja trú eg eigi að?
Enga — mun eg gegna.
Hvílík glöp! Nei gott er það
Guðrækninnar vegna.

IV.

Vin og óvin oft eg met
Eftir þessum hætti:

Vinurinn hermir hvað eg get,
Hinn hvað geta ætti.

1902

---

## Icelandic Lyrics.

— Þýtt. Bliss Carman. —

Svo ræddi hún lilja við rós:
»Það rýrnar vort fegurðar-hrós,
Ef Svanfríður gengur hér garðinum í«.
— Svo gegndi rósin því:

»Hún skyggir á alt okkar skart —
Við skulum samt þrauga með ró;
Hjá öllum elskhugum verðum
Við ímyndin hennar þó«.

— — — — — — — — —

Eg ljóða mér ekki til lofs,
Til lýðhylli, tignar, né fjár —
En getið mín vil eg að verði
Öll veraldar komandi ár.

Mig langar, að langt fram í öld
Svo lýsi mér maður við mann:
»Já, skáld var hann sagður á sinni tíð —
Hún Svanfríður elskaði hann«.

1903

## Fáir útvaldir.

Daginn eftir dómsdaginn
Dyrnar opnast gjörðu,
Lykla-Pétur leit þar inn
Á liðið hér frá jörðu.

Svona hóf 'ann harma-mál:
»Hér er fátt af gestum!
Það var engin eilíf sál
Í þeim, svona flestum«.

Ekki verður ös um mann —
Autt er um himna-sali.
Það varð auma upprisan
Eftir höfða-tali.

1903

## Eitt með öðru.

Það er hart í heiminum —
Hveimleitt margt er við hann —
Þegja og kvarta aldrei um
Eigin hjarta-sviðann.

1904

## Ragnarök.

Eitt um goðin, ill og góð,
Eg að fullu veit og skil:
Þau eru alveg útdauð þjóð,
Sem aldrei hefir verið til.

1904

## Lifandi dauði.

Á lifandi dauða hvað einkenni er
Í auðveldum hendingum sagt get eg þér:
Að kólna ekki í frosti né klökna við yl,
Að kunna ekki lengur að hlakka til.

1904

## Lesið í lófa.

Forlög búin heimi hjá
Hendur trúar sýna:
Skorið er lúa-letur á
Lófa og hnúa þína.

1904

## Fjármenskan.

Liggur hjörð við horfall tæpt,
Harðni að og kóln' um —
Það er meira en mikil-gæft
Moðið þitt af stólnum.

1904

## Værukær.

Ef öðrum til liðs hefir orkunni slitið
Um æfina, bruðlað með kraft þinn og vitið,
Þú langþreytti maður, þá óttastu eigi,
Þó eilífðin verði að hvíldardegi.

1904

## Skjólið.

Regn og sólskin læt mér lynda,
Land og bólstað, smáan sýnum —
Uni í skjóli illra vinda
Undir hóla-röðlum mínum.

1904

## Liðskönnun.

Ef handvissan þykistu sigur þér sjá
Á sveit, þar sem fríliðinn verst sem hann má
Í lögfrjálsri lausamensku,
Og virðist þér skjótunninn höfuðlaus her,
Samt hugleið, hvað almennings fylgið þitt er
Frá þrælshug og beggja-blenzku.

1904

## Viðhaldið.

Á endanum eilífðir hníga —
Alt framhald er æska í ellinnar stað —
Og ártal er landskjálftinn, merkjandi það,
Að veraldar-veggirnir síga.

1904

## Slökkvum góðs-vita.

Viðkynning og viðskiftin
Vinga jarðar-lýðinn —
Set því tjóni takmörkin :
Tollverndun og stríðin.

1904

## Grafskrift.

Eftir þig, skáldið, maðurinn gegni, góði
Sé grafskrift full:
Að orð þitt hvert í heitstrenging og ljóði
Var hreina gull.

1904

## Skaplestirnir.

Sérgæðið í heimskra hug er heimagestur —
Gorgeir er ei bresta beztur,
Barlómurinn þó er verstur.

1904

## Enskur kveðskapur.

Nú er haust í enskum óð,
Afturfarar-dofnum —
Hann er snoturt sníkjú-ljóð,
Snöp á gömlum stofnum.

1904

## Lundleiður.

Þú hefir uppi önug svör,
Illhryssan í geði —
Til þín marga fýluför
fóru bros og gleði.

1904

## Auk þú oss trúna.

Bað til Guðs, að bæta sér
Bilaða trúgirnina —
Er það syndlaust, segðu mér,
Að svæfa skynsemina?

1904

## Biblíu-ljóðin.

Já, spjaldafull er bókin sú frá Brími,
Hálf biblían í þúsund-króna rími —
En ætli að mér nú efa-sýkin batni
Þó innblásturinn taki inn í vatni?

1904

## Kraftaskáldin.

Í hljóði er nuddað nú á því, sem nýung' mestri:
Að kraftaskáld ei vaxi í vestri!

En við skulum, bræður, veröld sýna verksummerkin -
Þau eru óræk vitni, verkin.

Við, sem lögðum »Lögberg« til í leirnum hræða,
Við, sem kváðum »Kringlu« ærða.

Við höfum, ætla eg, ámælið af okkur rekið
Og ekki á hálfu enn þá tekið.

Og þeir mega blöð sín þrefalda, ef þora bara,
Því alt skal sömu farir fara.

1904

## Staka „Bob“ Burns.

Einn hefir lyst, en á ei ket,
Og annar ket, en misti lyst —
Fyrst ég hef ket og étið get
Eg játa að lán mig setti ei yzt.

1904

## Hreystiyrði Lúthers.

Um kvenfegurð kærulaus,
Um kveðskap og söng:
Er örviti ærulaus,
Þó æfin sé löng.

1905

## Skilnaðarstundin eftir J. Blewett.

Óskina gömlu ei mér kýs,
Sem almenningur rómar:
Að festa síðsta svefn er rís
Sól og dagur ljómar.

Mér er auðvelt orðum með
Ástæðunni að lýsa:
Við höfum margan saman séð
Sólskins-daginn rísa.

Hvernig gæti eg, góða mín,
Gefist upp i næði,
Þá morguns-ár og ástin þín
Í mig héldu bæði?

1905

## Hindrunarlaust.

Berðu aldrei bönd að þeim
Sem býr sig eitthvað fram á leið,
Þó 'ann með þér hlaupi ei heim
Á harðaspretti alt þitt skeið.
Kraft hans reyn að hvetja betur
Hvíldum með, eins langt og getur —
Ef áframhald er átt hans bara,
Auðnan kennir lengra að fara.

## Prentvillurnar.

Það er grátlegt gáfna-stig,
Að grána í prentverkinu
Og hafa aldrei áttað sig
Á öllu stafrófinu.

## Æðsta boðorðið.

Reyndu að verða ríkur,
Á ráðvandan hátt — ef þú getur.
En um fram alt ríkur — og án hins,
Ef að það tekst ekki betur.

1905

## „Heimahagar“.

Spor manns liggja utar oft en æfisaga —
Um bæinn þinn og »heimahaga«
Hugurinn reikar marga daga.

1905

## Stefnu-festan.

»Áliti mínu eg aldrei hef' breytt«.
Áttræða Guðs-barn, þú fekst aldrei neitt!

## Rúmfastur.

Sólskins-stundin ögrun er,
Ama að lund hún setur.
Inni bundinn óska eg mér
Út á fund þinn vetur.

1905

## Guðfræðin.

Guðir og dísir, í sögur og sið
Settar og trúfræða kerfi:

Mannlegar ástríður öll eruð þið,
Ort upp í veruleiks gervi.

1905

---

## Kristur og Kristinn.

Mér hnykti við Kristi og kristni að mæta —
Um kristindóm voru þeir ákaft að þræta.

Hann Kristinn var stífur,
Að staðhæfa gífur:
»Sé guðstrú ei máldaginn, mannelsku glatarðu,
Þú misendiskaldrani, og volaða hatarðu«.

Það sat í Krists svörum,
Að spyrja úr spjörum:
»Þú elskað inn óþekta Guð þykist geta
Án grundvallar, kunnugan bróður að meta?«

Eg heyrði þá seinast í hávaða lenda,
Því hvor vildi byrja á sínum enda.

En lesari, þú getur leitt um það getur,
— Eg labbaði frá þeim — hvor hafði þar betur.

1905

---

## Afsvar.

Er í höndum huga móðs
Hálfgerð önduð staka —
Nú eru löndin lokuð óðs
Lúa-böndum-klaka.

Úr vinnumanni er sönglist svelt.
Sinna kann ei brögum —
Minna anna alt er skelft
undir fanna-lögum.

1905

## Barnaskólinn.

Hér er andrúmsloft óholt;
Hér er uppfræðslan þó stolt;
Hér er máttur og megin
Úr menningu dregin.

Hér í hugunum inni
Er heilbrigðis synjun:
Voða vatnssýki í minni,
En visnun í skynjun.

Munu ei glappaskot gera,
— Spyr mín stuttorða stakan —

Þeir sem barnsvitið bera
Út á kenninga-klakann?

1905

## Hámentun.

Sérhverja hreyfing og hugar-grip
Þú handleikur varkárt, með spekings-svip,
Unz vandkvæði finnur þú öllu á —
Í orðabók þinni er ei nei eða já,
Þú lærdómur bókfræðslu-bleikur,
Þú blóðlausi heiðarlegleikur,

1905

## Ritdómur.

— J. P. Sólmundsson um »Ljóðmæli« S. B. Benedictssonar —

Við sveitungar fyrir hann Sigfús færum
Þér sérstakar þakkir, Jóhann minn —
Þú sviftir af fíflskunni sauðar-gærum,
Sem sezt upp i blaða-dómstólinn,
Sem hræsnar þau lög, sem hvefsnin setti
Með heimskunnar forna kirkjurétti.

1905

## Kirkju-vígslan.

Þá rannsókn — þó véfengi villutrú manna —
Sem venjuleg guðsorð oss hótandi banna;
Það andlega frjálslyndi: á annara böndum
Í óþökk sem losar með sármeiddum höndum;
Þá lífsvon, sem otar ei góðverka-gjöldum,
En göfugleik meiri á komandi öldum;
Þá öruggu vissu, að vaxandi breiði
Sig vizka og dygð yfir guðanna leiði;
Þá staðföstu huggun, að hugsjónin geymist
Í hárvissri framtíð, þó maðurinn gleymist —
Eg bar þetta með mér á brimsjó og landi,
Eg bjargaði fé því af sérhverju strandi.
Og vel sé þér almenni og einstaklingshyggja,
Sem yfir þau sannindi hús lætur byggja.

1905

---

## Forsetinn og fólksfæðin

Hann Rósfell minn elur illan grun
Um alþýðu skömm á mannfjölgun,
Að hlífast svona við hreppunum
Og hlaða ekki niður krökkunum
Hann afnema vill fyrir allan mun.

Þá fyrstu hjón vóru af guði ger
— Ef gamla bókin með sannleik fer —

Þá skildi hann við þau bæði ber
Og bauð þeim að fylla upp jarðeign hér,
Og lét þau í garðinn að leika sér.

1906

---

## Verðlaun.

Gull og gæði
Gleðja skáld og fagna kvæði.
Þó það vildi um vænni laun
Velja mega í kvæða-raun:
Framhlaupið í fylking hverri,
Fyrsta stökk að ryðja knerri,
Hvar sem ofrar eldi og brandi
Ódygðin, á sjó og landi,
Vopnfært vera,
Ljóðið sitt úr býtum bera.

---

## Útþynningar.

List er það líka, og vinna,
Lítið að tæta upp í minna,
Altaf í þynnra þynna
Þynkuna allra hinna.

1906

---

## Heims-veldi.

Þú, sem um heims-mál og heims-veldi þreytir
Þinn hug, þú ferð villur ef á því þú herðir —
Hver lifandi framtíð á lögmál, sem breytir,
Sem liðar í sundur, sem eykur og skerðir.
Ef einn yrði hirðir og ein yrði hjörðin
Er aldauð úr sögunni himinn og jörðin.

1906

## Reimleikarnir.

Það var fyr í fornum sið
— Fátt þó uppi hangi —
Skáldin okkar aðal-lið
Urðu í drauga-gangi.

Vígslur juku gauragang
Guðshúsin í kringum,
Draugar buðu bróður-fang
Bæn og kross-signingum.

Helguð jörð var hóti verst,
Hlaðin minnis-vörðum.
Akur fjandans allra bezt
Óx í kirkjugörðum.

Enn er sama sagan spurð:
Svarri skáld á strenginn,
Þegar ríður húsi og hurð
Heimskan afturgengin,

Sem sér draga ætlar að
Alt í sína hauga —
Sama er kvæða-kvöðin, það:
Að kveða niður drauga.

1907

---

## Sigursælan.

Er að sönnu sæla minni
Sigri í en viðleitninni.
Vittu þó, að vel leyst raun
Veitir þér samt unnin laun,
Þannig: að hún þroskað getur
Þróttinn til að gera betur.

1907

## II.

# ÚT Í VEÐUR OG VIND.

Þegar í höku hleður snjá
Húsa þökum stormur á,
Mínar stökur þora ei þá
Þorra-vöku bænum frá.

Úti er vetrar-aukinn,
Unt að sá og plægja —
Í gær eg heyrði gaukinn
Gamanvísu hlæja.

1907

## Hugsað heim.

—

Þegar sól roðar brún,
Gróa grænbylgjuð tún
Leikin ár-morguns andvara-kælu,
Hreyfast hjarðir um ból,
Opnar Hulda sinn hól
Öllum vingjarnleg, engum til fælu.

Eg er hugsaður heim,
Hlaupinn ómælis-geim
Órar' tímanum, ei gat hans beðið:
Því eg vitja þess varð,
Hvað sé vaknað í garð',
Út' í móunum hvernig sé kveðið.

1874

---

## Í gróindunum.

—

Vorviðri í hönd!
Og grös og skógar gróa,
Nú gengur brúðför haf við strönd,
Og rödd fær svanur, söngljóð hver ein lóa —
Vor réttir hönd.

Mætasta mey!
Á meðan græn er hlíðin
Og mörkin roðnar, kyst af sunnanþey,
Eg kveð við þig — fyrst myrkrið hvarf og hríðin —
Ljóðglaða mey.

Unir þú ei
Við óðinn minn og vorið?
Að eyrum þér í kvæði og sumarþey
Nú er það orð af öllum strengjum borið:
Gleym þú mér ei!

1875

## Vetur.

Komið rökkur, fölur flýja varð
Flóttamaður, dagur smár og léttur.
Gægist fölskvað fyrsta mánans barð
Fyrir brekku-horn við austursléttur.
Kveldstjarnanna nætur-glætur glitra,
Gráa nið'r um skýja-bólstra sitra.

Gengt í norðri heyri eg háan klið,
— Hljóðlát nóttin fer ei ein á vegi —
Veður-hljóðið heldur spori við
Hófa-dynur — jóa tvo eg eygi
Út af skýja-skjaldborg norðurbakka
Skeiða geist með hríðarkembda makka.

Situr þar í klaka-krystalls reið
Kóngur vetur, stýrir vindum nætur,
Skýjum þeytir, þeysir suð'r á leið,
Þyrlast snjó um kerru sína lætur.
Hjólin spinna hækkað fanna kyngi —
Hræðist vetur ei að stormar spryngi.

Þyknar élið, þrútnar hríð og blæs,
Þytur kaldur fer af ökumanni.
Fyllist jóreyk — rökkva íss og snæs —
Roku-loft og sléttan fanna-hranni.
Fjöllin á sig klaka-hjálmi hvelfa,
Krapa-brynju týgjast vatn og elfa.

Aldrænn vetur, enginn fagnar þér,
Allir fyrir veldi þínu kvíða.
Sumarblóm af felmtri fölnað er,
Fallið lauf af skelfing þinna hríða —
þú munt stolt frá stóli jökulfanna
Stjórna lengst, í óþökk Guðs og manna.

Kaldi vetur, kveðið get eg við
Komu þína, og rímað kuldann á þér.
Velkominn, að gesta-greiðans sið,
Í garð minn vert' og sittu uppi hjá mér —
Hér er ekkert handa þér að frjósa,
Hæfilegan náttstað áttu að kjósa.

Gistu, þigðu þessi kulda-ljóð,
Þér í sveig sem bind eg, stirð og frosin.

Vinar-gjöf þér valin er svo góð.
Verður betri þér til handa kosin?
Íshönd þinni endast mun hún betur
Anganrósum, sem ei þola vetur.

Heyrðu vinur, greiðinn á sín gjöld!
Gef mér fyrir sveiginn slíkra blóma:
Nokkur fjölstirnd, frostheið tunglskins-kvöld
Fagurbeltuð segulstrauma ljóma,
Og á veldis-vængjum bylja þinna
Vetur, lyftu þrá til hærri kynna!

1883

## Nýárs-morgunn.

Sjá, dagur að vinna! Þar dimman var mest,
Við dyra-staf skýjanna ljósglampi sést —
Með árgeisla lampana læðist 'ann hljótt
Og leysir upp tjaldskarir fyrir þér, nótt,
Úr miðsvetrar skýjum og skuggum sem ófst,
Unz skaut þeirra í vestrinu saman þú drógst
Um árið sem leið, yfir árið sem hófst.

Þú árs-morgunn fyrsti, þó ljós þitt sé ljóst,
Samt er það svo veikt, að það valla kemst inn
Um vetur og rökkur, og húsgluggann minn,
Sem frostið og hélan í svell hafa sett
Svo sólin í gærdag ei markaði blett.

En nú brýt eg ísinn, og þíði mér þá
Eins þumlungs-vök gegnum hann rúðuna á,
Og kem út úr húsi með hending sem kól:
Að heilsa þér nýár og dagur og sól.

Hve seinlýs er birting — og aðdregið er
Mitt útsýnið litla, — sem þekkingin hér —
In kámleita jafndýpt af korguðum snjó
Í kuldann sem starir, með jöðrum af skóg'
Svo tilsýndar dimmum, sem gapandi gjár,
Sem geymdu svo ríkið þitt, hávetrar-snjár,
Að brott kæmist enginn — og loft-rými lágt
Að landinu grúfir sig harðneskjugrátt.
Og alt situr hljótt nema helkuldinn,
Sem hittir á lífæð og klýfur sig inn
Í hvað sem hann nær í, þá brestur við brak
Sem bana-kyrð raskast við andartak.

Nú rofar til húsa — sem hraun-borg við snæ
Í haglausum öræfum, sé eg hvern bæ
Frá auðninni lyftast. Þeir standa svo strjált
Sem stríðs-raun um andrúmið lægi við sjálft.
Þau skjólleysi næðir svo napurt og kalt,
Er norðanhríð kemur með liðið sitt alt,
Og hleður upp fenni að hliðum og gafl
Og hringgrefur kofann í ókleifan skafl.

En fullbjart er orðið. Nú hlýnar í heim,
Og hiti og líf er í kofanum þeim,
Sem svipúðug náttskuggans sjónhverfing fal

Í svartbláan ham, eins og dauðfrosið kal.
Frá arinhlóð reisa sig reykjar-flóð,
Þó ræfrið sé frosið, það býr yfir glóð
Og heimilis-ylnum við hjarta-slög þíð,
Sem héldu sér vörmum í frostum og hríð.
Og þegar um hádag er heiðríkja skær:
Í hlé fyrir stormi ef sólgeislinn nær
Í afskektum lognblettum, veggina við,
Björt vorfylgja tekur þar dálitla bið
Og vermir þar loftið og lækkar þar mjöll,
Og lifandi kveður hún góðviðrin öll.

Við þekkjum, að nýtt ár, sem nú fer í hönd,
Er nýárið gamla — með sólskin um lönd
Og forsælu-eyðurnar — okkur í kring
Hvert ár ratar bara sinn fortíðar hring —
Og Gestur inn blindi það einungis er,
Sem ítrekar gátur, sem marg-heyrðum vér,
Með yfirdreps-svipinn og sérgæði þurt —

En svörum eins lengi og það getur spurt:
Um meiri snild, um hagari hönd,
Um hraustari líkam', um þroskaðri önd,
Um hugsanir dýpri, um hreinsagðar' mál,
Um huggulli viðbúð, um göfugri sál,
Um alt sem við þykjumst með sannindum sjá,
Um sjálfstæði örugt að víkja ei þar frá,
Um meðvitund okkar um ágætast hvað
Í okkur býr sjálfum, og rækt við það,
Um áorkað takmark, um ætlun þá samt:

Að efstir í sæti við náð höfðum skamt,
Um óhindrað skeið fyrir andlegan þrótt,
Um áframhald lengst fram á gaml'árs-nótt.

Svo svörum þá einart, og öllu sem bezt,
Því ári sem hófst nú — þeim steinblinda gest!
Úr síðustu gátunni greiðum við þá,
Sem ganga varð Heiðrekur nauðugur frá.

1887

---

## Árferði í Alberta.

Við förum á skautum og skíðum,
Við, skapléttu fjallanna börn!
Og fleygjumst um fannir í hlíðnm
Og flug-hála svellið á tjörn
Í júlí.

Við liggjum í grasinu græna
Og góðviðrið þömbum í teig
Við laufspá hjá lundinum væna,
Um loft sigla regnskýin fleyg
Á þorra.

Hún kann ei, hún Alberta unga,
Að aga sinn geðþótta skár,
Né storkna í staðviðra drunga,
Né stilla um veðranna þrár
Í júlí, á þorra.

Hún gerir það bara sem gaman,
Að gáskast að sérhverri átt.
Því fléttar hún fimlega saman
Sinn fjölbreytta árstíða-þátt
Úr júlí, úr þorra, úr þorra, úr júlí.

1891

---

## Páskar.

Upp úr fannbreðans fargi,
Upp úr frosthörku bjargi.
Risinn lít eg hvern hjalla, hvern hól —
Lyft frá leiðunum hafa
Legstein' fannhvítra grafa
Sumar-vonin og vormorgun-sól.

Og af fellunum falla
Frosnar líkblæjur mjalla,
Nýr er laufkransinn enninu á —
Yfir upprisu landa
Út' í sólskini standa
Ljóssins varðenglar vorhimni frá.

Fyrsta blómið að foldum
Fallið, arflýsir moldum —
Út úr rótunum raknar frá ís
Heillar kynslóðar kraftur,
Upp' í knappinum aftur
Ættar-fegurðin öll saman rís.

Lítill lækur við bakka
Léttfær hendist um slakka,
Hirðskáld dagsins með hraðkveðinn söng:
»Vorið vitrast mér hefur,
Vakið framtíð, er sefur —
Hennar upprisa er eilífðar-löng«.

1891

---

## Fyrsti snjór.

Þú skæra, hreina, mjúka mjöll,
Sem málar samlitt dal og fjöll,
Og lífs og dáið, ljótt og frítt
Þú litar alt eins — hvítt.

Þú móður-kjöltu flúðir frá
Og fórst í loft sem gufa blá.
Þú snerir heim eitt hríðar-kvöld,
Svo hrein, en grimdar-köld.

1891

---

## Víði-spáin.

Og loks kom vorið, vonað, þráð,
Sem víðirinn hafði lengi spáð —
Um miðjan vetur, mest þá kól,
Á móti hádags sól.

Sitt hár hann greiddi, gulli bjóst —
En gestsins koma drógst og drógst,
Unz spádóm ugðu allir þann,
En aldrei ég né hann!

Hann ræltist. — Hinzta morgun milt
Í marz skein sólin glatt og stilt,
Til ferða vorsins fyrst eg sá
Í fjarska, stórhól á.

En það fór hægt, því það var önn,
Að þíða álnar-djúpa fönn,
Svo sumar vænt í vetrar-snjó
Ei væta þyrfti skó.

En það er nú til lykta leitt,
Frá lægsta strái er fönnin reitt
Og tætt upp klákans klæða-skaut
Úr hverri dæld og laut.

Og jafnvel fjallið frerahvítt
Mér finst að dragi andann hlýtt,
Er þýði vestanvindurinn
Um vangann leikur minn.

Og alt í kring við augum hlær —
En eitt mér stærstrar gleði fær:
Eg er ei sjálfur ís né hjarn,
Eg enn er vorsins barn.

1891

## Vorhugur.

Mér finst að vorið vermi upp og glæði
Og vonir snjáðar leggi grænu fóðri —
Að enn þá lofi lífið meiri gróðri,
Svo finst mér vorið vermi upp og glæði.

Mér finst að vorið vermi mig — og glæði
Í vilja mínum löngun upp að spretta,
Í laufdansinn hoppa hjá þér, golan létta,
Í hljóðum þínum syngja rímlaus kvæði.

1892

## Veðra-bálkur.

Sendibréf, sem varð ljóðabréf af tilviljun.

Mér er varnað verks í dag —
Veðrið harðnar óðum —
Línu skarnið skrapp í lag,
Skaut sér þarna í ljóðum!

Fyrst svo orðið er, eg vil,
Á við norðra raman,
Sem að skorðar skafl í gil,
Skara orðum saman.

I.

Völur góla vonzku-byls
Veðra-fól að störfum

Úr dysjum njólu á náströnd ýls
Norðar sólarhvörfum.

Hríðar hvella kviðu þær
Kveða velli og drögum;
Stuðluð fellur fönnin glær,
Frjósa svell í lögum.

Storma-klóin krafsar möl,
Kaldan snjóinn skefur,
Sinuhrófum feykir föl,
Frosinn móinn grefur.

Hvíta spólar hnykla í brár
Hríðar-gjólan dröngum.
Úfið, skjóllaust skógar-hár
Sker úr hóla-vöngum.

Skarir þrátt um skeflið grátt,
Skafnar gljátt og bitrar,
Slengjast hátt að hurð og gátt.
Hús í dráttum titrar.

Loftið ólgar on'í börð,
Eins og sólgið hnígi
Hörkubólgna að jafna jörð
Élja-kólgu blýi.

II.

Holt og vellir herma það
Hrími og svelli falið:

Lífið fellur lengsta, að
Lokum, elli-kalið.

Röðlar fleygir — fjarri er
Foldir degi prýða —
Hafa feigir fæðst, sem vér,
Fölna, deyja, líða.

Lengi sjáum geislaglans',
Geims þar lágu hnettir,
Eins og dáins mikils manns
Minjar hjá oss ettir.

III.

Alt fyrst skorðar skapa-mátt
Skuldar orðið stranga:
Fóstra storð, þú fyrir átt
Feigðar-borð að ganga.

Láð, sem gleypir liðið alt,
Líkið sveipar snauða:
Seinast steypist sóllaust, kalt,
Sjálft í greipar dauða.

Fyrri stingur frostið hert,
Fannir hingað kyngjast,
Seinna yngist árið hvert,
Ísa-dyngjur þyngjast.

Hellu-þök unz hafsins í
Hvergi er vök né auga.

Lykjast klökum löndin hlý
Læst í jökulbauga.

Kjálka hanga heimsins frá
Hafísspangir bólgnar.
Hallar vangan veröld á,
Vetur langur kólnar.

Norðrið beygja þyngslin — þá
Þiðnar ei af glugga —
Sekkur, dregið sólu frá,
Sinn í eiginn skugga.

Grund, sem kól í gaddhörð brígxl,
Gróður-skjól ei hlúa,
Þó að sólu vogi á víxl
Vöngum póla snúa.

Jarðar vanar harkan höst
Heilsu vanalega,
Sækja á hana köldu-köst,
Kör og bana-lega.

IV.

Hjól er runnið heims-aldar,
Heljar unninn leikur,
Kulnað sunnu síðsta skar.
Sólar brunninn kveikur.

Jökuldrymbum dauðri öld
Dysið timbrað getur,
Efsta dymbildags um kvöld,
Dökkur fimbulvetur.

Utar lýsa um ókunn rök
Eg mér kýs í hljóði —
Þann á ís að vinna vök
Vonin frýs úr ljóði.

1892

## Desember.

Kom heill og sæll að húsi mínu,
Og hvílstu rótt,
Með lægstu sól í lífi þínu
Og lengstu nótt.

Já kom þú sæll, með svelli og hjarni!
Eg syng þér hrós —
Með kveldin löng við eld á arni
Og óð og ljós.

1893

## Hausthugur.

‚Það haustar, það haustar', kvað hreggviðra-stuna —
Og hásumarljósinu er brugðið til muna —

Og hnignunin, váfylgja vetrarins svala,
Nú vefur í gráfeld sinn hlíðar og bala.

Það haustar, það haustar, — en hverju er að kvíða
Í komandi tíð, eftir sumarið blíða,
Sem kvatt hefir búþegn á kotum og stöðum
Með kornsælum ökrum og vel-birgum hlöðum.

Það haustar, það haustar, — Ið gjöfula, góða
Og glaðlynda sumar er hollvættur þjóða,
Sem dregur að gnægð fyrir aðra að eyða,
Og ánægt svo kveður það, fer sinna leiða.

Það haustar, það haustar — Ið blessaða blíða
Og blómlega sumar! sem þú vil eg líða
Frá sambúum ánægðum, uppskeru-glöðum,
Frá ársælli fósturjörð, kornbirgum hlöðum.

1894

## Veðurvísa.

Fjúkið sáir sinu völl,
Svell hefir dáleitt vatnaföll,
Höfðabláu hnjúkafjöll
Hærir gráa ofanmjöll.

1896

## Sumardagur fyrsti.

Þegar þiðnar í flóum,
Til þíðviðra loft hefir breyzt,
Þegar þétt-knýtt af snjóum
Er þræls-band af jörðinni leyst;
Þegar ráðviltra raknar
Úr raun, sem af vetrinum stóð,
Þegar veröldin vaknar
Á vorin með yngjandi ljóð.

Þá er lánsdagur landa
Og líf alt á jörðunni glatt,
Hún er yngd upp í anda
Og alfrjáls og kveður þá satt:
»Eg skal fegrast og fríkka
Og fella hvert ok mér af háls,
Eg skal betrast og blíkka
Unz blóm hvert og vængur er frjáls«.

— Þegar harðýðgin hnígur
Og heimskan, þau lýðanna mein!
En í stól hennar stígur
In stöðuga sanngirni ein:
Þá í lófa þér lagður
Er láns-dagur als og þín sjálfs,
Þá er sannleiki sagður,
Hver sál og hver hönd verður frjáls.

1896

## Vetrar-málverk.

Kleifin fjalla er kafin snjám,
Kólgu-stallar, skýja-faldar —
Vetur karlinn voðum grám
Veröld alla-saman tjaldar.

1898

## Sneggja.

Snjáð eru klæði á hlíða hlið,
Hald og þræðir farnir —
Þau hafa skæðir verið við
Vetrar-næðingarnir.

1898

## Kveldsetur.

Hver ljósgeisli er falinn
Um fannlagðan dalinn —
Af fjöllunum kalinn
Skreið dagurinn vestur að hafsbotn' á hnjám
og höndum, því af honum dró.
Og kul er í blænum,
Og kólga á sænum.

Og hér yfir bænum
Er hella af snænum,
Svo helkulda-hrein
Eins og heilags manns samvizku-ró.

1898

---

## Harpa.

Svipnum breytir, lagi, lit,
Loftið, sveit og vegur —
Á sig veit sín valda-slit
Vetur þreytulegur.

Blána lít eg heiðið hjá
Hnjúka-strýtum bröttum,
Þeyrinn ýtir þeim frá brá
Þokuhvítum höttum.

Þó að varla andi yl
Yfir mjallar skara,
Sól og fjalla suður til
Sveitir allar stara.

Vona að hrifin verði af sér
Veðurdrifin mjöllin,
Vita að svifið vorið er
Vestan yfir fjöllin.

Vor sem frjói laufgar lund,
Litkar mó og víðir,

Kaldan snjó af gróður-grund
Geisla-lófum þíðir. — — — —

Springa hvelt í skruggu-skúr
Skýja-belti fjallsins.
Krapinn veltist votur úr
Vetrar-keltu dalsins.

Gils úr fangi flosnar snjár,
Fjalla-vangar þána,
Skýja-drangar reisa í rár
Rauða, langa fána.

Munni blautum ljóða-lög
Leystar tauta iður,
Meðan laut og leirug drög
Léttfætt stauta niður.

Jaka-æki áin ber
Ísa-flækju rastar.
Vakrir lækir leika sér —
Lífið hækjum kastar.

Vötnum sækja farveg frá
Flóð, sem krækja í slökkum.
Uppi flækjast fiskar á
Flæddum lækja bökkum,

Straumönd þrautfleyg áir á
Uppheims brautum norðar,

Setin laut og sundfær á
Söngla í skauti storðar.

Hnappa skæra í hárið fá
Hríslur, ærið snoðnar.
Jafnvel hærum holta á
Hvíti blærinn roðnar.

Vors ei leynast letruð orð
Ljóst á grein og móa:
Sæla reynast sönn á storð
Sú mun ein, að gróa.

Einkis rétt eg man til meins
Meðan þetta er kveðið:
Vorsins frétt þig yngi eins
Upp, og létti geðið.

---

## Hláku-asinn.

Haralyndur
Hlákuvindur —
Höfundur, sem engan stælir,
Sitt í eigin orðum mælir
Hvað sem hugsar tún og tindur —
Starfar, stundar,
Straums og grundar
Öflin leysa úr ísa-tjóðri,

Opna dyrnar fyrir gróðri,
Rumska því sem bundið blundar.
Hugur neins þig hending bindur,
Hlákuvindur. — — —

Það veit enginn hvaðan hann kemur
Né hvert hann á endanum fer.
Ei garður né húsrúm 'ann hemur
og horfinn og kominn 'ann er.
Og veki hann, vill hann samt eigi
Neinn varist né gruni það hót.
»Við vöknuðum sjálfir«, þeir segi,
Er sex hundruð mílur af vegi
Hann hlaupinn er heims-enda mót.

Hann snertir, að hressa og hreyfa
Og hoppar svo létt út úr bæ,
Úr flatlendis fannkyngi dreifa
Og fjöruna þvo upp úr sæ.
Hann langt upp í loftinu svífur,
Hann lágt o'n í götuna nær —
Hann hattinn af höfðingja rífur
Og hispurs-mey stórláta þrífur
Í fang sitt og faðmar og hlær.

Hann ber með sér snefjar af snjónum,
Sér snýr hann og blæs stundum kalt,
Og lyktina af lynginu í mónum
Oft leggur af honum um alt.
Hann vaggar ei blómum og börum,

Né blæs fyrir ljúflinga-dans —
Frá fjöllum og fjörðum og vörum
Og fjörum og snæbólstra-skörum
Er viðlag í vísunni hans.

1899

## Vorsveltan.

Korkuð borin bláma af sult
Blóm, í skor og rjóðri —
Nízkt er vor og naum-gjöfult.
Nú er hor í gróðri.

1899

## Albata.

Vikið er snjó sem vetur hlóð,
Víðiskógur lifir —
Hýr, sem fró við fullgert ljóð,
Fjöllum ró er yfir.

1901

## Tíðarfarið.

Sjálfsagt máttu segja það
Sé nú smátt í rími!

Sunnanáttin sezt er að,
Sumars háttatími.

Slegna hlíð og hirtan völl
Hreggin tíðu næð' um —
Jörðin bíður, afklædd öll,
Eftir hríða klæðum.

1901

* * *

Mér er haust í hug, á vör —
Húm er austan-geimur,
Sezt í klaustur kæti og fjör,
Kuldanaust er heimur.

Héraðs-saga er sólskins bönn,
Sinu-haga fraus um.
Grúfir á skaga skuggi og fönn
Skemtidagalausum.

## Skruggu-bylur.

Biksvart ragna-rökkurs tjald
Reflar himinbauginn —
Út við skuggans skarar-fald
Skjálfa reiðar-slögin.

I.

Suðri með dembuna
Suðandi í vindinum
kemur, í húsþökin kippandi
Köldum með súg.
Hrímþoku kembuna
Hér o'naf tindinum
Lár o'ní skarðanna lyppandi —
Lítt' á 'ann nú!
Vænghrjáðum smáfuglum vippandi,
Vorlauf af öspinni klippandi,
Grasinu sviftandi — múg eftir múg.

II.

Herlúður upphimins öskrar nú hátt,
Æðandi stormurinn brýzt fram um leið,
Þjótandi byltir sér átt móti átt
Eldþrungin, kuldablá, voldug og reið —
Virðist mér himininn hvelfa sér niður
Hopandi jörðina fangbrögðum taka.
Vobrestir loga upp, vatns-dropa kliður
Verður að gnýförum, nú haglar klaka —
Veröldin hverfur mér, hauður og hafið
Himnanna eldmyrkri byrgt er og vafið.

1902

## Vor fyrir dyrum.

Vorsins vörmu-spor um
Varpann sjást í snjónum,
Þíðu-eyður auðar
Út' á velli grónum.
Dís — á armi asans —
Yfir klif og skriður,
Heit-fætt, hjarngólf sveitar
Hefir dansað niður.

Lækjar-strengur leikur
Laus um bjarka-salinn.
Hörpu sína Harpa
Hefir spent um dalinn.
Flöt við þökin þýtur
Þíðan blíða, eður
Skoprar inn um opinn
Útiglugg og kveður.

Þánar ós við ána,
Ís úr vör og storðin —
Sjáðu, að ljósi og ljóðum
Loft og jörð er orðin.
Öll er alsett gullrún
Opna dalsins hvíta,
Kliðuð geisla-kvæðum,
Hvert sem augun líta.

Tungu-taks og vængja
Tjóður leysir vorið.
Hug og fæti um hagann
Heldur léttist sporið,
Svífa arnfleygt yfir
Auðn og vetrar-grámann
Æska mín og óskir
Upp í fjalla-blámann.

— Vinur vors, er mínir
Vængir fenna síðast,
Þeim á loft ei lyfta
Loftar vorkveld blíðast:
Hver mun þá, er þegjum —
Það er sem eg spyr um!
Kveða í vísu við þig:
Vor er fyrir dyrum.

1902

---

## Vetrar-smíðar.

Norðanlæg um fold og fjöll
Fjúkin vægu ganga.
Jafnt og hægan mokar mjöll
Muggan dægurlanga.

Skafnings afltök mitt úr mó
Maldað hraflið krafla,

Heild og kafla af hrærðum snjó
Hlaða í skafla-gafla.

Fenni í hlíða hæstu skjól
Hengja tíðar kyljur.
Rennings-hríða hörku-tól
Hefla og sníða þiljur.

Bylja-völd frá bergs og mars
Brúnum, köldu og háu,
Rofnum skjöldum skýja-fars
Skara tjöldin gráu.

Hladdu upp fjöll og hyldu skor,
Hamraðu völl sem getur!
Öll þín höll skal hrynja í vor,
Heljar-tröllið vetur.

Rudd og unnin senn mun sú,
Sem til grunna brynni —
En við sunnan sólbráð þú
Sjálfur brunninn inni.

1906

---

## Útlitið.

Hlýleg er hvítan á fjöllum,
Hlánað í dölunum öllum,

Móeygar vakir í völlum,
Viknandi skaflar í höllum —
Himininn hvíslar og þrumar,
Hrifinn af fáti og leiðslu —
Nú heldur sólskin og sumar
Sex-mánaða veizlu.

## III.

# YFIR MINNUM LANDS OG LÝÐA.

Hvert sem þig hvelið ber,
Hvern veg sem reiknað er:
Kveddu mér, ættingi, óð um
Alt sem þú hatar, ant,
Alt sem þú fanst og kant.
Sendu mér land þitt í ljóðum.

Heimilið mitt er heimur sá,
Þar húmið og ljósið skiftast á.

Og önd mín lifir aðeins þá,
Ef yndi og sorgir skiftast á.

1894

## Kvaddur Skagafjörður.

Eg kveð þig, fríði Fjörður minn,
Og fjallahlíð með snjóinn sinn,
Og litla býlið við blásinn mel,
Sem börðin skýla — Farið vel!

Og æsku-bræður, sem orðum með
Í öllum kvæðum eg tregast kveð,
Eg einn á vegi samt ykkur tel,
Unz æfin segir —: Farðu vel!

1869

## 1874.

Vakna þú, því haninn gjalli galar,
Göfuglynd og táp-hraust Íslands þjóð!
Vakna þú, því rómur tímans talar
Til þín nú, þó kosti líf og blóð.
Stattu upp, með styrk og nýjum krafti —
Stæltir brandar glumdu fyr við rönd.
Höndin sú, sem skelfur ei á skafti
Skorið getur öll í sundur bönd.

Líttu upp, ið forna er á förum,
flónskan ill, sem þjáði veika drótt.
Undan norðurs kólgu-skýja skörum
Skína ljós, sem eyða dimmri nótt.
Hertu tök, svo hvítni öflgir knúar,
Kjóstu stríð und sigurmerki háð —
Staðist fær ei falsið raga, er kúgar,
Fullhuganna djarfa augnaráð.

Haldið áfram, hraustu, göfgu sveinar,
Hnígið fyr en víkið undan fet —
Breytið hrjóstri í blómgar akurreinar,
Bezt að fylla ykkar sigurmet.
Þá mun engin yrkt og velli frjóa
Aftansólskin haustsins dvelja við,
Áin bláa bakka grænna skóga
Breiða móti vorsins gleðiklið.

— —

## Jón Árnason frá Víðimýri.

— —

Nú gerist hljótt á bónda bæ,
Burt eru liðnar glaðar stundir,
Dauflyndið vex og dafnar æ,
Deprast og fækka manna-fundir,
Hann, sem var yndið alls, er frá —
Ekki er kyn, þó söknun vektist,
Sjálfs hans heimili ei að eins á
En alstaðar, hvar sem til hans þektist.

Hans er saknað úr bæ og borg
Bæði ótengdra manna og frænda,
Dauði hans þyngdi á þjóðar-sorg
Því hann var yndið vorra bænda.
Á götum úti grætur hann
Inn göngulúni ferðamaður,
Gestsvininn holla í höfðings-rann' —
Húsin hans voru griða-staður.

Þó urðu honum húmin köld,
Og háski leið frá næstu bæjum —
Hann féll í vök um vetrar-kvöld,
Og vatnið fal hann sínum blæjum.
— Hans minni er kannske moldin tóm,
sem margra heima á okkar Fróni,
En eg held gleðin breiði blóm
Á beðinn þann sem skýlir Jóni.

1876

*

## Visa úr „Yderst mod Norden".

— Þýtt. A. Munch. —

Þó nánasta frændlið sé fjar-býlis þjóð
Í fjörðum við hafís og snjóinn:
Æ, sendum þó blóðtengdum bróðurlegt ljóð
með blæ, sem fer vorleið um sjóinn.

Og skenktu því þröstur, þín skærustu hljóð
Við skóginn.

1878

---

## Sigvaldi Jónsson barnakennari.

Hljómum fækkar héraðsljóða,
Handrit versna um Skagafjörð —
Sveitar-skáldið fjölvits fróða
Fór í vörð hjá þögn og jörð.

1879

---

## Bjarkamál in finsku.

— Þýtt. J. L. Runeberg. —

Niðjar fólks, sem féll og stóð
Í flestum hættum, sem á slóð
og blóðblett sinn í öllum löndum.
Enn er fylkt af finskri þjóð —
Hver fjandmaður sem býðst
skal kaupa dýrt vort blóð.
Upp, upp, nú er úti um frið!
Í opið gin á dauða-hríð!
sem slengir hingað víga-bröndum.
Stikum, stikum hlið við hlið
Að hníga og sigra
að vorra feðra sið.

Rétt er vort mál,
Röska fylgd því gerum!
Beitt er vort stál,
Blóðrás vanir erum.
Áhlaup, áhlaup, áhlaup djarft!
Svo enginn svigni við
er ráð að geisa hart.
Reis þig, vor sigursæli fáni!
síðan í fornöld höfum við þig geymt og átt.
Finnland skal bera fánann gamla hátt!
Og fella ei nema allir-saman
liggjum lágt.

1879

---

## Sigríður Jónsdóttir frá Eyjardalsá.

Nú ertu sofnuð,
Sigríður kæra!
Sofnuð sætlega
Svefni værum;
Lokuð augu,
Luktar varir,
Flúinn roði
Úr fagur-kinnum.

Stendur rekkja þín
Rökkri tjölduð,

Umvörð úrsvölum
Úthafs straumum —
Orðnar eru þér
Uppeldis-systur
Allar öldur
Á Atlanzhafi.

1881

---

## Sigurjóna Sigurbjarnardóttir frá Mountain.

Og hér er gröfin þín — hún er nú alt
Það eftirmæli, er lífið um þig gerði.
Þetta moldar-kumblið svart og kalt
Þar hvergi festir gras á rofnum sverði —
Ó, vor og æska, áttu ei nokkurt blað
Sem ætlar sér að prýða leiði það?

En eg skal þó — á meðan bliknuð blöð
Á blásnum eikum nú á hausti þynnast,
Kring leiðið þitt sem þétta falla í röð —
Á þína hinztu kveðju snöggvast minnast:
»Æ, komdu eitt sinn, syngdu lítið ljóð
Á leiði mínu — gröfin er svo hljóð«.

Því kaustu mig? sem á svo æsta sál
Sem ólgusjó, er norðanvindur þrymur,
Og kvæða-hreim sem hrepti ís og bál,
Og hörpu, sem að andrómunum glymur,

Að kveða við þig vöggu-ljóðið rótt
Í værðar-svefni um miðja dauða-nótt.

Eg man það enn, er þig eg síðast sá
Með sokknum augum og með kinnum fölum:
Þú vissir glögt, að leið þín hingað lá
Um langan veg, hvert spor þú steigst með kvölum.
En sál þín hógvær huggun næga fann,
En hugur minn af órósemi brann.

Hvert glaðvært orð að eyrum þér sem barst
Þér unaðs-bros á skorpnar varir færði.
Svo þrautum-glöð og þolinmóð þú varst,
In þæga sál við prísund sinni ei hrærði.
Hver stundar-geisli er glórði á þína önd
Varð glóð sem aftanskin um vorsins lönd.

Æ, sof í friði þrautum þjakað hold.
Við þjáning lífsins hlífir gröfin létta —
Svo hvíl í friði. Miskunnsama mold,
Þú mátt hér engan grát-við láta spretta!
En settu henni á vöxtu bartré vænt
Sem veðurbrigðum rétti limið grænt.

1883

---

## Egill Gottskálksson frá Skarðsá.

—

Bernsku minni í bóka-leit
Bjargaði vit þitt fróða —

Frá þér erfði okkar sveit
Æfi-sögu góða.

---

## Tvö brúðkaupskvæði.

I.

Í brúðkaupi ef verður á veitingum hlé,
Og vínlaus ef boðsgestur situr,
Þá stendur hann upp — nema studdur hann sé —
Og stanzlausa prédikun flytur.
Þó fari í óskilum efni og mál
Er endirinn góður og fyllir manns skál.

Því brúðhjóna minnið sú uppspretta er —
Svo á fyrir skál þeirra að mæla:
Að þrámálga að ást sé í almætti hér
Og af henni stafandi sæla,
Og hrósa því rétt eins og hefðu nú fyrst
Í hjóna-sæng manneskjur faðmast og kyst.

Og næst er, að þakka hve vel sé nú veitt —
Að vörum sér staupið svo bera.
Sé púnsið ei afkælt en aftaka heitt
Má aftanvið ræðuna gera,
Og alvaldi senda þá alsherjar bón,
Að aldra og blessa in nýgiftu hjón.

En neitirðu að hafirðu heyrt það og séð,
Eg held þú sért farinn að gleyma;

Eg býð um það vottorð, sem verið hef' með,
Á vísu um það skrifaða heima,
Og rétt í þeim skorðum, sem skýrði eg frá —
Og skáldmæltur var eg nú kallaður þá.

En nú vil eg helzt ekki hafa það eins,
Þó halli það skáldgæfu minni —
Í kveld væri óþarft að óska hér neins,
Öll ánægja býr hér að sinni.
Og haldið eg bætti ei úr basli mín sjálfs
Ef bæn mín og óskirnar næðu til hálfs?

En hvað get eg áhitt í óskanna stað?
Jafn armur og bænalaus maður!
Þið brúðhjón, ef lánið snýr öllu ykkur að,
Eg ann ykkur þess, og verð glaður.
Og ætti eg gæfu að greiða ykkar veg,
Þá gerði það enginn neitt fegnari en eg.

Og ef ykkur mótlæti mætir, og þið
Ei megið það forðast, að líða,
Að gugnið á þrekinu þrautirnar við
Af þolleysi, skal eg ei kvíða —
Öll jarðneska sælan er sigur í raun,
Menn sækja ekki á himininn fegurri laun.

1885

— —

II.

Í vertíð Nóa veröldin
Var verri en nú,
Því þá var glæpur, góði minn,
Ef giftist þú.

Sá guð sem átti austurlönd
Stóð öndvert gegn,
Og handónýtti hjónabönd
Við húðaregn.

Því flóðið valt af fjalli í dal,
Sem fyr var þur,
Og bleytti sérhvern brúðarsal —
Þá bullóð hvur.

Og vatnið reis — sú remi hljóp
Í regn og vind;
Þau gátu skolað hjóna hóp
Af Heklutind.

Og bóndi komst þá enginn af
Um alla grund.
Þeir sukku eins í kolsvart kaf
Sem kendu sund.

Að Nóa flæddi nærri lá,
Hann naumast flaut
Með óleyst reipin ránum á
Og rifuð skaut.

Og skiprúm varð hans frú að fá
Og forráð skírt,
Því gáð, hún sagðist gizka á,
Að geta stýrt,

Hún vissi á Nóa sótti svakk
Og sjálfgleymið,
Og kerla sá að kút hann stakk
Í koffortið.

En Nói — eins og Flóki fyr —
Lét fljúga hrafn
Í óhagstæðum austanbyr
Frá arkar stafn.

En krummi, laus við örk og alt,
Við eggver sat,
Og hreiðraði um sig ofanhalt
Á Ararat.

En dúfan vildi ekki ein
Sér una þar —
Af fjalldrapa hún flaug með grein
Til fleýtunnar.

Af þessu sást nú furðu fljótt
Hvað fór í hönd —
Í gamla horfið hefir sótt
Með hjónaböndd. — — — —

Fyrst forsjón gekk á fremsta stig
Við flóðsins slark
Er von þó margur signi sig
Hér suð'r á Park,

Sem gætir þess, hver grúi manns
Sig giftir hér,
Og spái illu um eyðing lands,
Og uggi að sér.

Og þó er enn þá alt svo spakt,
Og alheil þjóð,
Og ekki stærra 'straff' við lagt
En staupa-flóð.

Og öll við til þess hlökkum hlýtt —
Né hræðumst grand —
Með brúðhjónunum byggja upp nýtt
Og betra land.

Og þeirra högum hugsar hver
Sem hófið sat:
Þau auðnu-lönd, sem æðst hann sér
Frá Ararat.

1886

## Kveðið eftir drenginn minn.

---

I.

Svo far þú í guðsfriði, gamla ár,
Í gröfina liðinna tíða!
Með fannstormsins ekka, með frostbylsins tár
Á förum þú kveður — Eg man þér hve sár
Mín sorg var, er sá eg hann líða,
Og seinast of-þreyttan að stríða.

Já, þú mátt nú loka mér leiðið hans
Að lyktum með skaflinum kalda,
Því enn sé eg bláheiðu augnanna glanz,
Eg enn heyri róminn míns litla svans,
Lít kollinn minn fríðlokkum falda —
Það fylgir hve langt sem skal halda.

1887

II.

Það var í fyrra,
Er fyrstu spruttu
Sumarblóm vorskúrum vakin:
Götuna þessa,
Sem geng eg einsamall,
Hljópstu við hlið mína, kæri.

Blikandi blómum,
Blöðum grænkandi
Fyltirðu lófana litlu.

Kvað við í runn',
Ef ranstu framar,
Barns-rödd þín: »Babbi eg er hérna!«

Hallaði hausti,
Héluð frusu
Laufin, við götu sem geng eg —
Fótur þinn máttvana,
Munnur ískaldur,
Stirðnaðir lófarnir litlu.

Um geng eg einsamall,
Enginn mér tínir
Blóm, sem við götuna gróa —
Inn'í rósa-runn'
Rödd eg heyri,
Barns-röddu: »Babbi eg er hérna!«

1888

III.

Það er blómknappur smár frá hans gróinni gröf,
Sem að greri þar vordögum á.
Það er myndin hans sjálfs, hans og sólskinsins gjöf,
Komin svipheimi minninga frá.

Þetta mjallhvíta lauf, er sem ennið hans bjart,
Þegar andláts-ró grúfði sig þar.
Og í ljósgulum hadd, sé eg hárlokka skart
Sem af hel-svita gljáandi var.

Þetta blá-milda blik sem úr bikarnum skín —
Djúpt sem bros yfir auðséðum harm —
Það er tillitið hans, þegar horfði til mín,
Það ið hinzta sinn, sloknandi hvarm.

— »En þú horfir í gröf, vilt ei himinin sjá,
Því er hug þínum missirinn sár«.
Er það bótalaust böl ef að bara eg á
Þessi blóm, þessi ljóð, þessi tár?

1895

IV.

Eg kveð þig sumar — Haust eg heilsa þér
Af hnjúknum þeim sem landamerki er.

Að baki liggur sveitin sumarlöng,
Með sólskins-morgna og þýðan lóu söng.

En við mér blasir sveit, ei sjónum víð,
Því sólarlag er þar í miðri hlíð.

— En trú þú ei, eg hnugginn harmi grand,
Þó halli on'í kveldskugganna land.

Við herra lands þess hef' eg löngu sætzt
Og honum treysti — við höfum fyrri mætzt.

Mín kveðja vís til vinar horfins er:
Æ, vel fer um þig, hvert helzt sem þú fer!

Og hún var alveg svona, þetta sinn,
Er síðast kvaddi eg litla drenginn minn.

En land hans mínum muna ljúf'ra var,
Og moldin kærri — fyrst hann hvíldi þar.

— Að þurfa að snúa heim á leið til harms,
Þó hugur kvíði ekkaþrungins barms:

Þá er það víst, þeim undan því ei vék,
Að óbætt sorg er karlmenskunni þrek.

1901

---

## Barns-missir.

— Gert að óskum annars manns. —

Eg stóð sem lostinn, leit með ró
Inn litla, kalda náinn.
Eg trúði varla, en vissi þó,
Þú værir, barn mitt, dáin!
Svo hrökk eg við, í hjartað skar
Mig hreyfðarleysið á þér —
En lífs-von um þig lengstu var
Ei laust að slíta frá mér.

Eitt augnablik, og um þig var
Eg enn við Hel að keppa;
Víst hlaut minn rétti réttur þar
Að ráða, en hún að sleppa!
Þig, falda inn í faðminn minn,
Eg frá henni megna að taka,

Og geta vermt upp kalda kinn
Og kyst þitt líf til baka.

En svo kom skynsemd, skýr en sár,
Eg skildi að þú varst liðin.
Mér brann það, eins og öll mín tár
Í eldi lægju sviðin,
Og strax hvarf sérhver von og völ
Úr vilja og mínu hjarta,
Mér fanst mér orðið alt að kvöl,
En ætti ei mátt að kvarta.

Svo gekk eg inn og út, hvern dag,
Sá alt sem forðum vera,
En fanst það einhvern ógeðs-brag
Og einkis-virðis bera,
En komið sviplegt flótta-far
Á fegurð alla og blíðu.
En döpur auðn og ami var
Mér æ á hvora síðu.

Og morgun hvern við hjarta-þraut
Eg hrökk upp til að vakna,
En mundi ei fyrst hvern harm eg hlaut,
Né hvers eg var að sakna.
Eg taldi mína minni í,
Eg mændi gegnum húmið,
Svo festust augun enn á því:
Að autt var litla rúmið.

Sá vetur leið. — En langdegin
Nú leiða verk úr sárum —
Því til er vor og viðreisnin
Í verstu kulda-árum.
Nú sé eg, ást mín, andlit margt
Um ættsveit barnaríka,
Það svipar til þín sérhvað bjart
Í svipnum þeirra líka.

Og hvar sem sára saknaðs-kvöl
Nú sé eg aðra líða
Það er mér nú svo nátengt böl,
Mér nauðir þeirra svíða —
Þín höndin dauðans hömlum í,
Er harmar rofa og mildast,
Gat opnað mína elsku, því
Sem er þér líkt og skyldast.

1887

---

## Bandaríkin kvödd.

Vel sé ykkur framtíðin,
og fjölgi sannleiks þrár!
Í fósturlaunin öll á mér
í þessi sextán ár —
Þið sem að lokum eigið
svo marga taug í mér,

Sem mig til ykkar dregur,
hvar helzt sem eg er,
Hvað sem stýrir góðu,
og hvað sem illa fer!

1889

---

## Til Skafta Brynjólfssonar.

Eg sendi þér kveðju og »kongratulation«
Í kvæði, uppá þína »nomination!«

Þeir áttu ei raunbetri dreng eða djarfari,
Sem dyggari reynist né almenning' þarfari.

En svo er nú eftir að sjá hvort menn skilja það,
Og svo hvort að kjósenda-rýjurnar vilja það:

Að þú, sem þeim annað ei leggur í lófana,
Á lögþingi mætir í stað þeirra hróanna.

Nú fer eg að gæta hve fjölmennur verðirðu,
Er framsókn í kosningar-orustu herðirðu.

Og fyrst, til að sjá hversu farnast það hljóti þér
Sem foringja, tel eg upp liðsaflann móti þér.

Með þér verður enginn af ölglasa-laupunum
Sem atkvæði greiða með brennivíns staupunum.

Í flokk þinn slæst enginn af aðkeyptu bleðlunum,
Sem atkvæðum pranga mót fimmdala-seðlunum.

Og lítil er fremd þín hjá fjárglöggu aulunum,
Sem fylgja með atkvæðum rollunum, baulunum.

Og svo verða móti þér safnaða-tyllurnar,
Því sjónhverfing gera þeim rétt-trúar grillurnar.

Til hvers að reikna þá? Urmull sá ægir mér,
Sem ósigur nærri því handvissan sæi þér.

En Skafti, eg óska ei heldur það hendi þig,
Að hópur sá, óbreyttur, fetlengju sendi þig!

Þeir eiga ei samt raunbetri dreng eða djarfari,
Sem dyggari reynist og almenning' þarfari.

Og sterkara verður, ef valmennin róta sér:
Eitt »votum« sem þetta, en tuttugu móti þér.

1889

---

## Til Björns Péturssonar.

Með örin hálfrar aldar
Frá orrahríðum lífs,
Með frægðir fleiri en taldar
Og fremd á velli kífs,

Með hjartað hlýja og djarfa,
Með hraust en sáttfúst geð:
Þér heilsa eg, hetjan þarfa,
Og heilla-óskum kveð.

Þitt stríð, er stríð ins unga,
Af styrk og fjöri háð.
En öll af elli-drunga
Er æska lands vors þjáð.
Sú doða-deyfðin reyrði
Svo dátt, að einn varst þú,
Sem heróp tímans heyrðir
Um hreinni og fegri trú.

En enn þá er það voði —
Þótt ei það kosti blóð —
Að lúta ei lýðsins goði,
Að landsins venju og móð.
Og enn á last og lygi
Sitt lymsku-vopna búr,
Og myrkra-veldis vígi
Er vanans trúar-múr.

Nú ertu elli-hrjáður,
Þú eflaust hefir þreyzt,
En berst sem ungur áður
Svo örugt, því þú veizt —
Er hrokans heróp gellur
Með hlátrum þig um kring —:
Sá legst ei lágt, sem fellur
Fyr' ljós og sannfæring.

Þér heilsa eg hetjan þarfa,
Og heillaóskum kveð:
Að lúkir lífsins starfa
Við lágan grafar-beð,
Með fleiri frægðir taldar
Og fremd á velli kífs,
Með örin heillar aldar
Frá orrahríðum lífs.

1891

## Sigurbjörn Stefánsson frá Winnipeg.

Við flytjumst allir feril sama og þú!
Þó fáum stuttum ára-sporum geti
til vettfangs munað — samt er leiðin sú
Þó samkvaðning á hinsta æfifeti.

Já öllum jöfn. — En aleinn sérhver fer
Við æfi-hvörf á dauðans skuggavegi.
Því þjóðbraut heljar víð sem veröld er,
En vörðuð þröngt, svo leiðst menn geta eigi.

Nei, enginn leiðir þar. — Og því er neinn
Við það jafn geiglaus og inn vegamóði,
Sem hefir farið ferða sinna einn
Og fylgdarlaust, þó beindi ei spor né slóði.

Sem hefir farið einn. — Og eins og þú
Sér einstíg rutt úr troðning vanans lesta,
Um foröð lífssins sjálfur bygt sér brú,
Ei brautir krækt er ganga sá hann flesta.

Ei beygt né krækt, þó breidd af skrílsins hönd
In beztu klæði á götu sína fengi,
Né þó að hroka-hjátrú æpti um bönd
Í höft á þann, er sína leið ei gengi.

Og dauða-kvíðinn kjarkinn þinn ei skar,
Þú kveiðst því meir' að þreytti æfi-lúinn. —
Þitt líf varð stutt, en styrjöld löng það var.
Það stríð er þungt, sem heyir einn við múginn.

Svo hvíl í friði, félagi! Þitt skeið
Þú fórst sem vissir stefnuréttast, beinast.
Og engum þeim sem aðra krækja leið
Á endanum mun hvíldin værri reynast.

1891

## Útlegðin.

Eg á orðið einhvern veginn
Ekkert föðurland,
Þó að fastar' hafi um hjartað
Hnýzt það ræktar-band,
Minn sem tengdan huga hefir

Hauðri, mig sem ól,
Þar sem æsku-brautir birti
Björtust vonar-sól.

Fóstran gekk mér aldrei alveg
Í þess móður-stað,
Það var eitthvað á sem skorti —
Ekki veit eg hvað!
Og því hef' eg arfi hennar
Aldrei vera sagzt. —
Þó hefir einhver óviðkynning
Okkar milli lagst.

Eins eru ei dalir, firðir, fjöllin
Fósturjarðar góð,
Byggi héruð, hlíðar, strendur,
Hálf-ókunnug þjóð.
Muntu eins feginn faðma að þér
Frænda og vina-lið,
Getirðu andans ættar-svip þinn
Ekki kannast við?

Enn um vornótt velli græna
Vermir sólskin ljóst,
Enn þá lækir hverfast kring um
hvelfdra hlíða brjóst,
Báran kveður eins og áður
Út' við fjörusand —

En ég á orðið einhvern veginn
Ekkert föðurland.

1891

## Frá nýju nágrenni

Hér, þar sem Red Deer rennur
Úr »Rockies« austanvert
Út milli ása og kvosa
Um Alberta-héraðið þvert,

Hirðingjar aðsetur hafa
Og hjarðir um barð og laut
Dreifðar. — Og sumt eru sauðir
En sumt eru mannýg naut.

Anzkotans uppgjafa-þjónar
Og embættisleysingjar Guðs
Hér gaufast, sem Grikkir hjá Leþe,
Í gleymsku alls boðorða-suðs.

## Vestur í frumbýli.

Úr ferða-flækings sveim
Mér finst eg kominn heim

Í kotin yngri ára,
Við afrétt, heiða-geim.
Og komumanni kemur
Að hvíla sig hjá þeim —
Af ferða-lúr og flakki
hann fengið hefir nóg
Um sáðlöndin sólbrend
Um svartviða-skóg,
Því lífið þar varð leiði,
hann lengi aldrei bjó
Við sáðlöndin sólbrend
Og svartviða-skóg —
En hér er alt svo auðvelt
Og æsku-vingjarnlegt,
Og kotin sitja sveipuð
Í sveita-lífsins spekt.
Sko, hérna undir hólnum
Sést hús í grænum blett,
Við ána, sem eg unni,
Grær eyrargrundin slétt.
Dreifð bæja-bygð og þétt
Í bláfells umgjörð sett,
Sýnd heiðslétt, hóla-grett,
Með lind og læk og runni.
Með alt það sem eg unni
Og yrkja snjallast kunni,
Í bernsku blint sem hreif mig
En burtu frá eg reif mig,
Og alt er eins og rétt mér,
Hver unaðs-stund, hvert mein. —

Og svo hef' eg sett mér
Einn svo lítinn blett hér:
Í kyrþey lífs að kveldi
Sem hvíli íslenzk bein.

1891

## Gísli Dalmann frá Mjóadal.

Og nú er hann týndur úr lesta-ferð lífs —
Hann lagðist til hvíldar í áfanga-stað,
Og lífsreynslan snerist upp andvöku í
Og áreynsla dagsins varð þjáningu að,
In rósama nótt fékk ei sárindin svæft
Með svefnfróun blíðri né stunið hans kæft.

En þá lyfti dauðinn að höfði 'ans hljótt
Upp hælaðri skör, meðan enginn sá til,
Og sig upp að rekkju hans dulklæddur dró
Sem dimman og þögnin, um lágnættis bil,
Og stakk honum svefnþorn sem sefar hvert mein,
Sem svæfir að fullu og þaggar öll kvein.

Svo nú er hann týndur úr lesta-ferð lífs —
Þeir lögðu upp að morgni, en eftir hann varð
Með sólskinið létt fyrir legstein og blóm,
Er líkfylgdin dreifðist úr þögulum garð —
Hans dagleið var kapphlaup um klungur og töf,
Og hvíld fékk hann loksins í útlendings gröf.

Svo týnumst vér flestir úr lestaferð lífs
Og leifum ei eftir oss stíg eða spor —
Það sést kannske í ógrónum, útlendum garð'
Einn áratug steingleymdur legstaður vor,
Sem tjaldstæði autt eður innfallin hlóð
Á útbrunnin kol, þar sem lífs-arninn stóð.

1893

---

## Til Jóns Ólafssonar.

— Afmæli 25 ára ritstjórnar. —

Haf þökk fyrir margt og mikið,
Sem mælir ei hending stutt.
Fyrir hugrekki í herferð lífsins,
Sem hafa oss ljóð þín flutt.
Fyrir orð þín um aldar-fjórðung,
Svo óhikuð, stór og þörf —
Þó fjandmönnum fyndust þau sárbeitt
Og félögum háskadjörf.

Þú dæmdir, þá aðrir dylgdu,
Þú drógst af alt yfirskin
Í kappsmálum tímans eins kjarnort
Sem kvæði eftir dáinn vin —
Og minning þín gleymst ei getur,
Þú griðastað henni bjóst,
Því inn í sjálfs þíns sögu
Þú sögu landsins þíns ófst.

1893

---

## Minni Alberta.

Þú fagra sveit í fjalla arm',
Vor fóstran unga, nýja,
Sem vermir milt þinn mjúka barm
Við morgunsólu hlýja,
Með silfurtæru fljótin fríð,
Með flöt og kletta-hallir,
Og marga græna grenihlíð
Við gljáar vetrar-mjallir.

Sem réttir dala-faðminn fram
Með fellum, hólum, skörðum
Og mörgum hlé-skóg', hlýjum hvamm,
Til hælis veðurbörðum.
Með grænna slétta gárótt höf,
Sem golur aldrei hræra,
Með hundrað vatna heiðblá tröf
Og hlíða-læki tæra.

Með náttbjart vor, með norðurljós
Á nyrzta jökulhorni,
Með hrímið hvítt um rauða rós
Á rökum sumarmorgni.
Með vorrjóð, þykkleit Þorra-ský,
Sem þeysa um sólar-glampa,
Unz þýðu-brosin hreyfast hlý
Um hrímga vetrar-kampa.

Þú fóstran ung, sem fjöll þig kring,
Hjá frelsi og þjóðheill vaktu,
Og að þér margan Íslending
Í útlegð sinni taktu —
En spentu lengst þitt fjalla-fang,
Með frosti og jökulstáli,
Á móti auðvalds yfirgang'
Og ofsa-trúar báli.

1893

## Eftir frændkonu mína.

I.

Ef lít eg á hausti yfir grund og garð,
Á gulnað lauf um skógarbarð,
Og akrana stýfða og auða:
Eg finn það er líkn, þó að lund mín sé hljóð,
Að létt er að kveða því erfiljóð
Sem fullþroskað fellur við dauða.

Á leiðið þitt þegar litið mér varð,
Í lágum og þröngum kirkjugarð'
Sem minti á lífið þitt liðna:
Mín einasta huggun var hugsun sú,
Að höndin þín útslitna hvílist nú,
In sárþreytta, árvakra, iðna.

Því hnignun þíns þroska ei haustnótta beið,
Þér hálf-aldra brást hann, á miðri leið —

Svo eyddir þú æfinni þinni
Svo kulnuð, svo einstæð, en öflug sem björk,
Þó eldur um vor hefði geisað um mörk,
Hélt lífi, þó laufskrúðið brynni.

Og fólk þinnar samtíðar furðaði ei sig,
Að farsældin virtist að leika við þig,
Á allsnægta örmum þig bera,
Því það fanst því sjálfsagt — en samt ekki nóg,
Það saknaði úr fullorðins-dögunum þó
Þess einhvers sem átt hefði að vera.

Það vissi, að þinn hugur var hvass og ör,
Að harðflóknar gátur þín skýru svör
Oft gripu og ljóst úr þeim leystu,
Sem skruggu-ljós brýzt gegnum skúra-loft svart
Um skýjaða sumarnótt, óvænt og bjart,
Svo veginn þér fram undan veiztu.

Það sá er um afrek og íþrótt var rætt,
Þann eld sem það hafði í sálinni glætt
Og skein þér úr auganu skýra,
Þó ekki við hrollinn þann yrði það vart,
Sem ólgaði um taugar og hörund þitt snart,
Sem vestankul vorskóga hýra.

Og ennið þitt höfðinglegt, heiðslétt og bjart,
Í hugina læddi inn grun um svo margt,
Sem biði rétt stundar og staða.

Menn fundu, sér örfaði unað og fjör
Inn ómþýði hlátur frá brosandi vör,
Og glettnin í auganu glaða.

Og höndin þín kvenlega, knáleg og feit,
Sem kærleikur mjúk og sem einlægnin heit,
Jafn hæf til að styðja og hjúkra:
Öll vandaverk sýndist að gæti af-greitt
Og geirinn, ef þyrfti, eins hæglega reitt
Sem hagræða hægindi sjúkra.

En sjálf maztu veröld, og virtir þinn dug,
Með vaxandi manndómsins örugga hug,
Sem yrkir á góðkrafta giftu,
Unz forlögin réttu út fárrama hönd,
Sem frostnótt á sumri um akurlönd,
Og kjarngróðri úr æfinni kiptu.

Og þá lagðist hnignun og haustskugga blær
Á hugsun og svip þinn — og rómurinn skær
Varð hljóður og hláturinn létti.
Og dags-verki hverju þín eftirsókn í
Var einungis lúinn, sem veittist með því.
Hann farg yfir sorgirnar setti.

II.

Með sigursins kjark-festu kvatt get eg mann
Mér kæran, í lífinu er naut sín og vann
Til takmarks, svo tálmun gekk miður —
En ætti eg að hugsa mér hæfari stað,

Eg helga 'onum kraftinn og atgerfið það
Sem forsjónin níddi hér niður.

Þér blöskrar sú ofdirfð: að þræta við þann
Sem þessum heim' stjórni, sem ræður og kann,
og velur þann veg, sem er beztur —
Þó hann ráði dómum eg dirfð hef' og mál,
Að deila um hverja hans glötuðu sál.
Ei skiftir hvors máttur er mestur.

Til komandi alda skýt okkarri sök,
Sem enn skulu meta og dæma þau rök,
Og öruggur úrskurðar beiðist —
Því mannkyn í framtíma forðar þess sér,
Að fargist eins margt það sem gervilegt er,
Ef fordóma arfleifðin eyðist.

III.

Svo kveð eg að hinztu — en heimskan í lýð
Sem heyrir það, æpir eg risti þér níð —
Ei þín vegna, þó fyrir aðra,
Hér get eg ei nafns þíns. Þann flaðrara-fans
Þú fyrirleizt sjálf, yfir leiði hvers manns
Sem leirugum loftungum blaðra.

1893

## Við barn.

Barn með skapið ofið úr
Árdagsblíðu og þrumu-skúr,
Veðri því sem alt grær í,
Öll er veröld þér svo ný.

Alt það sem þitt auga sér,
Upp í þínum huga ber
Spurning — út úr öllu skín
Einhver þýðing djúp og brýn.

Hreinskilið í huga þú
Hræsnar enga venju-trú.
Aldrei þinnar reynslu rök
Rýrir úrlausn dularspök.

Í vona þinna og vizku garð
Víða þó að hrapi skarð,
Þú átt gnægð af efni að
Eins gott jafnskjótt bæta það.

Freistar þess sem óreynt er,
Ofraun margt þó verði þér
Stundum óvænt afreks-verk
Á því vinnur hönd þín sterk.

Þar sem blíða finst og fjör
Festirðu augun skilningssnör —

Bezt þú sögur kappa kant,
Kostum þeirra mest þú ant.

Ærslum með og æsku-sveim
Yngir þú upp roskinn heim.
Ertni þinni flýja frá
Fýludrembinn staur-karl má.

Barn, sem æ átt upprof víst
Ef í hretkast bernskan snýst;
Hún er fleira en hlátra-sköll,
Hún er raun og tára-föll.

Barn, með hjarta haturslaust,
Hugar-auðlegð, von og traust,
Sátt við gærdag sofnar strax,
Sól ei kvíðir morgun-dags.

Barn, með skapið ofið úr
Árdags-blíðu og þrumu-skúr:
Ljá mér hjarta og huga þinn,
Hönd þó stirðni og fótur minn.

Mér þá út úr öllu skín
Einhver þýðing djúp og brýn,
Hljóma ei tímans hávamál
Heyrnarlausri fyrir sál.

Hégiljur, sem veldið vítt
Veitir spekings-gerfi sítt,

Erta þori þykkjuspar —
Þó það nefnist stráka-par.

Þekkingar í þarfa-garð
Þreytist ei að fylla skarð.
Kaupið hæsta heimta í
Hverju verki að: orka því.

Og með geðið æskurótt
Eins þig kyssi góða nótt!
Er hátta lætur hinzta sinn,
Heimur, þreytta drenginn þinn.

1893

---

## Ólafur Guðmundsson frá Sköruvík.

Þú komst hingað ungur með áhug og þor
Þar auðfundna gæfu við höldum,
Þar samkepnin fossar, sem fjallá um vor,
Frá fjár-plógsins málmrifjum köldum,
Þú lagðir þar fram í — en flughált er spor,
Og frostkalt er niðr'í þeim öldum.

Þú hræddist ei svelg þann er sveif þig um kring
Með sogi, á hylnum þeim dökkva,
Því höndin þín væri svo vösk og svo slyng
Að við myndi alstaðar hrökkva,

Og fleytti svo einbeittum Íslending,
Sem örðugt í kaf væri að sökkva.

Þó sjálfum þér bægði oft straumur frá strönd
Sízt stóð á að hjartað þitt gegndi,
Að rétta þeim bróðurþels bjargandi hönd,
Sem barst á, og lífshætta þrengdi,
Að styðja þau framfara og félagsbönd,
Sem fámennið íslenzka tengdi.

Þú sneiðst ekki í orðskvið þá amlóðaspá:
Að örðugt sé fráleitt að vinnast —
Og kringum þá fylgni og framtak þér hjá
Sú forustuvon hefir tvinnast,
Sem lætur þig sálaðan sveitung á
Með söknuð og virðingu minnast.

Þú kveiðst ekki óreyndu — En sú kom um síð,
Er sviplega varð þér að grandi:
Hún Red Deer in fjallborna, frostköld og stríð,
Með flúðum og straumiðu bandi,
Því hún varð þér þróttmeiri á þrekrauna tíð —
En þá var samt örskamt að landi.

Enn streymir fram áin um aldræna braut
Frá ísköldu jöklanna riði,
Og gröf sína dýpkar í dalanna skaut
Með dimmum og skjálfandi niði,

Hún syngur um tálmanir, þrekvirki, þraut —
En þú býrð í eilífum friði.

1893

---

## Ásta-vísur til Íslands.

— Sagðar upp, þegar fyrir minnum var mælt. —

Minn ljóðgöngull hugur á hánorður leið
Mig hrífur að ættarjörð sinni,
Er vorsólin lýsir um lágnættis-skeið
Sem ljóshvel í útfjarðamynni,
Þar eyjan vor hjartkæra heitkend við ís
Sem hafmey úr báróttum Norðursæ rís.

Já, mig — sem var þrásinnis kveðinn í kút,
Og kaus mér að hlusta og þegja,
Er hjúfrandi ástaskáld heltu sér út —
Ef hendingar kvæði eg til meyja:
Hver tólf-vetra Rósalind reigðist við mér
Með »rómaninn« fyrsta í kjöltunni á sér!

Samt vaki eg nú meðan norðurfrá skín
Þér náttsól á andvöku-göngum,
Og ástaljóð kveð eg hér, Ísland, til þín,
Sem óma í vormorgun-söngum,
Og sendi þau titrandi að eyrum þér inn
Með árgölum vorsins um húsgluggann þinn.

En svo kemur tízkan og varar mig við,
Og vitnar í þegnskyldu-bréfið:
Að þér hafi eg, ættjörð mín, horfið frá hlið
Og heitorð mitt annari gefið.
Það land sem mig beri á brjóstinu nú
Svo blítt, hafi lögfest sér ást mína og trú.

En ég sem ei áhyggju um orðstír minn ber,
En æfði — mér stundum til baga —
Þá sérvizku íþrótt, að segja eins og er,
Ó-sýnn um í felur að draga,
Eg löngun og hug mínum lýsa hér verð,
Og legg síðan málið í tímanna gerð.

Eg gleð mig við hvað sem er fagurt og frítt,
Jafnt fjöllin sem vel stýlað handrit,
Við manns-augað skæra og skynsemis-blítt,
Þó skreyti það stúlknanna andlit —
Að það sé neitt ljótara á laglega mey
Að lítast en blómknapp — eg trúi því ei.

En segulafl yndi því öflgara veit —
En ekki frá hverju það leiðir —
Og það er sú ósjálfráð ástin og heit
Sem andanum brautina greiðir,
Sem brennir hvert varmensku bindandi haft,
Sem blæs upp hvern neista af göfugum kraft.

Og allar þær listir sem láta þér bezt
Hún lífgar, sem vorblómin ylur —

En svo ert þú, Ísland, í eðli mitt fest,
Að einungis gröfin oss skilur,
Og þanninn er ást sú til þín sem eg ber —
Og þó léztu að fjölmörgum betur en mér.

Þín fornöld og sögur mér búa í barm'
Og bergmál frá dölum og hörgum,
Þín forlög og vonspár um frægðir og harm
Mér fylgt hafa að draumþingum mörgum —
Þinn svipurinn ljúfi, þitt líf og þitt mál,
Í lögum þeim hljóma, er kveður mín sál.

Eg óska þér blessunar — hlýlega hönd
Þó héðan þér rétt geti neina —
En hvar sem eg ferðast um firnindi og lönd
Eg flyt með þá von mína eina:
Að hvað sem þú, föðurland, fréttir um mig
Sé frægð þinni hugnun. — Eg elskaði þig.

1894

## Móður-málið.

— Íslendinga-dags minni. —

Vort djarfa, fagra móður-mál,
Eins mjúkt sem gull og hvelt sem stál,
Þú sigurtunga í sögu og brag,
Þú sætast hljómar þennan dag
Í brjósti hverju er bærist hér —
Og börn þín gleymi aldrei þér.

Og orð þín þarf hér eggjan-sterk,
Því oss er skipað mikið verk:
Við fóstur-landsins frægðar-starf,
Með föður-landsins sæmd í arf,
Af höndum inna æfiþraut,
Með al-þjóð fyrir keppinaut.

Þú okkar barna móðurmold,
Vor mikla, nýja óðalsfold!
Sem vöggur niðja vorra átt,
Sem vorum gröfum lykur brátt:
Vor þjóð er smá og þrekað lið,
En þér skal enginn dyggri en við.

1895

---

## Hesta-skál Vilhelms Pálssonar.

Sú nýung fluttist garð úr garð' —
Hún gekk sem reka-saga,
Þá hart um æti orðið varð
Á einmánuði á Skaga —:
Að Vilhelm Pálsson væri á ferð
Frá Winnipegskum höllum,
Og förin hans sé hingað gerð
Til hella í Kletta-fjöllum.

Svo þar kom umtals efni nýtt,
Og allir fóru að gizka
Á þetta: hvað hann kvæði títt,
Og hvað hann væri að fiska —
Og ýmsum sýndist örla á prest'
Með útgjöld, skrifta-stóla,
En öðrum leizt hann langa mest
Að leiða oss öll í skóla.

En svo kom Vilhelm viðmótshýr,
Og verk sitt fór að gera —
Hann mildur vildi öll mannleg dýr
Á miljón »assúrera«.
Og orð hann sagði sæt og mörg —
Og sannfærði oss snauða —:
Að mannon sé sú blessuð björg,
Já, bæði í lífi og dauða.

Svo buðu honum bændur inn,
Og báðu ei gisting neita,
Og konur settu upp ketilinn
Og kaffi fóru að heita —
En á meðan alla við
Um ábyrgð samdi 'ann slíka,
Að nú með djörfung deyjum við —
Oss dauðinn gerir ríka.

Og íslenzkt honum alt var kært,
Jafnt Andra-rím og sálmar.

Þó Dickens hefði langt til lært
Eins las hann Bólu-Hjálmar —
Og hans að væri hyggjan slyng
Við höfðum það að marki:
Hann krækti ei fyrir kirkju-þing,
Né krimtar sig við slarki.

Og frá oss á að heilsa hann
Af hjarta öðrum »löndum«,
Og segja þeim hann »fólk vort« fann
Með fjör og kraft í höndum. —
Og margan sem hér fylgdist fús
Með flokki endur-leystra,
Og garpa, er drukkið gætu »dús«
Með »gúddtemplurum« eystra.

— En segja frómt og hreint skal hér —
Og hætta öllu spaugi —:
Hvað um hann Vilhelm vorðið er
Hér vestra efst á baugi,
Við ölum flestir einhvern grun —
Því ei hann dvelur lengur —:
Að skjaldan til vor skjótast mun
Eins skemtilegur drengur.

Svo höldum við þá veizlu í kvöld,
Því við erum nú að kveðj' 'ann —
Á smárri eigum virðing' völd,
En vildum fegin gleðj' 'ann —

Svo skilnað' okkar, Vilhelm, vér
Nú vígjum þessa bolla.
Tak lukku-ósk á leið með þér,
Og loftið okkar holla.

1895

## Móðir jörð.

Eg ann þér, eg ann þér, þú indæla jörð!
Sem elur upp manninn og dýranna hjörð,
Með leikandi smábörn í almóður arm',
Með ellina hvílda við friðsælu barm —
Þú opnar mér faðminn þinn fagnaðarrík,
Þú fæst ekki um trú mína og pólitík.

Og skartið þér sómir, þó skrautgjörn þú sért
Og skiftir um búning við missiri hvert —
Hvert missiri! oftar, hvern einasta dag
Um áferð þú breytir, um glit eða lag
Þíns dökkgræna silkis, þíns drifhvíta líns,
Með dreglunum forsælu og ljósgeislans þíns.

Þú mun gerir engan á ætt eða stétt,
Og aldrei þú skeytir um venjur og rétt,
En sjálfráð þú breiðir þinn sóleygja-krans
Á syndarans gröf og ins heilaga manns.
Að lokum í faðmi þér felur þá lík
Og fæst ekki um trú þeirra og pólitík.

Og strax feldi Alfaðir ástir til þín,
Er opnaði særinn þér dyraloft sín
Og gekkst' út í birting á blásvalir hans,
Í blómskrúða vorsins með árgeisla-krans,
En hliðskjálfi morgunsins fjarsýnu frá
Úr fagrahvel' sumarsins starði 'ann þig á.

Þú ólst honum son, sem var ötull og stór
Og efldastur guða, vorn norræna Þór —
Hann rak ekki úr Eden burt ættföður manns,
En árvakur stóð 'ann sem verndari hans
Í hliði á Miðgarð' með hamarinn sinn,
Að hleypa ekki Satan til mannanna inn.

Og Sif varð hans brúður — með sólgeislans hár,
Með sæblámans augu og kveldroðans brár,
Og vænst allra dísa, því vorið hún ber,
Og vonir og gleðina, hvar sem hún fer.
Og heimurinn síðan ei frásögu fann
Um fegurri konu né hraustari mann.

Eg ann þér, eg ann þér, þú indæla jörð,
Hver árstíð sem klæðir þinn lífsfrjóva svörð.
Hvort dökk-græna sumarsins silkið þitt skín
Við sól, eða vetrarins drifhvíta lín —
Eg leit engan samastað ljúfari en þig,
Og líf þitt og gröf þín er nóg fyrir mig.

Því hvað skal mér Eden og englanna hljóð,
Er óma í laufskógnum vorgolu ljóð?

In heilaga hvíld og in himneska ró,
Ef há-sumars kveldið í faðm sinn mig dró?
Né Síonar fegurð og glæsi-torg gylt
Er gangbraut um skóginn er haustlaufum fylt?

Né réttlætis hjúpurinn, hreinn eins og mjöll,
Er heiðgullin Þorra-sól skín yfir fjöll?
Já, jörð þú ert indæl. — Eg uni mér rór
Við æskuna, kraftinn, við Sif og hann Þór,
Við sælu í viðleitni að vinna eitthvað gott,
Við vonina, gleðina. — Og hverfa svo brott.

Og fái ég orlof, um eitt er eg viss:
Þó indælt sé sungið í Paradís Krists—
Við söngklið og ljóðsnild þó líði mér jafnt —
Mér lyfti eg upp stundum til hressingar samt,
Þá hárfögru vordís og harðfenga Þór
Að heimsækja á Þrúðvang og drekka þar bjór.

1896

## Yfir minni Íslands.

Situr lítil eyja úti
Undir jökulbaug,
Hlýrri lönd þó henni ei lúti
Hjálpfús ver hún þaug,
Og með snjóvgum hamra-höndum
Hrindir ís frá þeirra ströndum.

Hefir klofið háa æfi
Hafísinn í norður-sævi.

Lítil þjóð á þeirri eyju
Þolað hefir margt.
Reynt um aldir afl og seigju
Eðli lands við hart.
Öllum þjóðum öðrum smærri,
Ýmsum meiri þjóðum stærri,
Ef menn virtu vits og anda
Verkin allra þjóða og landa.

Oss úr hlíðum hennar stranda
Hingað æskan dró.
Hennar til en hlýrri landa
Hlýrra oss er þó —
Trúast hnýtti hjarta-böndin
Hennar kalda móður-höndin
Hitann við í eðli okkar.
Enn úr fjarlægð til sín lokkar.

1896

---

## Hestavísur.

Með litinn þann staka, sem stöðuvötn fá,
Er stormskúrin þýtur við bakkann
Í augunum stóru, sem starandi gljá,
Með stolta og hnarreista makkann:

Þú hrekkur við fákur, og flögrar,
Og festu og kjark mínum ögrar.

Með útflentar nasir og hríngbogin hné,
Og hnyklaða vöðva á bógum,
Með sporin svo kvikleg sem kveikt í þeim sé,
Eða kitli þig jörð undir hófum,
Unz svitinn af brjóstinu bogar
Þú bitilinn japlar og togar.

En hvað var það annars sem sárast þér sveið,
Sem sjóðandi eldur þig brendi?
Ó, var það öll kvölin sem kynið þitt leið
Af keyrinu í mannanna hendi?
— Svo espa mig ógnir í sögum
Frá okkar og feðranna dögum.

En kannske er það drambið, sem greip þig svo geyst,
Því gæðing þig húsbóndinn kallar —
Sem kóngs-þrælnum greifatign göfgari leizt
En gersemar frelsisins allar,
Og hreykinn í hlekkjunum rembdist
Ef harðstjórinn konungur nefndist.

— En ættin vor beggja er frá ómunatíð
Í undarlegt bandalag gengin.
Og samvinnan okkar við sigur og stríð
Er saga, sem skráð hefir enginn —
Og sjaldan það var sem við vörðumst,
Til valdanna oftast nær börðumst.

Af samtökum þeim hefir unnist svo á
Og æxlast margt glapvíg og dáðin.
Við þolið og fráleikann fengum þér hjá,
En framlögðum valdboð og ráðin.
Og kannske er þinn ættleggur eldri,
Þó okkar sé nú talinn heldri.

Í misendis sambúð af heipt hefir herzt
Vor hugur og blíðkast í snatri.
Í félagsskap okkar margt grunsamlegt gerzt
Í glóandi vinskap og hatri,
Og varla eg veit það með rökum
Hvor valdur er helzt þar að sökum.

Vor viðskifta-saga er þannigin þá:
Að þú hefir bitið og lamið
Og varist að komast svo vald okkar á,
En við höfum þrælkað og tamið,
Og auðmýkt og krossburð þér kendum —
Vorn kristindóm inn í þig brendum.

Þú fóstbróðir gerðist, að herleiða heim
Og hjálpa oss mönnum til valda.
Að ofsækja dýrin og útrýma þeim
Sem aftóku lög vor að halda
En hlutskifti hefirðu ei fengið
Af herfangi, og lint eftir gengið.

Og enn ertu nefndur inn þarfasti þjón' —
Og það er nú afgömul saga:

Þú ert okkur vinur og voði og tjón,
Sem varst okkur stundum til baga,
Og einatt til böls eins oss barstu,
Og bani okkar margsinnis varstu.

En við höfum ríflega borgað hvert blak,
Og brekin þér launað að mestu,
Og svipuna reitt um þitt blóðrisa bak
Í brekkunni unz dauðvona hnéstu —
Með klyfjarnar kenjalaus drógst þú
Unz kraftarnir þurru og dóst þú.

Þú hvíldarlaust sumarið út eða inn
Drógst ársæld að skepnum og mönnum —
En jökullinn hái var húsveggur þinn
Og heystallur: mór undir fönnum,
Er miðsvetrar nákuldinn næddi
Og norðanhríð rofalaus æddi.

En það er — og margt sem eg minnist ei á —
Svo myrkvað, að trauðlega veit eg:
Hvort manninn eg heldur í hestinum sá
Eða hestsál í manninum leit eg.
Og dýrt yrði dóm á það leggja
Þeim dreng, sem er góðvinur beggja.

En til okkar stundum var trygð þín svo rík,
Að týndur og heiminum gleymdur
Þú hugdapur vaktir við húsbóndans lík,
Unz höggdofa frá varstu teymdur —

Og mælt er að helja með harmi
Þér hitt geti lífæð í barmi.

Og við höfum smálaunað vinskapinn þinn,
Og veitt þér af sjálfra vor gæðum.
Já, tekið þig með okkur orðalaust inn
Á ódáins landið á hæðum,
Og orkt um, að hittast þar aftur,
Sem yngdist hver göfugur kraftur.

En skilnað vorn nálgast þeir senn hafa sagt
Og samvinnu héðan af nauma —
Á útsæinn höfum við hnakk okkar lagt,
Við hafstorma gufunnar tauma,
Ef reiðtýgi á ljósgeislann legðum
Við líklega kvaddan þig segðum.

1896

## Fallegu augun.

Já, hún á falleg, falleg augu svört,
Fest á mann beint með tilliti svo skæru,
Svipaðast því sem bliki stjarna björt
Bæði á himni og niðri í vatni tæru.

Tryltur af henni! Nei, og aftur nei —
Nefið, til dæmis, aldrei gat eg hælt því,

Búning á hári og litum, sei, sei, sei;
Segðu mér, hvenær bætur hefi mælt því?

Að mig eg hyggi hlutlausan af því
Höfuð mitt set og kvæðið þetta að veði —
En liti eg augun hennar hlýju í,
Hreinlega sagt: eg fann til ljúfrar gleði.

Vissirðu hvernig varið þessu er,
Von bráðar okkar misskilningur jafnast,
Eg á til, karl minn, kró í huga mér,
Hvaðvetna fagurt óvart þangað safnast.

Sumarkvelds eilífð, skógur skúrablár,
Skrúðbúin hlíð og fossahljóð þar stendur,
Hrafnsvartir lokkar, ljósar augnabrár,
Ljúflinga brjóst og mjúkar, hvítar hendur.

Margt er af þessu lokað, liðið, gleymt
Líklega öllum, nema þá mér einum.
Svo djúpt, svo djúpt í tíð og gröfum geymt
Glittir ei fyrir moldu huldum beinum.

Mér er þó sérhvers svipmynd ung og ný —
Samt á eg enn þar nokkra kyma tóma.
Fallegu augun hennar þráfalt því
Þangað sér smeygja, milli eldri blóma.

1896

## Hjóna-skál.

Æ, manstu vin, að okkur oft
Fanst indæl þessi jörð,
Er heimboð okkur æskan hélt
Um allan Skagafjörð,
Og sumar gekk með hring á hönd
Og haust með brúðar-skart.
Þá var oft kátt við kvæði og söng
Og kvenna-augað bjart.

Þó síðan hafi öldin elzt
Um ára-tugi þrjá,
Er sumarstund og sólglöð lund
In sama eins og þá.
Og enn er hægt að leika lag,
Um ljóð ef nokkur spyr.
Og stúlkur kunna að klappa enn
Og kyssa mjúkt, sem fyr.

Nú hvílir sumarhúmið heitt
Við haustsins þrungna barm,
Og leggur yfir land og bæ
Sinn ljúfa, mjúka arm,
Um slegin engi inn um dal,
Um akurlöndin bleik
Með gróðann árs um gestmilt skaut
Og gull á hverri eik.

Og hérna inni er lífið ljúft
Við ljós og brúðar-skál,

Og vinar-koss á hverri vör,
Og kvæði í allra sál —
Og hver er sá er segja vill,
Ef svipast hér í kring:
Að vorsins þrá sé hærri hót'
En haustsins uppfylling.

1897

## Oturs-gjöld.

Þekkirðu Otur, maður minn —
Myrtan þetta árið —
Ið trygga, svarta, seppa-skinn
Með silkigljáa hárið.

Manstu hvernig glæddu glans
Gáfurnar hans skörpu:
Glaðlyndið og greindin hans,
Gegnum augun jörpu?

Dökkva kollinn kertan bar,
Hvergi lét sig hræða.
Raggeit örm hann aldrei var,
Engin nætur-læða.

Hann var ekki naður neinn,
Né að skríða laginn.

Þorði að mæta óvin einn
og um bjartan daginn.

Og með tönnum, höfði, hramm
Hafði lært að vega,
Verja sig og sækja fram
Og sigra — drengilega.

Og hjá flestum fékk það orð,
Fullri sæmd að héldi —
Aldrei framdi Otur morð
Úlfa þótt hann feldi.

Vit hann átti, eða sál —
Um þau nöfn má velja —
Réð í enskt og íslenzkt mál,
Ögn hann kunni að telja.

Mismun hann á fólki fann,
Fénað þekti sundur —
Sótti ei skólann, samt varð hann
Sann-mentaður hundur.

Sú var ein hans einfaldleg
Auðtryggingar villa:
Menn gat hann ei, held'r en eg,
Hugsað nógu illa.

Á því varð og Otri hált,
Illa vitsins gáð' 'ann

Þegar aðrétt eitrið sjálft
Af óhræsinu þáð' 'ann. — — — —

Hef' nú erft hann Otur minn —
Eftir kvæða-leik þann
Fáein orð við héppann hinn
Hjartaverri, er sveik hann.

Létt skal vera ljóðið mitt,
Ljóst að hverju eg stefni,
Svo að veslings vitið þitt
Villist skamt á efni.

Þér til sæmdar þjóðin merk
Það mun hvergi telja:
Mannleysisins myrkra-verk
Meinleysing að kvelja.

Klækjum fylgja kenja-tog;
Koma mun á daginn:
Nafn þitt verður uppvíst — Og
Allir muna braginn.

Er reika í húmi huga þíns
Huldar vofur klækja,
Jórpu augun Oturs míns
Að þér munu sækja.

Af því það frá elztu tíð
Er nú margreynd saga:

Slysin elta ár og síð
Óþokkana raga.

Eitt er víst -- þó autt sé nú
Orðið rakkans bæli,
Kosti fékk hann fleiri en þú
Og fegra eftirmæli.

Þér mun seinna sýnast smár
Sigurinn sem nærðu —
Skyldi ydda enn á hár
Oturs-gjöldin færðu. — -- — —

Þegar kem eg heim í hlað
Hrakinn, ferðavotur:
Vini er fækkað, finn eg það,
Frá er veslings Otur.

1898

---

## Vestur-Íslendingar.

— Íslendinga-dags minni. —

Þið sem fluttust utan af
Eyju vetrarbrauta,
Þar sem leynir hættuhaf
Huldum norður-skauta.
Þar sem eldar eiga stór
Öfl, svo jöklar gjósa,

Þó að bæði sól og sjór
Sýnist stundum frjósa.

Þið sem óluð umkringd því
Yl í hjartataugum,
Gyltu hári geislann í,
Græðis-bláma í augum.
Stiltuð mál sem marar-hljóð,
Mjúkt sem lækjaróminn,
Tungu, sem að öllum óð
Ávalt fellir róminn.

Hér í auðnum óbygðs lands
Og á sögu leiðum
Geymist störf hvers göfugs manns —
Grettistök á heiðum.
Svo að allir segi, þó
Sveipist moldum beinin:
Hér kom íslenzkt afl, sem hóf
Upp úr jörðu steininn.

Hver sem ykkar hrakinn sá
Húsaskjól við brosa,
Geti reitt sig grunlaust á
Gestrisnina 'ans Flosa.
Þar sem skip við storma-strönd
Stranda, og hrekst um marga,
Alténd sæki íslenzk hönd
Eldinn til að bjarga.

Hvar sem vægð frá voða ber
Varmenskuna blinda,
Neitar hefndum hætta sér
Holund um að binda:
Allir segi, sé hans gætt
Sök er tókst að hamla:
Drengur fallinn er af ætt
Ingimundar gamla.

1898

## Skagafjörður.

I.

Frosti inn kaldi klauf hér fyr
Klaka-meitlum brúnir fjalla,
Hóf í fang sitt hamra-stalla,
Braut upp feldar fjarðar dyr.
Stuðluð björg sem stóðu kyr
Steyptar lét í raðir falla.

Opna hefir hamra-þró
Höggvið eftir skemstu leiðum,
Sunnan langt af hæstu heiðum
Þráðbeint norður, nið'r að sjó.
Göng þau eru ei grunn né mjó,
Grafin víð með fleti breiðum.

Þar fékk errin Ægir starf,
Armi fjarðar seildist bláum

Inn með fjallahlíðum háum,
Slétti botn og brimi svarf.
Greip í ár við ós, og hvarf
Út af malarkömbum gráum.

Hefil-sköflum skelti á
Skiphól inn af Borgarsandi,
Þar sem enn á þurru landi
Spónaförin sum má sjá.
Enn við nesið unnir gljá
Upp að fjalla dyra-brandi.

Þegar Hlés hin haga mund
Hafði lokið sínu smíði:
»Fjörður þessi er fjarðaprýði«,
Mælti Sól um morgunstund —
»Hér að skína og græða grund
Gleður mig, er rís af víði«.

Geisla-brjóstið blítt og ótt
Breiddi yfir sand og móa,
Við að láta landið gróa
Lagði saman dag og nótt —
Enn um vornótt vöku-rótt
Vermir engjar, tún og flóa.

Einkis-staðar eins og þar
Er svo nótt til yndis varið,
Að hún getur komið, farið

Án þess þú þess verðir var —
Nætur-eyður æfinnar
Afnam vor við norður-hjarið.

II.

Komstu, skáld, í Skagafjörð?
Þegar lyng er leyst úr klaka -
Laut, og yfir túnum vaka
Börnin glöð við gróður-vörð —
Lömbin hoppa um holta-börð.
Heiða-lóur úti kvaka.

Flissa á brotum bláar ár,
Bæir dotta í grænum túnum.
Vöku-ljósum lyftir brúnum
Fjalla-skagi skúrablár,
Beggjamegin himinhár,
Hérað vefur örmum snúnum.

Björt er sveit og sést til alls,
Sólin ríður vaðið bláa
Tinda-stóls frá hnjúknum háa
Yf'r að hyrnu Höfðafjalls —
Eyjar, haf og hæðir dals
Hillir upp við loftið gljáa.

Kannast þú við hvernig gljá'r
Ungra meyja, er úti vaka,
Augað hýra, vöku-spaka,

Andlit fölt og fléttað hár;
Þegar yfir enni og brár
Óttu-geislar höndum taka?

Öll sú fegurð unaðs-hljóð
Hálf er draumur þinn og þeira —
Þar er líka nokkuð meira:
Önnur helftin hold og blóð
Sveipað inn í sólar-glóð,
Sveitar-fegurð, vor og fleira.

Lastu inn í unglings hug?
Er um nætur geymir hjarðar
Framm' um heiði og hlíðar fjarðar,
Eða í Hvamm'við áar bug:
Von hans gripur vængja-flug —
Vorhug sízt um hindrun varðar.

Þá skal vonum verða létt:
Vinna stórt og hátt að stefna,
Hefna alls sem á að hefna,
Sigra fyrir sérhvern rétt —
Bíddu aldrei eftir frétt,
Æska, um hvað sé fært að efna!

III.

Afturför menn segjast sjá,
Sem af tímans eyðing leiði. —
Þetta er land á þroskaskeiði,
Sveit, sem vöxt í vændum á!

Hrjóstrin eru ei elligrá
Æfimörk á visnum meiði.

Þó hún virðist beinaber,
Bráðum gildna vöðvar mjóir. —
Melur senn í grasi glóir
Þegar fyltur aldur er.
Hlíða-brjóstin hefjast, sér
Hrósa akrar gróður-frjóir.

Heill sé þér, sem ætlað er
Yrkja betri-daga ljóðin!
Gróið land og þroskuð þjóðin
Fyllra efni færir þér.
Syngur ei tóma von, sem vér,
Vorspá langa og trúar-óðinn.

Komstu, skáld, í krappan þar?
Þegar vetur veðrin snerpir,
Vindinn æsir, frostin skerpir,
Jökull sezt í sólarfar,
Frostsins tak í túni og mar
Tilfinningarleysið herpir.

Manstu eftir aðsókn hans?
Lokar hríðar-hömrum fjörðinn,
hleður upp í fjallaskörðin,
byrgir myrkva bygðir lands. —
Eins og leyfi einskis manns
Undankomu loft né jörðin.

Hvergi skýli, hlé né hlíf. —
Þá er feigð og fall að verjast,
Fjörlausn ein að sækja, berjast,
Einvíg djarft um dauða og líf.
Skyldi ei sál hans sigurstíf,
Sem af slíkum kröftum herjast?

Heima móður hjartaslög
Hristir ofsinn eins og bæinn,
Yfir gluggann leggur snæinn,
Felur ljós í fannalög.
Hún í örmum ungan mög
Að sér vefur háskadaginn.

Óttast veðrin vofeifleg;
Þetta lætur þrótt sinn herða:
Þar sem feður úti verða
Skulu synir varða veg —
Hjarta landsins á, sem eg,
Æsku-trú að vissu gerða.

V.

Manst þú bylsins Bjarkamál?
Þegar hopa úr haugum draugar,
Hristir allar landsins taugar
Hláku-stormsins stóra sál —
Þiðna hjörn, sem brædd við bál,
Bláa jaka straumur laugar —

Sprengir sundur spentar fast
Spanga-brynjur jökulfjalla,
Vekur reit og rinda alla
Hlýjum róm', en kveður hvast.
Brýtur fjötra og heimtar hast
Hól og dal úr fleti mjalla.

Veiztu hvaðan kjark hann fær?
Kraftur vors og sólskinsdaga
Til að leysa hlíð og haga
Magn hans er, þó felist fjær —
Slíkur storma-styrkur slær
Strengi landsins yngstu Braga.

## VI.

Sveitin glaða, gegnum þig
Heilsa eg feðrafoldu minni.
Fjörður, sem í kjöltu þinni
Fyrstu gullum gladdir mig,
Sem eg ekki á æfistig
Alveg týndi nokkru sinni.

Man eg forna feðratrú,
Þá, að andar heygðra hala
Hyrfu í fjöllin sinna dala,
Kæmu þaðan þá og nú —
Mér finst vöggu-vonin sú
Vænst í spásögn dýrðar-sala.

Getur, fagri fjörðurinn,
Minna beztu kvæða kraftur
Hvorfið heim í faðm þinn aftur,
Þegar munnur þagnar minn?
Komið aftur eitthvert sinn
Yngri, stærri, endurskaptur?

1899

---

## Minni Íslands.

— Íslendinga-dags minni. —

Gamla Ísland, ættland mitt,
Ægi girt og fjöllum:
Rétt að nefna nafnið þitt
Nóg er kvæði öllum!
Hljómar instu óma þá
Allra ræktar-tauga,
Stolt og vonir víxlast á —
Vöknar nærri um auga.

Árdags-sólu opnast nýtt
Útsýni, er hækkar —
Við að fara frjálst og vítt
Föðurland manns stækkar.
Hillir úti upp úr sæ
Ættjörð glegst við sonum,
Bernsku minning blíðkast æ,
Birtir yfir vonum.

Legg þú, auðna, ár og frið
Íslands ver og grundum —
Hitt veit enginn eins og við,
Að oss langar stundum:
Hörpu að lokka Oreif af,
Inn á frónska móa
Syngja austur yfir haf
Akra vora og skóga.

Æsku-systkin, ástar-þökk
— Af þó legðust fundir —
Fyrir orð og atlot rökk,
Ótal glaðar stundir!
Feðrum, sem að fram-tak oss
Festu í skapi ungu,
Mæðrum, sem við kvæði og koss
Kendu oss þessa tungu.

1899

---

## Kanada.

— Íslendinga-dags minni. —

Menn trúðu því forðum, um straum-barða strönd
Þó stormurinn heima við bryti,
Að fjarst út' í vestrinu lægju þó lönd
Þar logn eða sólskin ei þryti,
því þar hefði árgæzkan friðland sér fest
Og frelsið og mannúðin — alt sem er bezt.

Þeim lét ekki sigling, en hugsuðu hátt;
Við hafið þeir dreymandi stóðu,
Er sól hné að viði í vestrinu lágt
Í vorkvöldsins blárökkur-móðu,
Þá von manns og langanir líða með blæ
Út lognsléttan, sólgyltan, víðfaðman sæ.

Þó enn flæði höf, þau sem aðskildu lönd,
Er auðfarin leið yfir sæinn.
Og Markland vort, Kanada, hug sinn og hönd
Þér heimurinn rétti yfir æginn.
En Hellenum aðeins í óð gaztu birzt —
En íslenzkum sæ-konung bauðstu þig fyrst.

Og enn rennir von manna augunum þreytt
Að austan, um þig til að dreyma —
Þú góð reyndist öllum sem unna þér heitt,
Sem eiga hér munuð og heima.
Og alt á þér rætist og rót geti fest
Sem reikula manns-andann dreymt hefir bezt!

1899

---

## R. G. Ingersoll.

Frægðar-maður látni, leiddi,
Leyfðu mér í hinzta sinn:
Lyng-grein högna á heiðum Íslands
Hengja í dánar-kransinn þinn.

Sá, sem hana úr ljóðs-hönd leggur
Lægst í sveiginn, hann er einn
Orkuminni og yngri bróðir —
Ekki þegn né lærisveinn.

Þú, sem gazt í ljósa loga
Lífgað upp við mælsku-glóð,
Það sem frjálsast hugsað hefir
Hugstór, ung, en sjálfelsk þjóð.
Hjátrú löngum lærdóm' varin
Litlu kunni að svara þér.
Skáldið firrist fræði múgsins,
Fer samt rétt — það veit, það sér.

Ei var furða, að þú gazt ei
Aðhylst sama guð og hinn,
Sem við götu gálgann reisir,
Grýtir veikan bróður sinn.
Köllum guði svikna, sanna,
Samt er enginn þeirra tál,
Heldur augljós opinberun
Inst hvað býr í þjóðar-sál.

Það var heldur ekki undur,
Andi þinn ef gat ei séð
Mannkyns takmark fram í fjarska
Fangans sektar-augum með,
Klækja-vits sem rökum ruglar:
Réttlæti í kvöl og hefnd,
Illra sálna ills sem vænta
Ofsjón — hvað sem hún er nefnd.

Hver vill lá þér, að þú ekki
Odauðleika girntist þann,
Sem er hvorki eign né umbun,
Annar sem að fyrir vann?
Verði tíma og eilífð ónýtt
Alt sem eg er, þrái, vil,
Þá er sælla að sofna að fullu,
Sökkva, týnast — vera ei til.

Mannsins-son þér eins varð ímynd
Ólík hans, sig veit og sér
Vera lægra og annars eðlis,
Ályktar svo: guð það er --
Þeir sem eiga í instu veru
Andann sama, hann er hvað?
Náskyld sála, betri bróðir,
Bjarmi í lofti ef syrtir að.

Minna reynir styrk ins sterka,
Stuttur dauði og þyrni-krans
Heldur en margra ára æfi,
Eydd í stríð við hjátrú lands,
Róg og illvild. Eins þarf til þess
Öllu-meiri hjarta-þrótt,
Að geta þá með bróður-brosi
Boðið öllu góða nótt.

1899

## Amerika.

— Þjóðminningar-dags minni —

Að minnast þín, fóstra, í ljóði er létt
Á ljómandi sumri við hlésælan skóginn,
Er hugrenning hver verður hlýleg og slétt
og hrukkulaus, rétt eins og sléttan þín gróin.
Því þá er sem hjúfrist um hug og um völl
Hver heiðbjartur geisli frá sólríkum dögum,
og þá verður fortíð og framtíðin öll
að fallegum kvæðum og hljómþýðum lögum.

Því fólki er orðlétt um ágæti þitt,
Er átti þá feður, sem hugrakkir tímdu
að ganga á hólm fyrir sjálfræði sitt, —
Er sigurinn brást þeim, þeir átthagann rýmdu
Og lögðu upp í hafnleysu skaddaðri skeið,
Því skipbroti fremur en konungs-þján undu,
Og landfestar hafskips, og hjartans um leið,
Við hamrana íslenzku trúfastast bundu.

Og alt þetta frjálsræði, fóstra, er þitt,
Sem feðurnir þráðu og leituðu svona.
Þó sjá megi eyður í eitt eða hitt,
Og ónumin lönd þinna fegurstu vona.
Við unnum þér, treystum þér þrátt fyrir það
Og þreyjum af rólegir köldustu vetra,
Og spottandi vandlætið spyrjum við að:
Þú spekingur, segðu oss: hvar er það betra.

Og þó að svo fari um bygðir og bæ,
Að bragur vor þagni og tungan vor gleymist,
Samt verður í skauti þér eitthvað það æ
Af íslenzkum hug, sem þú fóstrar, og geymist —
Til ágætis þarftu svo mikið og margt
Á metum við búsæld og áhuga snarpan.
Já, gullið er fémætt og fjölmenni þarft,
En fegursta þjóðeign er sagan og harpan.

1900

---

## Bundin ræða fyrir minni Kanada.

— Íslendinga-dags ræða. —

Þú Noregur vestrænn í veraldar-sjónum
Með vínlönd að sunnan og heimskauta-snjónum
Að norðan. Þú kornland með Fáskrúð og Fjalir.
Með fjallaskógshlíðar og bald-jökla svalir,
Sem sundrast í smávöld að samþýða alla,
Sem semur um hófin við lýðstjórn og jalla.
Þú afréttar-landflæmið umhverfis þjóða,
Ins ofaukna en sjálfstæða, Kanada góða —
Með fulltingi Íslands til landnáms og ljóða.

Við hyllum þig frjálsmæltir. — Einrænis anda
ei ölum um heimsmál og for-ræði landa —
Þann úrkipp úr veraldar-vexti áður félli,
Þann vissasta forboða mannkynsins elli,
Það jarðabót yrði ei þótt hirðir og hagi
og hjörðin upp greri með verksmiðjulagi. —

Við kjósum til fósturs þér, álfunni ungu,
Hvern óbundinn þjóðkost og fjölhæfa tungu,
Hvert sannyrði og lifandi ljóð, er menn sungu.

Í þjóðjöfnuð hérna er þarflaust að fara,
Því þursar að hausamergð lengst fram úr skara,
Við, ætt-dreif á heimskringlu lang-ferðalagi
Sem loksins hér flokkumst—þó margt úr því dragi—
Því, Saxi og Norðmaður, sýnt er það bróðir,
Að söm var í fyrndinni beggja okkar móðir!
Þó langt fram í öldum og austur um græði
Á upplöndum dagkomu vagga okkar stæði. —
Þar lagði 'ún oss málið í munn og sín kvæði.

Þó leiðum við skiftum við erindi annað:
Að útnorðrið fengjum við mannað og kannað,
Þó stefnurnar breyttust, þó uppi-hald yrði
Við elfi og myrkvið, við hafsbotn og firði.
Þó einn kveikti vitann við útsker og strendur,
En annar sinn varðeld um bláskóga lendur,
Það móður-mark hvarf ei. Við blönduðum blóði
— Með bræðra-svip fjandmenn — við lögskil, í óði,
Við ástir, við einvíg, í list og í ljóði.

Slíkt ættarmót berum í munni og minni,
Í málunum enn og í hugunum ínni:
Við könnumst við skyldyrðin tungunum tömu,
Við Tems og við Rín og við Jöklu — þau sömu!
Þar heldur vor frændsemd í »faðir« og móðir«
Sem fangamark arfgengt, og »systir« og »bróðir« —

Það munar svo litlu, þó tungurnar tvennar
Við tölum, við skynjum þó móðurrödd enn þar
Og vöknum við ljóðstaf úr vöggusöng hennar.

Svo vermdu þá, Kanada, í kjöltunni þinni
Upp kólnaða frændsemd og ættjarðarminni!
Ver frjálsust, ver hollviljuð hugsjónum ungu,
Ver heimaland sérhverrar þjóðar og tungu!
Þó aðskota-loftunga ofhrós þér segi,
Ef ættjörð hann svívirðir, trú honum eigi!
Því hann bæri, ef á reyndi, sæmd þína í sjóði,
Hans sjóndeildarhringur er laustekinn gróði —
Það innræti flýtur með flugumanns blóði.

— Þú manst hvernig fór, þegar fornöld var runnin
Og fallinn var Surtur og goðheimur brunninn,
Og jörð okkar hrunin og himnarnir níu,
Svo heimur og sól varð að gróa upp að nýju:
Það geymdist þó nokkuð, sem á varð ei unnið
Af eldinum — gulltöflur, þær höfðu ei brunnið,
— Við sitjum hér, Kanada, í sumars þíns hlynning
Og sólvermdu grasi, að álíka vinning:
Hver gulltafla er íslenzk endurminning.

1902

## Sveitin mín.

Brávellir, brekkuhöll,
Bláfell og klettafjöll

Útskorin dölum og drögum.
Espihóll, áin blá,
Engiland, móa-flá,
Lundar í harðlendis högum.

Hækka upp vestrið við
Víðlendis yfir mið
Sólundir heiðblárra hæða.
Glaðviðris gróin ró
Glóir um sumarskóg,
Varmár um víðidal þræða.

Hátt uppi hrika-fjöll
Hefjast og blika öll
Iðandi í árdegis hilling.
Óskýjuð austan sól
Uppljómar dal og hól,
Rjóðrar á grástakka gylling.

Sjónfögur sveitin mín,
Sól þegar heitast skín
Einn með þér gott er að ganga.
Hlær við mér hugsun ný,
Hljóðlátt sem vaknar í
Sérhverju dalverpi og dranga.

Þykist eg sama sjá
Svipinn, og þekkja á
Framdal og fjallbungu hvelfdri,
Þann sem ber móðir mín

Mjallhvít, hún systir þín!
Þú ert samt þroskaðri — eldri.

1902

---

## Póstkvöldið.

— Þegar blöðin fluttu lát Valdimars Ásmundssonar ritstjóra. —

I.

Hafir þú ei heimasætt
Hugarfar með bjálfum,
Þú hefir, veit eg, vaxinn grætt
Vini í flestum álfum.

Bygt í muna marga brú
Milli fjarra geima.
Hlýtt á spaka, þó að þú
Þegðir og sætir heima.

Þér var hljóðum hugar-bót
Hvað þeir ræddu og sungu,
Þó kæmir ekki á manna-mót
Né mæltir þeirra tungu.

Gátu yfir lög og lönd
Langt — þó fáir viti —
Rétt þér bróðurhugans hönd
Heim, í blaði og riti.

Var ei gesta-vals í rann
Von? ef höpp ei sviku,

Jafnvel yzt á útkjálkann
Einu sinni i viku.

Erti ei tíminn tifa-seinn
Tilhlökkun í brjósti?
Þegar vaktir uppi einn
Eftir lötum pósti.

Hafðirðu' ei oft, er upp með glaum
Aðrir reru á fætur,
Vakað og leikið ljúfan draum
Ljósrar sumar-nætur?

II.

Þegar sígur árin á
Æfi-langrar ferðar,
Verða ei eins til yndis þá
Andvökurnar gerðar.

Þá er bert um bleikan kall,
Breytist leika-sviðið.
Þá er sérhver frétt um fall
Fjölguð skörð í liðið.

Geymt þó sé að hrína hjá
Hópnum burtu teknum,
manni bregður samt að sjá
Sætin auð á beknum,

Yngri fjörs þó fylli skörð,
Færir meira að vinna

Af því þeim er gatan gjörð
Greið í sessinn hinna.

Þeim er ætlað annað skeið —
Ára-talið sýnir:
Þeir vóru ekki á lífsins leið
Leikbræðurnir þínir.

III.

Og í kveld með eftirsjá
Endaði þessi biðin —
Vakan hefir vísað á
Valdimar sé liðinn.

Göngum hljótt um harma manns
Hitt er við að una,
Þeir hafa lagt á leiðið hans
Lífsins kórónuna.

Þó hann hafi egg og odd
Andans skorið dróma
Hefir í fjöldans farar-brodd
Fengið gröf með sóma.

Framtíð sýnir sannleikann
Seinna í starfi og riti.
Það er eina uppskeran
Ábyrgst — svo menn viti.

1903

## Eftir unga konu.

—

Það gerðist um sumar, er sofnuð var hríð
En sólskinið vakti yfir gróðri,
Að þú hafðir unnið ið örðuga stríð
Sem endar á hvíldinni góðri,
Að dauðinn við sársaukann samdi þér frið
Með síðustu hjálpina: leiðið.
Og himinn og jörð tók þér vinlega við
Í vorfaðm sinn, ljósið og heiðið

Við vitum frá gröf snýr ei hugur manns hress,
Sem hjartfólginn ástvin sinn grefur,
Þó tjónið sé okkar — en alls ekki þess
Sem óhultur hvílist og sefur.
Því tár vor og ár gera hollustu hans
Í huganum ljúfari og skýrri —
Fyrst helft vorrar sálar er minningar manns,
Og margoft sú göfugri og dýrri.

Og þegar í seinustu samferð er lagt,
Við sökuð er nátengdin stríðir:
Við þegjum að vísu, hvað verður þá sagt?
Við vitum hvað gangan sú þýðir.
Við þekkjum hvað svíður, hve sverfur að dug
Það sár, er af missinum stafar,
Það lýir sem bæru menn hjarta og hug
Og hamingju sína til grafar.

Þó hugtregi verði til huggunar seinn,
Býr harmurinn nú yfir launum —
Hver sköruleg konusál elskar þann einn
Sem uppgaf ei varnir í raunum.
Mót böli skal hugurinn herða sitt megn
— Og hylli við minnið þitt sýna —
Og bera það, sigra það, ganga því gegn
Og geyma svo ástina þína.

Svo, alúðar kveðjur! og þökk fyrir þor
Unz þjáninga-sigur var háður.
Og eins að þú hrestir sem hlæjandi vor
Á heilbrigðis-dögunum áður —
Þó ástvinir kvíði að koma nú heim,
Og kalt finnist sumarsins heiði:
Skal svölun og styrkur frá stundunum þeim
Enn stafa frá gróndi leiði.

1903

---

## Ræninginn.

— þ. e. Shakespeare —

Hann líktist ei víking sem vofði yfir strönd,
Hann vóg ei til fjár eða brendi —
Þó sópaði 'ann óheimilt Evrópu lönd
Með ófrómri ræningja hendi.

Þú nöldrar um hlutdrægni, hnuplara-grey,
Um hending og misskifta lánið:

Því við leggium sæmd á hann, sökum hann ei —
Svo sjaldgæft og fagurt var ránið.

Við segjum að réttmæt sé rangefni manns,
Þó reglur og lög hafi brotið,
Ef veröldin fann, að í hellinum hans
Hún herfangsins bezt hafi notið.

Svo glampar hans logandi einkenni á
Því öllu, sem gjörninga-hringur,
Svo hvenær sem þjófar við ránið hans rjá
Til refsingar brenna á þeim fingur.

Frá þjóðsið og landsvenjum löngum hann vék
Og lögskila heimild og sögum —
Að hamslausum ástríðum óhikað lék
Sem eru ekki í þingmanna-lögum.

Hjá honum er veröldin upphilling öll
Og öflin í stormum og vötnum.
Og hann getur sviplega sent þig á fjöll
Og sett þig við drykkju hjá jötnum.

Hann beitir þig aflsmun — þú bjóst við til hálfs
Hann blekti með list eða ráðum.
Í Brútus og Makbeþ er sálin hans sjálfs
Þeim Shylokk og Óþelló báðum.

Í skapferli og viðburð þú samræmi sér —
Og sízt þess er vænt að þig kynji,

Þá landskjálfta hviðan í ofsanum er,
Að eldfjallið gjósandi hrynji

Og sjálfgerðan efnivið í sér hann fal
Í alt, sem menn níða og hrósa —
Því stórskáldsins heimild er verka-hrings val
Og valdið, um sálir að kjósa.

Öll stórmenska bauðst honum lesta-gjaldslaus,
Hver lofstír með kost sinn og galla.
Hann reyfarans hlutfall sem kjöríki kaus,
Með kongsbréf að ræna þá alla.

1903

## Sigurbjörn Jóhannsson frá Fótaskinni.

En var það ei lán gegnum andstreymið alt
Jafn örugt á hending að fleytast?
Og varð hún ei ylur, þá annað var kalt,
Og örfun er tókstu að þreytast?
Hvort varð ekki bragur þér blessunar-nyt
Í búi, er lítil var eigan?
Og brýndi ekki óður þinn unað í strit
Og eggjaði ljáinn þinn deigan?

Og víst mattir and-vökur illskárri þú
En aldar-hátt svefnpurku-lyndan,
Því ekki er glaðvært hjá morrandi múg'
Sem mókar sig hugsjóna-blindan.

Og yrði ei huganum hagurinn smár
Að heiminum, lífinu sjálfu
Er veitir sem sæmdar-gjöf sextíu ár:
Að sofa þau út nær að hálfu.

En hitt er samt mann-raun, og nærri því nauð
Of nær-göngul öllum, sem reyna,
Að metast við heiminn um mentunar-brauð.
Fá mola og úrkast og steina —
Fá sáðland sér úthlutað órætktarmest
Í urð og með jarðvegi grunnum,
Og sjá sér svo ákveðinn uppskeru-brest
Í alls-lok á hrjóstrum svo þunnum.

Og ætli að sú tunga með úrkostinn þann
Ei áfrýi vandlætis dómum
Sem matti það sjálfþægð að syngja við mann,
Var samkvæða almanna rómum?
Sem varði um málsnild og ljóðauð síns lands
Í landeign ins ríkara og stærra,
Sem dró að því athygli útsveita manns
Ef einhver söng gleggra eða hærra.

Á horfinni öld þótti harpan sú snjöll,
Er hirðskáldin strengina knúðu,
Sem lang-spentir náðu um Norður-lönd öll
Frá Niðarós suður um Rúðu.
Við könnumst við vöru-mark ómum þeim á
Um ofjarl og skattkónga raðir

Og ein-kvæður hróður var hátturinn sá,
En hann varð þó sögunnar faðir.

Og aukin er harpan vor norðlenzka á ný,
En nú liggja strengirnir vestur —
Og þinn söng um mannkomu óbygðir í,
Um íslenzkar héraða-festur.
Og þú ristir ljóðstaf á akur og eik
Með yfirbragð þjóðlífs og foldar,
Og kveðandi vígðir þú lýðmót og leik,
Og landnemann söngst þú til moldar.

Ef hlýviðri félst þér, að hending varð það,
Og hríðin á sumardag fyrsta —
Og sneyðir finst nágrenni orðinn þér að,
Og autt vera skarð sinna lista.
Því um það er sveitin, sem ber nú þín bein
Í barmi sér, ljósust til vitna:
Hún gull-fáði nafnið þitt, gróf það í stein
Til geymslu yfir strenginn sinn slitna.

1903

## Úr Íslendinga-dags ræðu.

Þó þú lang-förull legðir
Sérhvert land undir fót,
Bera hugur og hjarta
Samt þíns heima-lands mót,

Frændka eldfjalls og íshafs!
Sifji árfoss og hvers!
Dóttir langholts og lyngmós!
Sonur land-vers og skers!

Yfir heim eða himin
Hvort sem hugar þín önd,
Skreyta fossar og fjalls-hlíð
Öll þín framtíðar lönd!
Fjarst í eilífðar útsæ
Vakir eylendan þín:
Nóttlaus vor-aldar veröld
Þar sem víðsýnið skín.

Það er óska-land íslenzkt
Sem að yfir þú býr —
Aðeins blómgróin björgin,
Sérhver bald-jökull hlýr,
Frændka eldfjalls og íshafs!
Sifji árfoss og hvers!
Dóttir langholts og lyngmós!
Sonur land-vers og skers!

1904

## Sigurbjörg Stefánsdóttir.

— Föðursystir höf. —

Þú hafðir víst óskað þess, systir mín sæl
— Um sjálfefnt þarf enginn í leitir —:

Að hugur minn, farfugl ins langfleyga ljóðs,
Sem lands-vist með árstíðum breytir,
Með vorkvaki í vísunni sinni
Þín vitjaði í gröfinni þinni.

Þú vissir, að það er ei landauðna-lag
Sem leik eg á hörpuna mína —
Við söknum þín, þökkum þér sjötíu ár,
En sættumst við hvíldina þína,
Fyrst æskan á landið að erfa
En ellin og þreytan að hverfa.

Og systir, nú vekst mér vor ættferill upp
Um aldanna langdrægu skeiðin:
Frá austri í vestur til veraldar-náms
Með vöggurnar okkar og leiðin!
Þá kviknar mér eldur og óður
Og unun og saknaðar-móður.

Þvi sárindin liðnu frá leiðangri þeim
Oft leggjast í streng minn og svíða —
En hitt fjörgar ljóðið og örvar þess óm,
Að ættar-mót geymdust svo víða
Þar söngtákn og sögu-mörk landa
Með svip hennar óhögguð standa.

Að kyn okkar verkfært frá gröf sinna gekk
Og graflagði ei hrífuna og orfið —
Þó autt verði frændsemi skyld-mennis skarð,
Ei skiftir um framtíðar horfið.

Alt okkar, sem veröldu varðar,
Er vakandi og ofan-jarðar.

Við höfum þá, systir mín, landnám vort lengt
Um leiðið þitt vestur í álfu,
Og numin er æskunni ættar-jörð ný.
Við óðul vor bætir það hálfu —
En stækkað ef stöðvar þær hafa
Svo styttist þar eins milli grafa.

1904

---

## Landnáms-konan.

— Margrét Jónsdóttir frá Tindastól í Alberta. —

### I.

Smádregur að héraðsins haust-nótta hvíld —
Á húsglugga frostlagða, þakskautin sýld
Sezt hélunnar marmara-mjalli.
Hver jurt, sem um fardaga fulltíða bjó
Og fluttist með vorsól á grund eða í skóg,
Er feld — eða liggur við falli.

Og það er sem hilli upp holgrafinn reit
Þar haust-kólgan rís yfir útkjálka-sveit
Mænd skýkumlum rokstorma-raufa.
Og umhleypings-bylurinn áttavilt blæs
Um almannafæri og skjól-veggi bæs,
Og reikar með líkfylgdum laufa.

Og nú er sem kveld-roðann festi ekki á fjöll,
En forsælu um hádegi viðri um þau öll
Að hraðfara dagsetri í dalnum —
Og fyrst eg í kveld, er til gígjunnar geng,
Strýk gómunum kreptu við ósnortinn streng:
Í nótt skal eg vaka yfir valnum!

II.

Í veraldar-söguna var hérna skarð —
Þau vetur og sumar um auðan garð
Hér gengu frá upprofi alda.
Alt vesturland heiða-vídd húsnæðislaus,
Einn haf-villu draumur. — Hér greri og fraus,
En engum til vegs eða valda.

Svo hófst hún þó loksins þess arðsemis-öld —
Í áföngum talin og miðuð við tjöld
Var lauf-mörk og ládeyðu-slétta.
Og svo spratt um kafgrass og kjarrskóga geim
Upp kotbær og þangað lá manna-slóð heim,
Því al-bygðar upphaf var þetta.

Og Evrópa hrifsaði happsemis fund —
Frá Hafs-botnum suður um Stólpa-sund
Hver þjóð slóst í lands-kosta leitir,
Og norræna og suðræna sundurleit mjög
Í samvinnu gengu um bænda-lög,
Um útjaðra og íslenzkar sveitir.

Svo knýttist um þjóðernin bróðernis-band,
Unz bygðin varð alsherjar fósturland,

Ið sundraða frum-býli að sveitum.
Samt lýsa hér eldar ins aðkomna manns
— Við arin-hlóð glæddir hans föðurlands —:
Í bygða og héraða heitum.

En liðinn er margur sá hugur og hönd
Sem heimilin festi, sem vann þessi lönd,
Og landnema lestirnar þynnast.
— Það kveður sitt hljóðfall í hörpu-streng minn
Úr hálffyltum grafreit eg ómana finn
Í vísum, sem Margrétar minnast.

III.

Er íslenzkan valdi hér bygðir og ból
Varð bær hennar Margrétar ferðamanns skjól
Og viðnám gegn veglúa meini —
Því oft var þá geislinn frá sumarsól
Manns sveitungi næsti við Tindastól,
Og norðanhríð nágranninn eini.

Og ágizkuð stefna var þjóðbrautin þá,
Og þungkleyfur straumur í vaðlausri á,
Og andsvalt á auðnunum flötu —
In vestræna strjálbygðar vega-lengd
Var vinar-húss leiðum um bæ hennar tengd,
Því gestrisnin lagði þar götu.

Og af því að sinna heimilishag
Hún hlúði með árvekni sérhvern dag
Varð bærinn æ bjartari og hlýrri.

Og altaf var heimilið héraðsbót,
Þó húsaskjól fjölguðu og vegamót,
Og bygð væru nágrenni nýrri.

Hver býr sig til fundar við lærdóm og list
Í landi, sem heimtar öll búverkin fyrst?
En bros hennar leit eg því lýsa,
Að það átti í sál hennar ættgengi alt,
Sem ört var og djarfmannlegt, frjálslegt og snjalt,
Skarpt gagnyrði, vel-kveðin vísa.

IV.

En samt veit eg, Margrét, að saga vors lands
Mun svíkja að flétta neinn minninga-krans
Um lífsstarf þitt hógværa, hljóða.
Fyrst manngildi er dálkur í dagblaða stærð,
Og dómstóllinn orðstír og klerka mærð
Og tildrið á lofköstum ljóða.

Og eins þykir gagnlaust, að gefa þeim hljóð,
Sem gengur um haustnótt og flytur sín ljóð
Við ókunnu leiðin og lágu —
En vittu það heimur, að hér er það lið
Sem hélt þér við ættjörð, er mest lá þér við
Og stórmenni sögunnar sváfu.

Hvort urðu ei tjón fyrir lýði og lönd,
Röm lánsælda öftrun og hugunum bönd
Mörg þrekvirki, er sett voru í sögur?
En þjóðarheill auðgar þó æfi hvers manns
Ef eftir hann liggur á bersvæði lands
Þarft handartak, hugrenning fögur.

Eg kveð ei til frægðar og fæst ei um það —
En framtíðar söguna spyr þessu að:
Var kröftum þeim kastað á glæinn?
Sem uppvexti lýðþroskans léðu sinn vörð,
Sem landauðnir gerðu að móðurjörð,
Að heimili búlausa bæinn.

1904

---

## Fósturlandið.

Landið, sem mín vígð er vinna,
Vöggustöðin barna minna!
Eg hef' felt í lag og línu
Ljóðið mitt í grasi þínu —
Yfir höfuð yrkir mitt
Aftur seinna grasið þitt!
Hjarta og hugur er
Heima-bundið þér.
Met ei við miljón dali
Mætur, sem á þér ég hef',
Stuðla ei í stef
Hrós þitt í hundraða-tali.
Sé ei rík þú sért —
Syng að slík þú ert:
Allslaus undi eg mér,
Ás og grund, hjá þér.
Einkunn er þín sú,
Yndi mér varst þú!

Myndi í fjarlægð þér frá
Fluttur út í heiminn víða
Eftir þínu sólskini sjá,
Sakna þinna hríða —
Bert og bólfest land,
Byls og skjóla land,
Hvamms og hóla land,
Húms og sólar land!
Landið, sem mín vígð er vinna,
Vöggustöðin niðja minna!

1904

---

## Dr. D. W. Fiske.

Þó varlega vísunum mínum
Eg vogi að nafninu hans,
Sem langframa vinsældir vann sér
Míns vinfasta, minnuga lands:
Í íslenzkri örbirgð, úr ljóði
Á ástfólgnu gröfunum vér
Oft hlóðum þó merki til minja —
Það marmari og gull okkar er.

Og leiddur er Fiske, ekki liðinn,
In lokaða gröf hans er tóm. —
Frá moldum hans minningin kallar
um mannheim í lifandi róm:
»Rís velviljans öld yfir veröld,

Með vinfengi brúa þú höf.
Fram nýár og ljós yfir löndin
Með ljóð kring um vöggu og gröf.«

Því bróðernis-bönd okkar sögu
Hann bundu við gjörvalla þjóð,
Og tungumál vóru 'onum tengdir,
Sem táknuðu samerfða blóð.
Það ættarmark var honum auðþekt
Á alt sem hans kynflokk dró. —
Svo grynti 'ann þann fjörð milli frænda
Sem fávit og þjóðhroki gróf.

Hann mat ekki miljónir einar —
Hann miðaði auðlegð hjá þjóð
Við landeign í hugsjóna heimi
Og hluttak í íþrótta sjóð' —
Og var um þann ættingjann annast,
Sem yzt hafði og fjarlægast þrengst,
En haldið við sálarlífs sumri
Um sólhvörfin döprust og lengst.

Þó enn ríki harðbýli í heimi,
Og hlutfallið á því sé bygt:
Sé brynja undir veizlu-stakk vorum,
Er vinaboð sviklaust og trygt!
Samt vakna þær framtíðarvonir,
Er vinirnir minnast á hann,
Að penninn hjá sanngirni sætti
Um sakir, er illskiftnin vann.

Og þökk sé þeim öðling og ástvin
Vors afskekta, vanrækta lands!
Ver nýárs-ósk, ljóð mitt, til lukku
Í lífsstarfi kærasta hans —
Hvert nýár úr gröf sinni gefur
Hann gjafir, jafn mildur sem frjáls.
Sig hópa um 'ann vestrænir hugir
Og hljómar ins íslenzka máls.

1904

## Ávarp til Norðmanna.

I.

Hamingjan kyns vors letrar lofstír á sinn:
»Lýðveldið fætt en konungurinn dáinn«.

Við kváðum svo og sungum, fyrir skemstu,
Er settum skorður konungunum fremstu:
Þjóðviljans braut að konungsríki kemstu!
Og við fluttum drápu um heygð og brotin helsi
Og háttalykla um þjóðjöfnuð og frelsi,
Og hugðum það satt. En vóðum samt í villu,
Sem vorfuglum gekk í einmánaðar stillu.

Því hvað mun heitið hlutræningja gera?
Og hvern mun smáþjóð kost úr skiftum bera,
Ef aflsmun þóknast þræleigandi að vera?
Það var um blóðvöll Búa síðast sannað,
Ef svarið skiljum — það, að Bretinn vann það.

II.

Þér Norðmenn, brutuð odd af einráðs valdi
Með atfylgd Svía, en skirrðust við því gjaldi,
Í bróðerninu að lúta í lægra haldi,
Unz ójöfnuði sögðuð þér í sundur —
Og settuð, hvernig réðist næsti fundur,
Í friðar traust, á auðnu ins frjálsa anda
Og allar heilladísir Norðurlanda.

Þér Norðmenn, eigið grip, sem gekk í erfðir
Til gengis ef á manndóms þrekið herðir,
— Hann týndist ei við fár né víkingsferðir —:
Að kaupa ei frið við samvizkuna að selja!
Og sé um rétt og konungs hylli að velja,
Á svara hátt og hættuna ei telja:
»Eg ann þér maður, met þig dreng og kappa,
En málstað þínum bið eg illra happa«.

III.

Hver Noregs höfn er bólgin undir-alda
Og uggvænust á Norðursænum kalda.
Í lofti er far, þó engar bjarkir bogni,
Því bylur svífur yfir dúnalogni
Á Þrymsey, Jaðri Sunnmæri og Sogni,
Því sær og fjöll í fjörsumbrotum standa
Við framtíð sína og allra Norðurlanda.

Því nágrend spilt er nöpur óláns rötun,
Og náfrændvígin ættar-boga glötun.
Og veggur sjálfs manns verst ei æ né stendur

Gegn voðaeldi, ef nágrannans er brendur —
En sveitum bjarga samtaksfljótar hendur.

IV.

Ef tryltir Bjarmar hrakför halda að austan,
Ver hamingjan um vinagarðinn traustan!
Þó soknum drekum draugar fleyti úr sænum
Og dráps-hring slái að höfninni og bænum,
Sig vina sambjörg ver á fáum kænum.
En þá skal alt á eigin fingur telja!
Fyrst Englar, Saxar kaupa nú og selja —
Í fjarða-munn þó blakkir barðar skríði
Og birnir Bússlands skjögri úr vetrar-híði,
Og Ása-Þór þó ekið hafi vagni
Að útför sinni og Jötunheimur fagni,
Þeir erfðu hamar hans, þeir Móði og Magni.
Og vígin hlóðu skagi og skerja-tengsli
Og skugga-berg og jökuldala þrengsli,
Svo eins manns líf með eldfjalls magn í hendi
Er opin Hel þó stórfylkingar lendi —
Því sökkvi-djúp er sær við strendur framan,
Sem svelgir þúsund skeiða flota raman.
Um megin-herdeild hrynja fjöllin saman.

V.

Er vonlaust, heimskan hygnari sé orðin,
Og hiki nú við skaðvæn þjóða-morðin?
En skynji að margbreytt mál og hættir huga
Sé heims-menningar líf, ef á að duga —
Með fásinni mun ellin yfirbuga.

Að illum vinning eftirköstin snúa.
Og ofmetnaður gekk með smán og lúa
Og skaða-sár frá hræjum heygðra Búa.
Og síðan Japi og Rússi hófu rómur
Þig rak í stanz, þú hroka kristindómur,
Að sigurafl er sannur heiðindómur,
Sem bregzt ei lands síns liði, er geisar voði,
Þó líf á jörð og himni sé í boði.

VI.

Í sókn og vörn er frægðin hinna fáu
Í framtíð lýðs, og sigurinn hinna smáu.
Ið fáa og smáa fylgir æsku-merki,
En fjölda-mergðin deyr að loknu verki.

Og afturhald í fábygð er ei falið,
Og framgirnin er ekki höfðatalið.

Né er þá horfin heill, þó bú manns stæði
Við hrjóstur-land og veðurbarið svæði,
Því skynsemd fólksins skapar landsins gæði. —

Að guðsgjöf tóm sé auður lands og yndi
En ekki manns-verk, það er ósannindi!

Er hugurinn grípur lífsins vaxtar vegi
Er von að hann við þroska-skeiðin segi:
»Þín aðferð stenzt, þinn alda-fjöldi eigi!
Á fáum árum fjallið gegn má rjúfa,
Sem fljótið var í aldatal að kljúfa«.

Því vitrun sú, sem goðasagnir geyma,
Og guðsdýrð öll og frambúð sælu-heima
Er mannkyns viljinn menning sína að dreyma.

VII.

Þér Norðmenn, þiggið ósk frá yður smærri,
— Frá Íslendingi, þó hann standi fjærri —
Og minnist þess, að forðum stórum fregnum,
Sem frændsemd snurtu, var ei undra-megn um
Að þjóta í skálm á skálabúa veggnum.

Við hörpu Íslands hnýttur sérhver strengur
Fær hljóm-titring ef skrugga um Noreg gengur.

Það snertir innar ættar-tali í sögum,
Sem ómur væri af sjálfra okkar högum
Og ættum bæ og börn í Þrænda-lögum.

VIII.

Þér Noregs skáld, sem okkur örvun senduð,
Og á því sjálfir nokkrum sinnum kenduð
Að sitja í krók með bundinn hug og hendur,
Er heimabygð manns öll í loga stendur,
Í áheyrn dóms um okkar vænta og liðna:
Hvað ætti að brennast, hvað nú mætti sviðna!
Hjá sveit sem veit sig minst við málið riðna,
Sem ei á heim né heima-land í geði
Né hugsjón til, sem staðið geti í veði.

Þér gömlu farmenn! land í lýsing sjáið,
Það land, þá bygð, það aldarfar sem þráið —
Og er það ekki sælt, að ganga að sofa
Með sýnina þá? er vöku-nætur rofa.

IX.

Alt norrænt kveður Noreg heilla-minni
Með nýrri dögun yfir gæfu sinni,
Og brýnir kraft að hafa í öllum höndum
Við hugarstefnu í Norðurálfu löndum.

En friðar-styrkur frjálsra anda og handa
Um framtíð ríki á kóngs-stól Norðurlanda!
Á meðan þjóðsæmd þrífst og tungur standa.

1905

## Stefán Kristinsson.

— Systursonur höf. —

I.

Margblessaður heimkominn, velkominn vert!
Þó viðtakan setji okkur hljóða —
Við tökum þig grátfegnir eins og þú ert
Í armana, hjartað vort góða!
Þú kemur að flytja aldrei frá oss,
Í framtíð að vera nú hjá oss —
Í boði var öll okkar eiga,
En ónýt varð hún nema í sveiga,

Svo kransinn frá okkur sé ljósari en lín
Og lifandi grænn eins og minningin þín.

II.

Já, velkominn heim! Þó oss virðist nú hljótt
Á vonglaðra unglinga fundum,
Og autt kringum ellina stundum.
Vor söknuður ann þér, að sofa nú rótt
Í samvöfðum átthagans mundum,
Hjá straumklið og lifandi lundum,
Við barnsminnin ljúfu um brekku og völl
Með bæinn þinn kæra og sporin þín öll.

Og þó að oss finnist, við fallið þitt, þar
Sem framtíðin gott á að vinna,
Nú orðið sé manns-liði minna:
Við heitum þér að því, sem óuppfylt var
Af óskunum þínum, að hlynna,
Og erfðafé ætlana þinna!
Þó við megum sakna ins samhenda manns
Í sérhverri mannraun og góðviljans hans.

Haf þökk fyrir staðfestu, alúð og ást
Til ættingja og félaga þinna,
Hvort vórum í leik eða að vinna.
Þigg sæmd hans, sem aldrei um æfina brást
Sig öllum að drenglund að kynna
Né vonunum vinanna sinna,
Sem var okkur bróðir og blessunar gjöf
Frá barnsvöggu stoknum að tvítugs-manns gröf.

Og enn mun í gröfinni indælt um þig
Er upptekur vetrarins snjóa,
Og grundin og skógarnir gróa —
Og þá munu hjörtun vor sætt hafa sig
Við sumarið stutta en frjóa,
Ið sólríka, sjálfsdáðanóga.
Og þá munu reynast svo sönn, að það sést,
In síðustu orðin þín: Heima er bezt!

III.

Sjálft skammlífið verður þó vinningi að
Ef vinirnir hafa við mikið að una —
Og ellinnar síðasti sigur er það,
Að sitja við leiðin og yrkja og muna.

Eg kveð þig með kærleikum, góði!
Þig, drenginn minn dána, með ljóði —
En ekki í síðasta sinni —

Við endimark æfinnar vega
Ið eina, ið átakanlega
Er vitund sú: vinir manns trega.
Það vakir í meðvitund minni.
Og slíkt myndi þrengt hafa að þinni.

Svo sigra eg söknuð og amann,
Og kveð yfir mold þinni minni
Eins frjálslega, og sætum nú saman,
Sem værir þú enn hjá mér inni —

Og bölið manns sjálfs er því bærra,
Sem hugsun og hjartað er stærra,
Þess meir' sem var lifað og liðið,
Og oft með því framliðna og fjærra
Ef huggast við höfum og kviðið.

Um samtíma og sögunnar stöðvar
Með söknuði var eg á verði:
Hjá Davíð sem drenginn sinn erfði,
Þó heitast um hjartað mér gerði
Stríð Egils, sem orti eftir Böðvar.

Og þróttur minn þrek hefir fengið
Við harma-spor hugprúðra manna
Í ísbreiðu óþíddra fanna,
Sem einir og eins hafa gengið —

Eg kveð þig með kærleikum góði!
Þig, drenginn minn dána, með ljóði —
En ekki í síðasta sinni.

Þú lifir mér alt eins og áður,
Svo lengi ég hugsun er háður,
Þú gengur á götunni minni,
Þú situr svo oft hjá mér inni.

Hver vorgeisli vaxandi fagur
Er venzlaður verunni þinni,
Þinn hugur hver hreinviðrisdagur,
Því þaðan kom sál þín og sinni.

Eg sé þig enn eins og eg sá þig,
Sem forðum eg átti eg á þig.
Þess varnar ei moldin á milli —

Svo kem eg og flokkinn þinn fylli!
Um náttstað minn síðasta ef sjálfráður er
Þá seinustu nótt mína gisti eg hjá þjer.

1905

---

## Símritað.

— Íslendinga-dags kveðja. —

Að útheims endum
Til Íslendinga,
Um leiðir sendum
Við ljós-hreyfinga
Frá strönd að strönd
Um storð og lög:
Vor handabönd,
Vor hjarta-slög.

1905

---

## Páll Ólafsson dáinn.

Laus er Páll við líkamans
Leifar elliþungu —

Sæl og ung er sálin hans:
Söngur á hverri tungu.

1906

## Heimboðskvöð Helga magra.

— Kveðið yfir minni »klúbbsins« Helga magra —

Hver ættjarðar glaðning á heimboðs-rétt hér
hjá hollvættum söngsins að miðsvetrar-blóti,
Hvort kristninni hneigð eða heiðninni er,
í hávegum íslenzkrar gestrisni njóti!
Og þjóðtungan okkar, með ljóðanna lið,
Sem leikur í fossum og kliðandi flýtur,
Sem hjúfrar eins klökt eins og vorblær í við
og veltist sem stormur, er jökulinn brýtur.

Við unnum þér betur en bera á þig hól,
þér blindhríða-landið og ísjaka-strauma!
En þegar um vornætur sezt ekki sól
Er sjálfrátt að trúa ekki á gullaldar-drauma?
Við þekkjum, þó aðsjálni arkaði heim,
að ábata-vonin sá fánýta móa. —
En slapp ekki á hreiðrinu í högunum þeim
Þér haftið af tungunni, suðræna lóa!

Þær þjóðir, sem stóðust ei eld vorn og ís,
Við ætlumst ei til að oss jafningja kalli,
Þó sigrurum einum sé orðstírinn vís,

Var ágætismeira að lang-verjast falli,
Að standa af sér hríðina er ísinn gekk að,
að afstýra druknun á tæpustu lending —
En skroppinn úr slarkinu slyngast var það,
að slá sér upp veizlu og kveða þar hending!

Ef sagt er upp nafnið þitt, sveitin vor kær,
Og sungin að mið-vetri íslenzku minnin,
Á þreklegum skata og þýðlyndri mær
Hvort þrútna ei vöðvar og roðnar ei kinnin?
Við lítum þann nærri því meðaumkun með
— sem mist hefði af tilviljun flest okkar gæði —
Sem hefir ei Ísland og Eyjafjörð séð,
Né erft okkar sögur og numið vor kvæði.

1906

---

## Afmælisvísur.

I.

Eg man að var skrafað og skrifað um það
Í skeggræðum fólks og í upptuggu-blað,
Að fimtugir ættum við allflestir þó
Af afmælisdögunum meira en nóg.

Að æskunni finst það um fausk eins og mig
Ei firtir. — En Kristinn minn, varaðu þig!
Því árþriðjungs-brotinu er bótleysa að,
Ef blaðfróður jafnaldri rekst on'á það.

Og nú skal eg segja þér alt eins og er,
Að óþarfalíf getur hlotist af þér!
Þín komandi æfi er hreint ekki á huld',
En hvað þú svo gerir er ekki mín skuld.

Eg auðvitað hálf-segi og hleyp yfir margt
Af hrörnunarmerkjum — Eg anna þeim vart!
Eg drep rétt þín glöggustu elliglöp á,
Sem ættu menn viljugt að steinsofna frá.

Eg tel ekki hjálpfýsi, sanngirni, sátt,
Sem sammerkt við nafn þitt og fjöldann þú átt,
Né kærleik né góðvild né greiðvikni þá,
Sem getur hvert sóknarbarn skorið sig frá.

II.

Þú komst ekki hálærður hingað til lands,
Þú hafðir ei víxil á banka neins manns,
Né fyrir þeim innstæðum ofan þú tókst
Með auðmýktar svip, hvort þú gekst eða ókst.

En hvar sem þú lagðir fram verk eða vit,
Í veizlu, á málfund', við leik eða strit,
Þar mátti hver hér-alinn hafa sig við,
Að halla ekki undan, að biðja ekki um grið.

Og meðalmann hvern gaztu hæglega þreytt
Í hvatræði og glöggsýn, ef léztu því beitt —
Við stóðum ei altént í sammála sveit,
Eg segi af reynzlu það lítið eg veit.

Þú hneigðist að framför og frjálslyndi því,
Að fleka ei málstaði rógburði í.
Og hveimleitt var hræsninni, að heyra þín svör,
Sem hvíslar í flónin með tvíræðri vör.

Þú hefir ei breytt þér með aldrinum enn —
Og enginn er viss á því, guðir né menn,
Sitt arfgenga fjármark á eyranu á þér,
Hvort aðgætni skarpsýnust neinstaðar sér.

Og framvegis verðurðu efalaust eins,
Svo umtölur spökustu væru ei til neins.
Og von fyrir komið það öldungis er
Að enn geti búkröggur svelt neitt úr þér.

III.

Eg óska þér framtíðar — Þel mitt er þýtt,
Eg þakka þér alt saman, gamalt og nýtt —
Það sýnir víst glöggvast, að meira sé mér
Þó mál á að hátta en fimtugum þér!

— En ég fékk víst útvalning' enga til þess,
Á englanna loftungu að syngja mín vers.
Eg fæddist ei þulur með þjóðskálda mál —
Svo þarna er kvæðið! og hérna er skál!

1906

## Níels Finsen ljóslæknir.

— Þýtt. H. Drachmann. —

---

Án stórskota hríðar og hernaðar-brags
Og hergöngu-lags,
Þar hné hann nú, brosandi ið hinzta sinn,
Sá hertoginn,
Í dauðsærðra fylking sem foringinn var
Og fóstbróðir þar.

Frá lýsing til rökkurs þeim liðsinti bezt
Og leið með þeim flest.
Með voninni stóð hann gegn myrkranna mátt,
Bar merkið sitt hátt.
Sjálft ljósið sér skaut kringum skörunginn þann
Í skjaldborg um hann.

Hann kannaði val þann sem vanræktur lá,
Og voði er að sjá.
Hann banasár græddi og annara und
Að útfararstund,
Þó sárt honum blæddi til ólífis inn
Um áverka sinn.

Því aðstoð og mannbjörg var umsýsla hans,
Ins árvakra manns —
Þú lýður, sem herguði hefur við ský
Og hávegu í,
Kom, hneigðu þeim lífgjafa er liggur hér nár!
Jafnt lágur og hár.

Slá bálköst úr lifandi ljósgeisla-krans
Um líkfjalir hans!
Það hné ekki um Norðurlönd, herjum-fræg öll,
Nein hetja svo snjöll —
Og nafnið hans Finsens er frægðinni hrós
Og framtíðar ljós.

1906

---

## Benedikt Ólafsson frá Eiðsstöðum.

Í uppeldi þínu var kotung ei kent
Né kúguð í skólana þjóðin,
En saga og ljóð voru sjálftekin ment
Sem söng í mann vitið og hljóðin.

Því þá var í tvísönginn farið við fjall,
Og fólkið tók undir og bærinn
Svo ómandi hringhendan umdi og gall,
Sem íslenzki fossinn og blærinn.

Þú týndir upp óboðinn orðsnildir þá
Á almennings götu, sem forðum,
Sem brosandi hugsunum flug-vænginn fá
Í fyndnum og dverg-högum orðum.

Og eins lék þinn hugur sér frjálslega um flest,
Og fátt var af kreddum sem þyngdi 'ann.
Og húsið þitt opna og glaðværð við gest
Var greiði til hvers manns og yngdi 'ann.

Við æskuna hélt sér mitt traustasta tak,
Og tjón er þar nokkurn að erfa —
En þó er mér sárast að sjá henni á bak,
Er sjötugu börnin mér hverfa.

— Og nú er ei hreimfagurt hendingin flutt
Í hjáróma ljóðinu mínu,
Er íslenzka bassann við erindi stutt
Tek aleinn hjá leiðinu þínu.

1907

---

## Einar Ólafsson ritstjóri „Baldurs“.

I.

Menning vorri er meinsemd á
Mörg, ef á er litið
Augum sem sér eiga hjá
Einlægnin og vitið.

Léttum hug, þann bygðar-brag
Bætir ofurlítið,
Hvað það Bakka-bræðralag
Bæði er ilt og skrítið.

Alúð, sem að ei gat breytt
Allrar jarðar heimsku,
Hafa þrátt í sjóinn seitt
Sælu-von og gleymsku.

Þessum heim' að flytjast frá,
Firrast blekking manna,
Vansalaust var áður á
Öldum dýrlinganna.

Boðskap þeim við böðla her
Brutust í að skila,
Sem þeir vissu og vildu að sér
Veitti aldur-tila.

Þeim að samning' sýndist rýrð
Sínu rétta máli.
Sína lygð fyrir drottins dýrð
Dönsuðu ei eftir Páli.

Þá hefir líka margan mann
Minna stoðað skólinn,
Vissu ekki eins og hann
Opin laga skjólin.

Nú sér enginn fyrirfer
Fullum háls' að yrða.
Nýja heimsins heiðnin er
Hjartveikari að myrða.

Hugsjón hver sem hefir tórt,
Hafist upp úr vöfum,
Hefir aldrei stígið stórt —
Þær stikla fram á gröfum!

II.

Verða ei stjórn né kirkja klökk
Kvödd með frétt um látið.
Baldur getur þrútin Þökk
Þurrum tárum grátið.

Okkur hinum eins er bezt
Öllu um hann að gleyma,
Sem það afrek sýndum mest
Að sussa og jánka heima,

Hann, sem ekki í óvild sá,
Alfrjálst reyndi ei fela,
Hita-máli hrekklaus frá
Heitinu sínu að stela.

Svo fer ekki ómegð nein
Athvarfslausa skeiðið —
Hreinskilnin er angruð ein,
Ekkjan hans við leiðið.

Farðu ekki að ygla brún
Undir stefi mínu,
Fyr en dýrri dís en hún
Drúpir að kumli þínu.

Bíddu, svo eg gleggri grein
Geri á þessum ræðum —
Er ei fyrirheit um hrein
Hjörtu í sjálfs þín fræðum?

III.

Hér er ekki að heilsa því
Að hinzta mál þitt reifi —
En vert þú sæll! sem siglir í —
Sjálfs þín fararleyfi.

1907

---

## Óskar Svía-konungur.

»Konungur vor er kotungsættar,
en sérhver þumlungur í honum er úr
öðlings-efni«

— Haft eftir sænskum hirðmanni —

I.

Meðan hljóður harmur
Helörn risti á brjósti
Hæsta konungs-höfuð
Hallaðist að bólstri —
Noreg hafði úr hendi
Höggvið Ás inn blindi.
Einn sat Bragi að beði,
Bragi ljóðskrautuður.

Laut að lofðungs eyra,
Ljóði því að hvísla
Sem að báli bornum
Beinir vinum sínum,
Orðum ei sem heyrðu
Aðrir, þó þeir spyrðu.

Sanngetulust Saga
Sjálf fer þeirra dulin.

Hvísl, sem þreyttu þrárnar
Þaggar uns þær spekjast.
Hálfgerð vísa, en vær sem
Vöggu-gælur mæðra,
Órímaða yndið
Óðs í skáldsins kvæði,
Fegurð fegins hugar
Frjáls við dróma málsins.

II.

Niðji sólskins-sveitá
Svásra Pýrennía!
Sem á Sevafjöllum
Sigrún örmum vafði,
Þar sem hvítum kili
Hvelfir norrænn Dofri —
Hún, sem kost, ei kynstofn,
Konungmennis virðir.

Karl og þræll hlaut kauptún,
Kóngs-börn æxlast þaðan.
Heiði og annes erja
Ættir Jarls og Hersis,
Þangað svanbjört Sigrún
Sveitar-drenginn kvaddi,
Konung sérhvers kóngs í
Kurteisi og íþrótt.

III.

Þegar mætra manna
Minning fær um síðir
Orlof, einu sinni
Ásta sinna að vitja,
Ríða roðnar brautir,
Rökkur vindhjálms brúar
O'n í Dagheims dali,
Daggarslóð að vestan.

Mun ei suðræn Sigrún,
Síung tárfríð ekkja,
Minning fylkis fegin
Faðma lífs í haugi?
Þykja sér enn sælust
Sængin þar hjá liðnum,
Kveða einkis örvænt
Enn á Sevafjöllum?

IV.

# HEIMA AÐ HITTA.

Sem þig lystir! Lesari minn,
Langi þig ekki að koma inn,
Velfarnan, gæzkan min góða!
Viljirðu dvelja í dag hjá mér,
Dunda skal eg fyrir þér
Milli lesmáls og ljóða.

Eg hef' lítil ljóða-föng
Ljósin vígð að kveikja —
Hér er ekki í sálma-söng
Sólskinið að sleikja.

1904

## Raulað við sjálfan sig.

— 20. afmælisdaginn sinn. —

Hingað, kominn upp eg er
— Á mér það að lynda. —
Eg á þreyttu baki ber
Bagga erfðasynda.

Nítján bograst eg hef ár
Undir þessum bögli —
Aldrei felt af iðrun tár,
Engan þreytt á mögli.

— Líkt og Samson digra dró
Dyrastafi á herðum,
Þegar úti alt var hóf
Á hans biðils-ferðum.

Þannig glannast mun eg með
Misgerðanna byrði
Himnaríkis hlað er treð
Heim úr Klækjafirði.

Helgi Pétur húss mér ann,
Hliði opnu lýkur,

Losar band um bagga þann,
Bakið á mér strýkur.

Það mun hressa huga minn.
— Hér er sögu munur:
Samson flæktist út! eg inn!
Ef það er nema grunur.

1872

## Alþýðlegt frétta-bréf.

Sveinki minn! Það er synd og skömm,
Að senda þér aldrei neina línu —
Það féll stundum úr minni mínu,
Mest stafar það af leti-vömm.
Það er svo margt sem skatna skara
Skyldu-verkunum hindrar frá —
Það má á honum Sveinka sjá!
Ógiftur kvað hann enn þá hjara.

Já, nú er fátt um fréttir, maður!
Flökkukvis og bæja-þvaður,
Síðan hún Jósefína fríða
Flúði það burt, er dofnað víða.
Fjórða júlí í síðsta sinni
— Sá dagur loðir enn í minni —
Svo að því dáðist dróttin svinn,
Dansaði hún við Kissum sinn,
Það varð um heiminn héraðs-fleygt!

Heldur þykir það ganga seigt
Önnu Wildgrass með elskhugann,
Al-sótmórauða þjóðverjann
Anna greyið er söm við sig —
Í Sha'nó kyntist hún ögn við þig.

Enn lifir Jón minn Andrésson,
Um Ellu hefir 'ann góða von.
Að morgni vafi en vilyrðin,
En vonzka um kveld og hryggbrotin —
En værir þú heill og hér á ný,
Eg held þú gerðir enda á því.

Leiðindafrétt er lökust sú:
Lovísa Gold er harðgift nú.
Green átti hana — Heillin mín,
Hún verður aldrei konan þín!

— Áður þú lest sem eftir fer
Áttu að biðja fyrir þér!

Hér varð í sumar hátíð stór,
Héraðið alt í veizlu fór,
Það kom, sem sé frá Shíkagó
Sending — sem enginn hrepti þó —
Ida Todleson heitir hún!
Há-íslenzk, mjúk sem æðardún,
Eins og sakleysið utan hvít:
Engill steyptur úr rjóma og krít!
Eitt sinn þektirðu þessa mey

— Þig ranki við því, bregst mér ei —
En þá hét hún Inga Þórðardóttir.
En Þórður kvað heita Todle nú.
— Nokkuð seintæk var nafnbót sú,
Hann í gröfina sæmd þá sótti —
Þessi Ida var djásn og dýrð,
Dásemd sem aldrei verður skýrð:
»Bó'-katshers« hafði í báðum vöngum,
— Með beygitöngum snúna þó —
Með hárið »bang'd«, svo mittismjó,
En eins og brynja, öll með spöngum!

— Mér hefir skjátlast, þú hefir þreyzt,
Þú sem meir' og betur veizt
Ungra kvenna á allan hátt
Útbúnaðinn hátt, og lágt. —

Hér var stöðugt á fleng og ferð
Fram og aftur pilta mergð.
Ísak stóð í einum blossa,
Of-bráðinn til að þola kossa.
Honum alt til óhapps gengur,
Auðnuleysingi en kærleiks-drengur,
Ekkert nema iðni og gæði,
Afreks-hetja í þolinmæði —
En hvað sú hugsun hrygði mig,
Að hamlað var þér að reyna þig.

Jón Alfons gifti sig í sumar,
Sár-ófríðleik með blóðrautt hár.

Jón er ei lengur fær og frár,
Það hryggir sprund, það hressir guma —
Ef að nú færi eins með þig
Ó, hvað það skyldi gleðja mig.

— Núna er vetur, frost og fjúk,
Fennir og gaddar sál og búk:
Hryllir mig við í vetrar-snjó
Vinnandi kafa út' um skóg,
Sem að þó eru örlög mín.

Öllu betur mér lízt á þín:
Sitjandi mjúkt við sæld og ró,
Sýnódu-mat og elda-stó,
Sjá milli Bersa-ba og Dan
Blessað sælunnar Kana-an
— Pembina meina eg! — Það sem þér
Og þínum niðjum lofað er.

Endist mér heilsa, efni, þor,
Á eg að koma næsta vor?
Ætl' eg hlutskifti eignist þá
Ísraels barna-feðrum hjá?
Hvort er stæltara að styðja mann
Stjórnar-lán eða Sýnódan?

1879

---

## Afkastaleysið.

Léðar mér eru
Til ljóða-smíða
Valtar og stopular stundir.
Rykfallin harpa,
Ryðgaðir strengir
Nú verða leiknir lítt.

Undrastu ekki,
Að mér verða
Stuttorð ljóð og stirfin.
Hljóma þó inst
Í hugar-djúpi
Fegri lög og lengri.

1881

---

## Ljóðeggjan.

Syng þú ei með sorgartár
Saknaðs-ljóð um horfna æsku:
Þetta vor með veður-gæzku,
Litla framkvæmd, fáar þrár.
Þessi fyrstu í frið og leik
Fótspor stignu á lífsins vegum —
Lofsæl æskan, er við tregum,
Fögur er en völt og veik.

Þá er hennar hrós um of,
Hinna ef skyldum geta að engu
Manndóms-ára mikilfengu,
Sem þó eiga æðra lof.
Þó þau færi strit og stríð,
Störfin örðug, vinnu langa,
Sólbrent enni, sveittan vanga:
Þau eru samt vor sumartíð.

Ekki er neinu efling hér
Æfi löng í hvíld og friði —
Það, að vinna, verða að liði
Mannsins hæsta hlutverk er.
Ei má heimsins lof né last
Letja þig í góðu verki.
Ljóss og sannleiks sigurmerki
Líf þitt er að fylgja fast.

Sinnar æsku ei sakna mun,
Sá sem til þess marksins bjarta
Keppir fram með heilu hjarta,
Vinnur ei með vol og stun.
Hann veit lífsins insta er
Eðli það að vaka, stríða.
Og að framför lands og lýða
Hvíli líka á sjálfum sér.

Sumri þínu ef vel þú verð
Verka til, sem manndáð sýna,
Elli-haust þitt heiðri krýna

Manndóms árin mikilsverð.
Laun þín verða fríð og fræg,
Fegri auð og tignar-skrúða,
Hetja ljóssins hæru-prúða!
Lýðum gagnleg, góðum þæg.

Fegra en æskan þín er þá
Þetta sumar lífsins blóma,
Ef með drenglund, dáð og sóma
Vinnur þú, að vökva og sá.
Þá er líka lítils vert
Lúinn þó þig beygja kunni,
Móti æfi uppskerunni,
Þegar verk þitt vel er gert.

Grát ei tíð sem gengin er,
Gleði og hreysti vinn þú meður.
Stuttir dagar, stopult veður
Hindra nóg og hamla þér —
Upp, með hug og hjarta manns,
Hirð ei hvort það nokkur lofar,
Smjaðri og lasti lýðsins ofar:
Leita sjálfur sannleikans.

1882

---

## Torveld hefnd.

Þú hézt mér því í bréfi, að bera kutann
Á barka hans, sem vegið hefði mig.

En býstu við að höndla og sundurhluta 'ann
Í hefndar-skyni, svo hann betri sig?
Þín heitstrenging er hægefnd, svona að utan,
En hún mun verða örðug fyrir þig.
Að eg sé liðinn sannar stund og staður, —
En stattu við! eg er minn banamaður.

Á þessu stappi, þessum tíðaranda
Eg þreyttist svo, að eg er kvæða-frá —
En svona í laumi lífi þeirra að granda,
Eg leyfi ei slíkum böðlum, svei mér þá!
Hjá höfuð-svörðum sálar minnar standa
með sigurbrosi drambsins vörum á —
Eg afréð hitt, að hætta um stund að lifa:
Að hætta bæði við að yrkja og skrifa.

1884

---

## Kritikin okkar.

Vor fátæka fósturjörð, Ísland,
Þú forsjónar-tyftunar-hrís-land!
Með hallærið, uppblásnu holtin
Í hyldýpis-volæði oltin!

Vor kraftlausa, karlæga móðir,
Við kuldann og eldfjallsins glóðir,
Sem gömul og grindhoruð slórir,
Á grimdinni einni sem tórir!

Og þjóðlíf vort blettaða, brákaða,
Það betrunarlausa úrþvætti,
Af »húmbúggi« og klaufaskap kákaða,
Svo komin er skynsemd í úrhætti.

Og bjálfarnir, bræðurnir heima,
Sem brátt öllu mannseðli gleyma,
Né hreyfast þó ómennskan heygi sig!

Eg heimta að alt þetta hneigi sig.
Eg hrópa því dóminn í eyra
Svo strangan, að steindauðir heyra,
Með magni, sem Mikjáll inn gjalli
Úr moldinni fúnaða kalli.

Því skyldan mér býður, eg beygi mig
Og bjargi nú öllu á feðra storð.
Til landsins míns ríkjandi, refsandi kem,
Og raula mitt volduga lífsins orð sem
Er »kritík«!
Við uppvakningsstarfið ei staðar eg nem,
Uns stórment er þjóðin og vitrík.

Ef mánaðar-skorpu hann ætlar sér í,
Með útnorðan stálfrost og blindhríðar-gný,
Og gerir alt haglaust, svo glitti ekki á hnjót,
Eg grettist og svíf honum óðara mót
Og dasa 'ann með dynjandi »kritík«.

Og sæki 'ann svo ísinn, en gugni ekki grand
Og geri svo tilraun að festa hann við land,

Og ætli sér þar næst að þilja hvern fjörð,
Eg þráset í kring um alt Norðurland vörð
Af öskrandi eldinga »kritík«.

Ef mannskepna-hjörð verður máttlaus af hor
Af matarskort', eitt þetta harðinda-vor,
Hvern hungraðan vesling, sem enga björg á,
Í askinn sinn læt eg til saðningar fá
Frá miskunnsemd síaða »kritík«.

Þó varnað sé öllum um vitsmuni og þrek,
Og verði svo eintómur pappír og blek
Hver framfara-hugmynd, hver bók og hvert blað,
Eg bæti upp andlega volaðið það
Með þytnum af þrymjandi »kritík«.

Svo seilist eg austur um Atlantshaf
Og íslenzku dáðleysi ver hér á land —
Slík ógn stendur »kritíkar«-kylfunni af
Sem Kerúbims sáluga af leiftrandi brand'.

1889

## Vetrar-ríki

Þú krimpar þig hálfgert við kuldann hér nyrðra
Og klökugu fjöllin sem girða mann af.
En unir þér betur við sólskinið syðra
Og sumarið langa og brúnaslétt haf.

En klakann og mjöllina met eg þér betur,
Því mjallar og klakans eg fósturbarn er —
Og ég á í æfinni oftast nær vetur
Einn fleiri en sumrin mín — hvernig sem fer.

Eg veit það er indælt við sjávarins sanda,
Þá sólarlags gullþiljum ládeyðan felst.
En þar kysi eg landnám sem lang-flestir stranda
Ef liðsint eg gæti — eg bygði þar helzt.

Eg veit það er lánsæld að lifa og njóta,
Að leika og hvíla sem hugurinn kýs —
En mér finst það stærra að stríða og brjóta
Í stórhríðum æfinnar mannrauna ís.

Þann ferðamann lúinn eg lofa og virði
Sem lífsreynzlu skaflana brýtur á hlið,
En lyftir samt æfinnar armæðubyrði
Á axlirnar margþreyttu og kiknar ei við.

Og oft fanst mér vorbata viðreisnin blíðust
Sem veturinn langstæði nær-seildist til,
Og kveldskinið indælast, hvíldin sú þýðust
Sem kom þegar slotaði myrkviðris byl.

1891

---

## Á aðfangadags-kveld.

Hér situr hún forsæla — af skútum og skóg'
Hún skugga-mynd dregur á nýfallinn snjó

Unz hlíð hver úr ljósmáli er liðin.
Með blánótt á hælum sér, horfin úr sýn,
Í heiðríka vestrið, þar kveldroðinn skín
Er fagrahvel fjallvegu riðin.

Því hér er um miðaftan niðadimm nótt
Í norðri. — En sól hraðar göngunni skjótt
Um fjarandi skammdegis skuggann.
Á jólakveld ljósvöku lengir 'ún hót,
Og ljóskveikju flýtir við daggesta mót,
Er nýárið guðar á gluggann.

Og verði þér aðfara-æfin þín jól,
Og auðnan þér nýár með hækkandi sól
En minkandi myrkur og snjóa,
Unz kveldið frá morgninum aðgreint ei er —
Og aukist svo vaxandi hugmyndir þér
Sem vorfrjóu vellirnir gróa!

1893

---

## Eftirvænting.

Þú stóðst út' við gluggann, og langeygð út leizt,
Ef loks fengir komandi séð hann —
Með steinhringnum þínum á rúðuna reizt
Þú rúnir í héluna á meðan.

En hljóðlát og fölari en venja þín var,
Með værð yfir kvikandi taugum —

Og snögglega breytlist sem blikskýja-far
Þér blærinn í kinnum og augum.

Og útsýnið virtist þér blikandi bjart,
Ef brá það upp svip hans í vonum
Á komandi manni — en sýndist það svart,
Er sást' að það líktist ei honum.

Ef broddstöfum gestirnir drápu við dyr
Svo dunaði í þyli og göngum,
Þá áttir þú bágt með að bíða hér kyr,
Og blóðið þaut strax út í vöngum.

En loksins tók óþreyjan enda um síð,
Er inn til þín kom hann, sem beiðstu.
En þá varstu fálát og þurleg og stríð,
Og þegjandi návist hans leiðstu.

Við aðra þú ræddir, svo kankvís og kát,
Sem koma hans skifti þig minna —
Á speglinum andspænis enn hafðir gát,
Og aftur sté blóðið til kinna.

Þú sást að úr fléttunni hrokkið var hár
Á herðar, sem ógreitt það væri.
Og slitinn úr hálsmáli hnappsfótur smár
Á hörundsins mjallgrunn' svo bæri.

Þér virtist þó bros léki vörum þér á
Þá væri ekki rómur þinn sætur,

Né augað þitt lífsglatt neitt lokkandi að sjá,
Og léttidans vefðist um fætur.

Sú ímyndun vakti þann ótta hjá þér
Með ólgu í viðkvæmu blóði,
Eg býst við 'ann hugsi, er búning minn sér:
Ja, bæði er hún ófríð og sóði!

— Eg komst ekki lengra — Með gremjufult geð
Og gljádögg sem hvarmana vökvar,
Hún greip fram í reiðuleg, regingssvip með,
En róm sem var klökkur: »Þú skrökvar!«

Við svarið það viðbúna varð mér ei bilt,
En varfærri og daprari í bragði —
»Á, skrökva ég?« við hana stundi eg upp stilt —
Hún stöðvaðist, hugsaði og þagði.

Svo spurði hún blíðlega — angrið var eytt,
Með innileik gat hún því freistað — :
»Þú sást mig þá ekki, og eg sagði' aldrei neitt!
Æ, segðu mér hvernig þú veizt það.«

»En sagan mín, heillin, er hreinskilnin fróm!
— Þó heimildir finnist mig skorti —
Frá biðinni minni eftir blaðamanns dóm
Um bæklinginn fyrsta sem orti.

1894

## Vina-kveðja.

Sem vaxkerti í líksölum, logandi skær,
Skín ljós-röð um kveldstirndar hæðir.
Sem fannahvítt nálín inn frostkaldi snær
Ið framliðna gamla ár klæðir —
»Nei, ljós yfir nýársins vöggu erum vér,«
Mér virðist þið nátt-stjörnur andsvarið mér.
»Og flekklausar reifar um upprunnið ár
Er ístraf mitt drifhvíta«, svarar þú snjár.

Þið blástjörnur kveiktar um víðbláins vídd,
Þú vetrar-geims náttsólna fjöldinn,
Eg tryði: um alheim með ykkur sé prýdd
Öll eilífðar skammdegis kvöldin.
Þeim hugsast, að tal ykkar takmarkað sé,
Að týrulaus skuggi, ein auðn eða hlé
— Sem botninn í gröf manns — sé baki ykkar að.
Er bakki sá ljósheimsins þrot, eða hvað?

Þú vetrarins dauðkalda, drifhvíta mjöll,
Sem dalsbotn og hájökla vefur,
Sem jarðfastur legsteinn þú liggur um völl
Á leif þess, sem útdáið hefur.
En harkan þín neytt okkur hefir þó til,
Að hlúa oss með bæjum og ljósum og yl,
Að glæða oss í hríðinni sumar og sól
Um svartasta lágnætti er jörðina kól.

Og vinunum nátengdu, nær eða fjær,
Í nótt hef' eg ljósskuld að inna,
Sem lýstu — þó nefni ei nöfn þeirra kær —
Á nátthimni lífdaga minna.
— Þó skugganum fáum ei fram úr að sjá
Eins fögur er blástjarnan himninum á —
En lífið mitt hlakkandi leik eg mér við,
Því ljós yfir nýárs míns vöggu eruð þið.

1894

---

## Erfðaskráin.

Er erfingja-hópinn minn horfi eg á
— Það hygg eg að enginn mér lái —
Með áhyggju reikna eg erfðina þá
Sem eftir mig dáinn hann fái.

Að fjársjóðum ýmsum til arfs get hann leitt.
— En ei er það frægðin né gróðinn,
Því eg hef' þeim báðum um æfina eytt
Í útkjálka-búskap og ljóðin —

Svo þeir eru: Reynslan að líf sé ei létt,
En leið til að sigra og þola,
Og heiminum út úr hvern heilagan rétt
Að heimta, en aldrei að vola.

Að fljóta ei sem straumhrakin dreif gegnum drif
Öll dægur með sofandi geði,
Að snúa ei ángri í ómegins lyf,
Né eitra sér lífs-stundar gleði,

Að rýna ei svo fast á alt svipljótt og svart
Að sökkvi hvert ljósbrot í móðu,
En una við sólskin og sumar-loft bjart
Og sálirnar háfleygu og góðu.

Að krossfesta ei einn fyrir lesti síns lands,
Og leysa svo stórseka marga —
Að hata til eilífðar málstað eins manns,
En manninum sjálfum þó bjarga.

Með hverjum helzt vinna að viðgangi lands
Þar viðreisnar-færi við sjáum,
Þó hann væri eiðsvarinn óvinur manns
Og einvig á morgun við háum.

Að skeyta ei hve veröldin verðleggur mann,
Né vinna til himneskra gjafa,
En láta sér fullnægja fögnuðinn þann,
sem fylgir því: reynt til að hafa.

Að láta ei glismangið ginna af sér mál,
Né ganga með þrælsótta-helsið —
því rýmri er dýflissa sannfrjálsri sál
En samok við almennings frelsið.

Af viljanum leysa hvern hugleysis-hnút,
Og heimskuna fávita að segja —
Með þrek til að lifa og leika það út
Og loks hafa þor til að deyja.

Og nú hefi eg ort þetta og aflokið mér,
Þó æfin við það væri hnituð.
Og ráðstafað gjörvöllum eigunum er
Og efðaskráin mín rituð.

1897

---

## Heillaósk.

Að leggja á þig guðs-blessun, get eg ei gert,
Né geðþekni manns:
Þig gerðu þá fépúkar félaga sinn
Og fordómar lands.

Eg óska þú fáir af skorti þinn skerf,
Af skömmunum nóg,
En lifir þó alt saman ólánið dautt
Og óvildar róg.

1897

---

## Til Þorsteins Erlingssonar.

— Fyrsta útgáfa af »Þyrnum«. —

Ljóðin þín eg las um skugga-
Lágnættið —
Dagur lýsti, leit um glugga,
Lauk eg við.

Og í hugsjón yndislegri
Upp mér rann
Skærri sól og foldir fegri
Framundan.

Styttu margar myrkvar nætur
Morgunbrag.
Lengi í kvæðum farðu á fætur
fyrir dag.

1897

---

## »Særi eg yður við sól og báru«.

*Matth. Jochumsson.*

Frá strengjum glampa glæringar,
Og gullið fyllist hljóðum
Við Bragaseið — og særingar —
Þinn sjáandinn í ljóðum.

Eg veit þér fundust hróður-hljóð
Og húmdimm vestur kvöldin
Og vildir lýsa þinni þjóð —
Og þökk fyrir ljósa-höldin.

En kveikja óðareld sem skín
Við aldrei munum kunna.
Hún yrði hljóðlaus harpan þín
Í höndum slíkra klunna,
Því listin flutti ei enn þá inn
Á óðul fyrir vestan —
Við gætum heldur hjörinn þinn
Í hendi greipt og hvest 'ann.

Og þó oss örðugt yrði í styr
Og ilt að halda velli,
Að sliðra oddinn ekki fyr
En einhver lygin félli,
Svo enginn þyrði að flytja frétt
Er féllum lágt í valinn:
Um Hólamanna höggin létt —
Þó höndin væri kalin.

En það mig hefir þráfalt dreymt,
Að þegar aldir líða
Og hreysti-orðið hvert er gleymt,
Og höggin þeirra er stríða:
Og hvað sem verður ofan á
Og efni að semja frið um,

Þín sáttfús ljóðin setjast hjá
Og segja fyrir griðum.

En týnt er ekki tungumál
— Þó torkent sé og blandið —
Hjá fólki er verður sína sál
Að sækja í heima-landið —
Þó hér sé starf og velferð vor
Og vonin, þroskinn, gróðinn,
Er þar vort upphaf afl og þor
Og æskan, sagan, ljóðin.

1899

---

## Kveld.

Í rökkrinu, þegar eg orðinn er einn
Og af mér hef reiðingnum velt,
Og jörðin vor hefir sjálfa sig
Frá sól inn í skuggana elt,
Og mælginni sjálfri sígur í brjóst
Og sofnar við hundanna gelt.

En lífsönnin dottandi í dyrnar er sezt,
Sem daglengis vörður minn er,
Sem stygði upp léttfleygu ljóðin mín öll
Svo liðu þau söng-laust frá mér,
Sem vængbraut þá hugsun sem hóf sig á loft
Og himininn ætlaði sér.

Hve sárfeginn gleymdi eg og sættist við alt,
Ef sjálfráður mætti eg þá
Í kyrðinni og dimmunni dreyma það land
Sem dagsljósið skein ekki á,
Þar æ upp af skipreika skolast hún von
Og skáldanna reikula þrá.

Það landið, sem ekki með o'nálag hátt
Í upphæðum neitt getur bæzt,
Þar einkis manns velferð er volæði hins
Né valdið er takmarkið hæst,
Og sigurinn aldrei er sársauki neins,
En sanngirni er boðorðið æðst.

En þá birtist andvakan ferleg og föl
Og fælir burt hvíld mína og ró,
Og glötuðu sálirnar sækja að mér,
Sem sviku það gott í þeim bjó,
Og útburðir mannlífsins ýlfra þá hátt —
Það atgervi er hirðulaust dó.

Og þá sé eg opnast það eymdanna djúp,
Þar erfiðið liggur á knjám
En iðjulaust fjársafn á féleysi elst
Sem fúinn í lifandi trjám,
En hugstola mannfjöldans vitund og vild
Er vilt um og stjórnað af fám.

Þar jafnan eins vafa-söm viðskifti öll
Og vinar-þel mannanna er

Sem einliðans, dagaða uppi um kvöld
Hjá útlögstum ræningja her,
Sem hlustar með lokuðum augunum á,
Að óvinir læðast að sér.

Og villu-nótt mannkyns um veglausa jörð
Svo voða-löng orðin mér finst,
Sem framfara skíman sé skröksaga ein,
Og skuggarnir enn hafi ei þynst.
Því jafnvel í fornöld sveif hugur eins hátt —
Og hvar er þá nokkuð sem vinst?

Jú, þannig, að menningin út á við eykst
Hver öld þó að beri 'ana skamt —
Hún dýpkar ei, hækkar ei, lengir þó leið
Sem langdegis sólskinið jafnt.
En augnabliks vísirinn, æfin manns stutt,
Veit ekkert um muninn þann samt.

En jafnvel í smalanna einveru inn,
Sem árgeislinn, læðist hún rótt
Og bjarmar í hugum þó beri ei á,
Því birtingin fer þar svo hljótt —
Og eg, sem get kveðið við kolsvartan heim
Slíkt kvæði um andvöku-nótt.

Og hugar-rór stigið í hvíluna þá
Að hinztu, sem við eg ei skil:
Svo viss að í heiminum vari þó enn
Hver von mín með ljós sitt og yl,

Það lifi sem bezt var í sálu mín sjálfs —
Að sólskinið verður þó til!

1899

---

## Sumarhretið.

Og svo er þá hretið á enda — og alt
Sem áður var snjóbarið, frosið og kalt,
Við september-sól fer að hlýna.
Úr laufhári skógarins fjallgolan frjáls
Strauk fannhærur greiddar — hver brekka, hver háls
Mér vorrjóða vangana sýna.

Og loftið, það er nú svo blátt og svo blítt,
Nú blasir við útsýnið fagurt og vítt
Með bláskóg og breiðunum mjalla.
Svo hátíðlegt finst mér, að horfa um geim
Sem hjartanleg vorblíða fylli allan heim,
Og jafnvel hvert jökulskarð fjalla.

— En hefir nú Vínlandi vospá þín ræzt?
Sem volandi sagðir: »Það bót engin fæst
Á veðrinu, fyr en að vori«.
Í hug þínum raktirðu upp, hrumur og grár,
Öll hret þinnar æfi í fimtíu ár,
En úthýstir þreklund og þori.

Eg botna ei þitt grunnlausa hrak-spáa haf.
Þó hart væri — manst' ekki? lifðum við af

Og fár það er farið og runnið —
Það huga minn hvessir, það hressir mitt geð,
Að hugsa um — ef alt sýnist komið í veð —
Þær þrautir sem á hef' eg unnið.

Og því er eg glaður, og því er eg frjáls,
Hjá þrælkun og sorginni beygi ekki háls.
Svo fjarar út andsteymið óðum —
Og því get eg, meðan þú stynur, mín stef
Með staðlyndi ritað hér á þetta bréf,
Mér þegjandi leikið að ljóðum.

1901

## »Jahve«.

Spurull minn — sem óðs eg ann —
Um hvað varstu að skrafa?
Ó já, hvað eg haldi um hann
Hebreanna Java!

Eg skal ekki masa margt,
Minka 'ann ei né lofa 'ann —
Hvorki á meðan þegja þarft
Þú né taka ofan!

Hann hefur eins og ýmsir menn
Elzt og breyzt og mannast —
Það má sjá á öllu enn,
Áframhaldið sannast.

Hefir stundum stórum breytt
Stefnu í gæzlu þjóða —
Ég er ekki að efa neitt
Ásetning hans góða.

Þó við vitnum almátt í,
Ekki er það að dylja:
Menn og guðir gugna á því,
Að geta ekki, en vilja.

Dýrin urðu einu of margt —
Óðar' það sín hefndi!
Friðland heimsins helgibjart
Höggormurinn skemdi.

Adam karlinn, óx í þrá
Upp úr því að gegna,
Jave reyndi ráðið þá,
Rakleiðis að hegna.

Refsing sú varð raun og kvöl
— Ræktun synda olli —:
Stéttarígur, basl og böl,
Bróðurvíg og skolli.

Eg hef rímað rakinn þráð
Rétt sem orðin meina —
Nú tók Jave næsta ráð,
Niðurskurð að reyna.

Sökti öllu í svarta-kaf,
Synd og spiltum þjóðum.
Vildi þvo þá ilsku af
Alla í steypi-flóðum.

Helzta fólkið hélt þó í:
Herra Nóa og syni,
Til að yrkja upp af því
Úrvalsgóða kyni.

Sittu kyr! Þú sérð og manst
Sögunni er ei hallað —
Upp úr þessu ekkert vanst,
Útsæðið var gallað.

Ætlun Java öll var góð,
Ekkert fanst sér miða.
Tók nú að sér eina þjóð,
Ísrael, til að siða.

Vildi reyna að rétta alt
Reglum með og lögum —
Það hefir öllum orðið valt
Upp að þessum dögum.

Ísrael spilti eilíft þras,
Uppreist, stjórnbyltingar,
Spáfólks kritur, klerka mas,
Kreddur, herleiðingar.

Sagt er legði fólkið fram
Fórnir meira en bæri,
Einkum Jefta og Abraham —
Ef þú manst það, kæri!

Mér er ei ant að öfgarnar
Upp á Java sönnum.
Það eru ýktir annmarkar
Eins og frægð á mönnum!

Snýr eg út úr? — Einkis manns
Er mót sönnu að hafa.
Konungdóm og löggjöf lands
Lýðurinn tók af Java.

Brotið lá alt lögmál hans,
Lokin þessi vonin —
Birtast lét í líki manns
Loksins einkasoninn.

— Engar rengi eg ritningar,
Ragast ekki í slíku —
Flestir heimsins heiðingjar
Hafa trúað líku.

Hlauptu ei burt! Eg hika við
Heimildir með bögur
Ósamhljóða um erindið,
Um það skiftast sögur.

Sú var ein — og ólm til gangs —
Okkar muni 'ann hafa
Jafnað milli rétts og rangs
Reiknings-krull við Java.

Svo þó líf vort lon og don
Lán í skuld sé beinast,
Eigum samt á uppbót von
Í árs-reikningnum seinast.

Samt eru afdrif ömurleg
Á þeim reiknings-brúum.
Fjöldinn glatast — einn er eg —
Á óséð kaup ei trúum.

Reiddu þig það alveg á
Ekki er ég í spenning,
Svona hreina hrakta að sjá
Handaskola-kenning.

Margt eg hefi móti því —
Minst skal á hið fyrsta:
Það er veigur einhver í
Æðsta »pessímista«.

— Aðrir segjast sanna það
Ei sonurinn verið hafi,
Því talað beint og brotlaust, að
Barnlaus sé hann Javi.

En einstök guðsmynd, send mót synd,
Sérhvers þjóð og landi
Verið frelsi og fyrirmynd
Fullger, óskeikandi.

Loks við efstu úrslitin
Allar frelsist þjóðir.
Jafnvel óláns illmennin
Englar verði góðir.

Eg fer sízt að kenna hvað
Kemst þar sönnu nærri.
Þetta er, finst mér fyrir það,
Fegurri von og stærri.

En út úr svona óeining
Óx upp kritur nógur:
Forðum barsmíð, bannfæring,
Blórar nú og rógur.

— Sjálfur tel eg sönnu næst:
Svona færu ei með hann,
Þeir sem um hann hafa hæst,
Hefðu þeir þekt og séð hann.

Það var starf og hugsjón hans:
Hefja ið smáða og snauða,
Verða í högum heimalands
Hirðir týndra sauða.

Hann um ljóta lesti brá
Lands-stólpunum mestum.
Hafði staka óbeit á
Auðmönnum og prestum.

Hefir stóra auðlegð átt
Af andagift og þreki —
Von er mönnum miklist þrátt
Mannúð hans og speki.

Rétt er líka að lofa þá
Við lífsins-speki er glíma —
En hún er ráðning rakin frá
Reynslu liðins tíma.

Kenning hans um alt og eitt
Öndveg hefir skipað.
Hún er ekki einstök neitt,
Aðrir mæltu svipað.

Dýrð hans það ei dregur frá
Dæmi að hittast fleiri —
Mætur hefi eg að eins á
Okkar kyni að meiri.

Gagnstætt breytti ei athöfn í
Yfir því sem bjó hann,
Lifði einfalt eftir því.
Upp á það svo dó hann.

Átti ei fé né fór á bak,
Fátækt varð að þola —
Þó hann eitt sinn traustatak
Tæki á asna-fola.

Að það lái, allra sízt
Á mér læt eg heyra —
Slíkum manni var hann víst
Velkominn, og meira.

Hér var framkvæmd hugsun djörf
Hans að marki settu:
Notlaus eign þín annars þörf
Upptæk sé — að réttu.

Fáryrða mér finst að sé
Full von til ef leiddist.
Og við feyskið fíkju-tré
Ei feikn þó svangur reiddist.

Það er sjálfgert, fyrst og fremst,
Fyrir þá að stilla
Svör, sem ilskan aldrei gremst,
Ómenning né villa.

Hvað sem þó um þetta er
— Þú fyrst svo vilt hafa —:
Skal eg yngstu skýra þér
Skáldsöguna um Java.

Undir niðri, við og við,
Véfengja þeir trúna —
Það er einkum uppeldið
Á sem treyst er núna.

Það er að segja: þroskun manns,
Það sé handbragð Java —
Sú kvað upphafs-ætlun hans
Einmitt verið hafa.

Þessi alda-umbót smá
Að hans sköpum gangi.
Honum blöskri ei okkur á
Ómaga-hálsinn langi.

Ótal dæmi eru töld
Óralangt til baka,
Mönnum sé hann öld af öld
Upp á við að mjaka.

Þetta sýnist sanngjarnt flutt,
Sagan vitnar þjóðar:
Hann hafi aldrei offljótt stutt
Uppástungur góðar.

En af því ég hef' aldrei við,
Úr má — finst mér — gangast:
Mannlífs-skólans menta-snið,
Að meinbítast og stangast.

Hef' þó mér ei mark það sett,
Menn um það að saka,
Fyrst Java er sætt, þó satt og rétt
Sitji á hverjum haka.

— Gagnlaust er, að gremjast mér
Og gretta sig í framan —.
Bara það sem orðið er
Eg hef' rímað saman.

Eg er ei Hjalti, heilög þín
Himin-vé að geyja —
Eg hef' ekkert, elskan mín,
Ilt til þeirra að segja!

Legg ei guðum last né vörn,
Læt þá svona morra —
Þeir eru andleg óska-börn
Ímyndana vorra.

Þeir mega skreyta skáldsins ljóð,
Skemta léttu geði.
Sko, þeir lifa í lýðsins óð,
Landsins sumargleði.

Væri neyð að neita því
Núna, til að mynda,
Þegar svartblá skúra-ský
Skara hvíta tinda.

Niðri væra vorblíðan
Vefst að jörð og hafi —
Þeir eru á ferðum Freyr og Pan,
Á ferli Þór og Javi.

1901

---

## Eftirköst.

Kæri Hnýsinn minn, til mín
Miðinn spurning benti:
Hvort að bréfið það til þín
Þyrði sjá á prenti?

Ekki þarf í það að sjá!
— Þér eg aftur gegni —
Ég er bóndi, alt mitt á
Undir sól og regni.

Þó að einhver þyktist mér,
Það er smátt í tapi —
Veðuráttin aldrei fer
Eftir manna skapi.

Mér var heldur aldrei um,
Að eiga nokkru sinni
Málsverð undir embættum,
Eða lýðhyllinni.

Bónda-manni er bótin sú
Við brestum skrauts og náða:
Fleðuskapinn heima-hjú
Hann þarf sízt að ráða.

Eins er hitt —: Hvort ókvíðinn
Eg sé við þá prentun?
Sem þó skorti skilyrðin,
Skóla-ganginn — mentun.

Örðug verður úrlausn hér,
Illa stend að vígi —
Hálf-sannleikur oftast er
Óhrekjandi lygi.

Það er satt, að mentun mér
Mislögð víst er fengin.
Ef við hámark hana ber,
Hún er næstum engin.

En ef þú ert aðgætinn
— Á þó minna beri —:
Sérðu víðar, vinur minn,
Vondan brest í keri.

Hámentaða virðum vér
Vora lærdóms-hróka,
Sem eru andlegt ígul-ker
Ótal skóla-bóka.

— þitt er mentað afl og önd,
Eigirðu fram að bjóða:
Hvassan skilning, haga hönd,
Hjartað sanna og góða.

Frá því marki, manninn þann
Eg mentaðastan dæmdi:
Flest og bezt sem var og vann,
Það vönduðum manni sæmdi.

En í skólum út' um lönd
Er sú mentun boðin:
Fátt er skeytt um hjarta og hönd,
Hausinn út er troðinn.

Jafnvel þessi stefna sterk
Stundum heppnast illa —
Það kvað undur örðugt verk
Ýmsra koll að fylla.

Hún er í molum mentun enn,
— Um mína ei eg senni —
Hitt er fjandi að færir menn
Flaska líka á henni.

Eg gat hrifsað henni af
Hratið sem hún vék mér,
Meðan lúinn makrátt svaf,
Meðan kátur lék sér.

Hér er ei gert hvor gildi meir',
— Góð eru bæði skæðin —
Um þetta las eg líkt og þeir,
Lærði sömu »fræðin«.

Hindra mig ei þarf frá því
Þar um rétt að segja,
Þó viti ei stofninn »Eós« í
Né »amo« kunni að beygja.

Eins fanst þér það illa mist
Út úr þulu minni,
Að hafa ei með ljóð-skálds list
Lætt inn »skoðaninni«,

Eins og helztu hirðskáld þín.
Hátturinn sé svo prúður —
Ég er ekki, elskan mín,
Andlegra sálma trúður.

Listin sumra lýti ber
Frá lítilmensku, og fleira —
Í verki þess sem óheill er
Oft er nokkur feyra.

Svo var þarna enn þá eitt
Á sem varst að steyta:
Það sé ætíð ofur leitt
Öllu svona að neita.

Sástu ei kæri, hvernig fer
Hverri sannleiks leitun?
Meira en helftin alténd er
Á ósannindum neitun.

Þegar grey um geð sitt þvert
Grunuðu fylgi heita,
Þá er aldrei einkisvert
Upp-hátt voga að neita.

— Seinast voru sorgar-mörk
Sár á þínu spjalli:
Alt sé lífið eyðimörk
Ef að goðin falli.

Í ekkert háleitt höggvum skarð
Hugmynd forn þó rými.
Hrundi sól þá hún ei varð
Höfuðið á Mími?

Þó að heimur hnigi að
Hinu, sem eg skrifa,
Við myndum halda við fyrir það,
Að verða menn og lifa.

Þetta gott og gilt eg tel
— Guðfræðin er búin —:
Hagnaðslaus að vilja vel
Verður hreinust trúin.

Ef þig fýsir fólksins að
Farsæld nokkuð hlynna,
Legðu hiklaust hönd á það —
Heitust bæn er vinna.

— Þér er svarað, þú hefir spurt.
Það er nóg að sinni —
Sé það, kæri, kalt og þurt,
Kveiktu í pípu þinni.

Fimtugir ei erum enn.
Oss er nægur tími
Sem frægstu landsins listamenn,
Að liggja á bæn í rími.

Sá er flestu lítið lið
Sem lifir til að hika —
Mér er yndi að ýta við
Öllu og sjá það kvika.

Njóttu góðs. — Um gráð og lönd
Goð og menn þér eiri
Bróðir. Þér í bráða hönd
Bögur legg ei fleiri.

1901

## Nóttina fyrir vorinngöngu-daginn.

I.

Þá skal syngja í þínum róm!
Þitt að yngja gaman —
Læt í hringum hljóm og óm
Hoppa og klingja saman.

Við mun loða lengst hjá mér
Líkur voði og forðum:
Ótilboðin hugsun hver
Hleðsla og stoð af orðum.

Mærð þér leiðist ljóða-vins
Lítt, né reiðist henni,
Bara eyður efnisins
Orðin skeiði og renni.

Við þig tala ef eg á
Orða-vali þekku,
Seztu í dala-hlíð mér hjá
Heima í smala-brekku.

Engjum bæjar uppi frá
Efst um slægju-hjallann,
Syngdu bragi, sittu hjá,
Sólskinsdaginn allan.

Það er næði í urðar arm',
Ekki af mæði að segja —
Dragðu kvæða-bók úr barm'.
Björg og hæðir þegja.

Út í sæ til sólarlags
Syngdu daginn hraða.
Veldu braginn bezta strax,
Byrjaðu lagið glaða.

Róm þinn liðugt, frí og frjáls,
Feldu við — inn mikla —
Þar sem kliðir kveðins máls
Kitla, iða, sprikla.

Hamra-fergjan hljómar létt,
Hljótt er hvergi á jörðu,
Stilla dvergar stein og klett:
Streng í bergi hörðu.

Þegar hagi og hraunið bratt
Hjálp við slaginn ljá þér,
Rómnum næ eg gjalla glatt,
Gríp í lagið hjá þér.

II.

Ég hef' ornað upp um sinn
Okkar horfnu daga,
Sumarmorgna sungna inn,
Sönginn fornra braga.

Líti eg nálægt, oftast er
Að úr máli snúast
Strengir þjálir þér — en mér
Þykir stálið trúast.

Ending röng þér illa féll,
Orðaþröng í ruðlum —
Tungan, löngum létt og hvell,
Lék og söng á stuðlum.

Öll á sprettum æfin valt,
Eins á klett' og söndum —
»Þá var létt að leika um alt
Líf á sléttu-böndum«.

Þess oss dylja von og vor
Við sé'm byljum háðir —
Æsku-viljans afmáð spor
Eftir skiljum báðir.

Okkar vísa útför þá
Æfidísir segja:
Hreina-íslenzk hefð er frá
Hálfri vísu deyja.

Svo skal unna sinni tíð:
Sitja í runn' og kvaka,
Meðan sunna hlær við hlíð,
Hrýtur munni staka.

III.

Engu sinni arfur hvarf
Æsku minnar hálfur:
Ljúft er hinna ljóð og starf,
Leitt að vinna sjálfur.

Hitt er bót og léttir lund,
Lágt í grjóti þreyja
Sólu mót um sumarstund,
Söngsins njóta og þegja.

Það er í metum, með því halt!
Mér það betur hagar.
Bæla fletin út' um alt
Andans letimagar.

Við er staldrað strengja fjör,
Stærstu valdi er spáði.
Þreyttrar aldar elli-kör
Á því haldi náði.

Alt of mikið undan gekk
Ef ei lyki vori.
Bragi þykir þurfa hlekk,
Það er hik í spori.

Afl er mist og ís á hver
Eftir fyrstu gosin —
Það veit Kristur, Þór og vér,
Það er list! en frosin.

Brendir, hráir, hálfvolgir
Hnita á í ritum,
Að mála háar hugsjónir
Hélugráum litum.

— Hebresk fræði í hendingar
Hleypt, oss mæða svefni —
Hömluð læðing lotningar
Ljóð, sem glæða ei efni.

Þó er ei hljótt þeim öldnu á
Eyddu sóttar-kotum,
Dag og nótt ei flökt er frá
Fornum tófta-brotum.

Veit eg öngvum vonzkast geð
Við þann söng, er klingir.
Geispalöngum lotum með
Líkaböngin hringir.

Þyngist vandinn vængnum manns.
Varist andinn frelsi.
Flug um landið litla hans
Liðkar band og helsi.

IV.

Þó er rós á þyrnum hvers,
Það er ljós í flestu —
Mér þó kjósi ei kveðin vers
Klyfjuð hrósi mestu.

Kösum snæs inn þétti þeyr
Þúfna blæs af kollum —
Hláku-æsing ann eg meir'
Öllum þræsu-mollum.

Hýr eru ljóðin hláturmild —
Hitnar þjóðar geðið,
Verði óð og orðasnild
Eld í blóðið kveðið.

Enn er sungið inn' á dal
Upp' í klungri og grjótum,
Það sem ungrar aldar skal
Óma á tungurótum.

V.

»Að mér læðist ljós og vor,
Lifna æðaslögin —
Svona glæða geð og þor
Gömlu kvæðalögin!«

Ég sté »takt« við austan-átt
Ekki ragt til dansins —
Hinstu vakti vetrarnátt
Veðurhrakta landsins.

Skrefum haldið hef' til þín,
Hægði sjaldan sporið.
— Gyllir fald um fjöllin mín
Fyrsta aldar vorið!

1901

## Jólavísa.

---

Senn styttist nú húmið og haustnóttin löng
Og hækkar á loftinu sólin —
En hví skyldi ég vera að syngja ykkur söng
Sem sjálf hafið kvæðin um jólin?
Þið vitið, eg á ekkert andríkis flug
Og er ekki á kórsöngva laginn.
Og lagið sem ómar mér efst upp í hug
Á illa við hátíða-braginn.

Hver almennings gleðifrétt eru mín jól,
Sem ákveða ei tíminn né höfin.
Hver mannkynsins ljósrönd mín langdegis sól,
Eins ljúf er mér vaggan og gröfin —
Svo rétt mér út hátíðar-hugann þinn fjær,
Og hjartað eins langt, í ið skemsta,
Sem lýður þinn byggir, sem landið þitt nær,
Sem ljóð þitt er kveðið ið fremsta.

Og barnið í jötunni, Messias minn
Er manngöfgið það sem við höfum.
Og englarnir mínir er hópurinn hinn
Með hörpurnar, mannval í gröfum.
Og sá sem að glatast til heljar, er hann
Sem harðýðgin þjáir og beygir,
Sem á hvorki málstað né árnaðarmann,
Sem átroðning líður og þegir.

Og við þykjumst all-flestir upprofið sjá
Og árbrún af fegurri tíðum —
En vökuna stytta til morgunverks má
Á meðan við þraugum og bíðum.
Svo tak þú hans málstað, er segir þér satt
Og svikin og ranglætið hatar.
Og sendu þar jólakvöld góðvilja-glatt
Sem guðsþakka-skinið ei ratar.

Og halt uppi virðing hvers verðleika-manns,
Ef vanþökk tróð gröf hans í eyði
Þá græddu þó meið yfir moldinni hans
Til minja, og hlúðu að því leiði.
Og lát ei þá grunsemd þig fæla því frá
Hvort faðir þinn réði því svona —
Að bæta úr flónsku sem feðrum varð á
Er fremdarverk ættgóðra sona.

Til hans væri — gleymt hvort hann árvakur er! —
Ei óskylt að nú væri munað,
Sem settist við kveldlampann kyrlátt hjá þér
Og kveikti þar fegurð og unað —
En lágt stígur hún, þessi hátíðasól,
Í hávetrar rökkvaða geiminn.
Og stundleg þau verða og stutt þessi jól,
Og staðlaus, því við erum gleymin.

Það jólar að ári, það helzt við í heim',
Þó helgidags boðskapnum linni.
Og kannske við glöggvum þá hátíðahreim
Í hálfkveðnu vísunni minni.

Og ef til vill hugsast oss hátturinn sá,
Að hátíðir fylgist með sólum,
Svo við höldum, góði minn, þríheilagt þá
Og þrettándann teljum með jólum.

1901

---

## Til dægrastyttingar.

Eyðiflag er akurrein,
Ís um haga skafinn,
Vindar naga visna grein,
Vetrar-bragur hafinn.

Þó að frjósi fönn við hlíð,
Frysti ós í hellum:
Kveddu ljós í kyngihríð,
Kliðaðu rós úr svellum.

Harpa sezt þá sjálf í tún
Senn, með þresti og blómin —
Þá er bezt að hætta. Hún
Hefir mestan róminn.

1901

## Gert upp úr gömlum reikningum.

I.

Meðan eg hef' tíma og tóm
Að tala á héraðs-þingum:
Varnarskjali í skáldadóm
Skýt og »kvitteringum«.

Fari eg ekki allajafnt
Eftir lögum beinum,
Eg er ekki að segja samt
Sök á hendur neinum.

Eg skal ekki þræta í þrá
Þess mér kunni að skeika.
Hefð eg trúi enga á
Eða fullkomleika.

Reiðst mér ekki, ef af þér
Eitthvað dregið verður —
Reiknings-hallinn illur er,
En ei með vilja gerður.

Aldrei gelzt til gagns, því ver,
Góðsemd minna vina —
Guð mun alténd útsjá mér
Einhver ráð með hina.

Hálfan eiga anda lands,
Eigin hug og tungu:
Þeir sem æsku-minni manns
morgunljóðin sungu.

Þökk þeim eldri! Ár og síð,
Er svo vel og lengi
Eldað hafa lötum lýð
Ljóðsins silfurstrengi.

Þó að vorum eyrum í
Einhver nótan bili,
Ekki er satt þeir sé af því
Sungnir út úr spili.

Þó við vestur-hafsins hring
Heilli nýja ströndin,
Fyrir austan útflutning
Eiga þeir bygðu löndin.

— Gröndal ama engum ferst,
Út af grein né bögu!
Skelja-karlinn vor, hann verst
Vel í hundaþvögu.

Að eins þarf að leita lags
Leik hans við svo una,
Að hafa ei æ á teini taks
Trúarjátninguna.

Þó hann stundum virðist við
Vegsemdinni bægja,
Tvíborgar hann tilræðið
ef tignin kann að hlæja.

Meðan ljóðið lék við Pál
— Létt að söng og æsku —,
Öllum fanst in fylta skál
Flóa af Drottins gæzku.

Daprari mun dagsins sól
Daginn þann mér reynast
Sem eg veit, á vorsins hól
Vantar Steingrím seinast

III.

Ei um hina yngri menn
Er svo glögt til sjónar.
Vængjum sumra eru ei enn
Allar fjaðrir grónar.

Þorsteinn situr efst og inst
Efalaust hjá snilli,
Þar til lífsins ljóðhvörf hinzt
Lengja bilið milli.

Varið ykkur, lygar lands,
Lífgið í fornum glæðum!
Ykkur stendur háski af hans
hljóðbærustu kvæðum.

Ljóðum hinna líka af
Lengjast vonir mínar —
Vorið engu einu gaf
Allar raddir sínar.

Fossinn slær við glym og gný —
Græði unna hljótum
Þó að bylji brothljóð í
Brimsins skerja-nótum.

Ef þú sækir Einar heim
Inn í skóginn, vinur,
Dregur muna að myrkvið þeim
Margur fagur hlynur.

Gekstu Skúta-hraunið hans?
Hugvit steins í líki,
Vofeiflegra en drauga-dans
Dauðra sálna ríki.

Þessum skal ei framar fylgt.
Frum-raun þeirra er lokið,
Hafa ungir af sér siglt
Úfna slettu-rokið.

Guðmund leit eg leggja hönd
listum heima grónum.
Hann á andans lauga-lönd
Laufgræn mitt í snjónum.

Haust sem vor hans hugur er
Hlýr og sígróandi —
Var ei fleirum furða en mér
Fjölgresið á Sandi?

Lagði í stíl við málið múl.
— Mærð er ei vit né fegurð,
Né kunnusta að kýla gúl
Kotungs-orða megurð. —

Nú er ei lengur einráð alls
Út um lækja-vöðin
Búmenskan hans Bárðar kalls,
Sem blávatns-þynnir mjöðinn.

Höfum samt því séð á mót
Setta reglu fasta,
Að sé við hverja búnings-bót
»Bezt ið einfaldasta«.

Það mun sjálfsagt sumra vild
Og sálarvexti hlýða —
En skal ei jafnvel skraut og snild
Skáldskapurinn prýða?

— Vilji þinn ef annars er
Af að leggja kjólinn:
Heyrðu frændi! farðu ber,
Fyrir mig, upp í stólinn.

IV.

Hvarfla nú í huga mér
Hinir nýju siðir
Og þessir ungu, heima og hér,
Helgra dóma smiðir.

Áður »symból« sáum við —
Samt í ykkar veri
Lifa menn óneytt — Afsakið! —
Altaf á bræddu sméri?

Stend eg á önd við ítrekað
Íhugunar-strikið.
Er í vanda og vafa, að
Voga út á prikið.

Yðar tunglskins-ljóð við loft
Lyfta runn' og þústum.
En mér finst glámskygnt æði oft
Inn' í klaustra rústum.

Hjátrú Sáls varð sann-spá nóg
Samúels rödd úr haugi.
Hrafninn eins við Edgar Pó'
Orti rétt — af draugi.

En verði tíð og útsýn ill
Og inni-byrgis vetur:
Semur okkur, ef til vill,
Einhvern tíma betur.

Sízt eg kýs af ljóða-lýð
Lofinu ræna snjalla —
Fjöldyruð og veggjavíð
Valhöll rúmar alla.

Eg er heldur hissa af því
Hvað vel skáldin geta
Með báðar hlustir orgað í:
»Eitthvað til að éta!«

Úti fyrir austan dröfn
Á því hefir kraumað,
Að hafi mætir menn í Höfn
Mörgu í vasann laumað.

Mér skilst þó að þjóðar-synd
Það sé rangt upp talin,
Þó skreyti erlend, útgrædd lind
Einhvern skriðu-dalinn.

Yrði samt ei sveitarbót
— sé það gert að lenzku —
Að kreista á alla mark og mót
Miðlunganna ensku.

Upp við fjallshlíð finst og mér
Fegurst skóginn hilli:
Hvítfætt, arm-létt af ef sker
Innlend björk á milli.

V.

Skal í stuttu máli mjög
Mæla vébönd kringum
Nokkra er setja og semja lög
Sveit að Braga-þingum.

Jón er einn sem úrskurð þann
Á á valdi sínu,
Að geta klipt út kvæði og mann
Kænt með hálfri línu.

Ef í dóm hann bætur bar
Braga veiku fari,
Það er af því að hann var
Öðrum gestrisnari.

Hefir sér ei sett það mið,
Að sérhver væri heptur,
Sem að fýsti fram á við,
Þó fóturinn sé kreptur.

Einar skýrði múga manns
Mál, að þessu leyti,
Lagði dýpst við hugsun hans
Höfuð sitt í bleyti.

Reyndi að skygnast út og inn
Alla kyma og bláinn —
Nú hefir einhver ólukkinn
Andað móðu á skjáinn,

Stoð og athvarf elli-keims —
Einar fanst mér beztnr
Áður hann vígðist Vesturheims
Og valtýskunnar prestur.

Það til hnjóðs eg hef' ei sagt.
Hann hefir margt um daga
Óð og þjóð til þarfa lagt —
Það er hans bezta saga.

Síra Friðrik svo eg tel —
Sem er fundvís miður,
En hann raðar einatt vel
Aðflutningum niður.

Sinu hann af alúð ann
— Ársins fyrra gróðri,
En nýgræðingur hneixlar hann
Í hugans beru-rjóðri.

Þó er það vægð og velgerð á
Vestan-garra hrokann,
Ef að eyrum flöktir frá
Fjórða júlí lokan.

— Fleiri leggja glögg og greið
Gögn í dóm upp borin,
En á þeirri þarfa-leið
Þarna eru flestu sporin.

Það er annars engin mynd
— Oss þó verði að sæma —:
Sjálfur vera vafinn synd
Vítin hinna dæma.

Þröngum hug er hulið hvar
Hyggja skal að blómi —
Fordæmingin víða var
Viðsjál helft í dómi.

Gef oss framtíð, frelsarann
Flekklausan sem höfund,
Svo menn geti ei grunað hann
Um græsku, skjall né öfund.

VI.

Þér finst enginn þyngi sjóð
Þinn með svona ræðum,
Svo hiklaust mætti henda á glóð
Heimurinn öllum kvæðum.

Þú munt segja, ef fær þú frið,
Fé og saddan maga
Nóg sé unnið — Engum lið
Orðið hafi að Braga.

En kjósir þú á afli og önd
Eitthvert bandið slakni,
Býstu við að hreyfa hönd
Hugurinn nema vakni?

Þegar byrjar-von í voð
Var og hláku bænum,
Kom hann ei sem örva-boð
Á undan storm' og blænum?

Viljirðu ala á þjóðar-þrá
Þinni að stefnu hærri,
Mun þess völ, að yrkja á
Andans krafta stærri?

Er ei næst hann nemi lönd
Ný, fyrir þrá og unað,
Út fyrir þína eyjar-strönd:
Eigin hag og munað?

Yrði hvergi segl að sjá
— Sum þó mari í kafi —
Boðar það ei ördeyð' á
Öllu norður-hafi?

VII.

Nú skal minst á mig sem styzt
— Meinlaust, ef eg gæti —,
Fyrst í kvæða-krókbekk yzt
Klöngrast hef' í sæti.

Eg hef' oftast siglt minn sjó,
Sjálfur lagt til mötu.
Mér hefir lífið lánað þó
Ljón á marga götu.

Hvorki fyrir frægð né gjöld
Fyrir þér eg tala —
Hef' ei enn þá, undir kvöld,
Andra mína fala.

Ef eg bjóða þorði þér
Þá — var góðs um völin? —
Hélt eg í lognsnjó, líkt og mér.
Þeir létta kynnu spölinn.

Vel eg skil því skjátli trautt:
Skarðið litla í blaðið
Hefði sjálfsagt ekki autt
Að mér hljóðum staðið.

Hitt er að brjóta hugur minn:
Hvort mitt sæti yrði,
Úthýsing í eitthvert sinn
Argara lítils-virði.

Segðu, hvar var hann að fá
— Hrópi nú hver sem getur!
Sem nenti að yrkja í eyðu þá?
Og æfinlega betur.

Segði eg fátt um frið og ró
— Fleirum tókst nú svona —
Mér var líft í lagskap þó
Langeygðustu vona.

Ég hef oftast unað mér,
Æðrast lítt um missir,
Haft minn skerf af hlátri að þér,
Heimur minn — Ef þú vissir!

Hver er eign í ökrum, sauð
Eða dala-fjölda,
Móti skrauti, óð og auð
Ótal sumarkvölda?

Lofgjarn er um listir tvær
Leiknar vel í elli:
Þær, að vera ferðafær
Fram, og halda velli.

VIII.

Þegar hefir sveitin sett
Sumar-þing á völlum,
En hérna upp' um hnjúk og klett
Hangir þoka á fjöllum,

Ber mig hvatur hugurinn
Heim að manna-fundum.
Bregð mér, alveg óboðinn,
O'n í dalinn stundum.

Ef eg tala orð til þín
Eða geng til dansins,
Það er ærsl og ertni mín
Útilegumannsins!

1902

---

## Jafningjarnir.

Sama stétt og sama vinna,
Sama stríðið, sömu kjör,
Sömu afrek eins og hinna
Erfiðandi bræðra minna.
Líf oss setti á sömu skör —
Dauðinn eins, er endar fjör.

Vittu þó að það er lýgi
— Þó um eilífð hana drýgi
Allir menn og engill hver —:
»Gröf að alla geri jafna.
Gróði, frægð og titlar hnigi
Þegar komið þangað er.
Því má hossa fyrir mér,
Bæði þeir sem sálmum safna
Gáfumenn og heimsku her.

Komdu út í kirkjugarðinn,
Þú sem vilt frá villu snúa,
Veizt ei hverju á að trúa.
Á hvers mold er minnisvarðinn?
Seintækt herfang hruns og fúa,
Þar sem minning véstall ver.

Við skulum ei um þetta þinga,
Þarna er annar glegri kvarðinn:
Seg mér, ef þú sjálfur vonar,

Vika-karl, að verða grafinn
Nálægt kistu konungssonar?
Útaf-dauður yfir hafinn
Allan múrvegg mannvirðinga —

Sama stétt og sömu kjör!
Hef' þó aldrei ykkar hylli.
Eitthvert staðfest djúp er milli
Mín og ykkar. — Grenslumst gjör:
Hvort að samhygð svona spilli
Þjóðernið til þykkju vakið.
Þá víst stæði skens og deila
Millum okkar hálfa og heila
Daga og kanske kveldin með.
En það hefir aldrei skeð.
Því er ekki þessi veila
Ætternið né tungutakið —
Það get eg af þessu séð.

Eða þá mitt eigið geð,
Versta syndin, vesalmenskan,
Valdi þessu? Getur skeð,
Fyrst að það er ekki enskan.
Aldrei hef eg hausa klofið,
Heitast við né griðin rofið,
Sögur um það erft og lært
Upp á mig sem hef ei fært —
Heimsku gæfi ei haus í veð.

Hef' þó aldrei aftur snúið
Eða fyrstur undan flúið

Öðrum þar sem reyndist fært.
Sloppið vel við last og lofið. —

Líklegastur er til gæfu
Sá sem getur, helst með hæfu,
Sig af meðalmensku stært.

Þetta mál sé þannig ofið
Held eg vera vitnisbært.

Sama stríð og sömu kjör!
Er þá þessi agnar-munur
Ekkert nema tómur grunur?
Ó jú, karl! Eg kann mín svör,
Þau eru ei langar lærdóms-runur.
Ljóðin ykkar kvæði eg ekki,
Bók sem unið þið ei þekki
Né þekkja vil — eg er svo gjör.
Fæ og ekki af því dregið:
Ofur-sjaldan get eg hlegið
Fús, við ykkar fyndni og hrekki.
Þess er ykkar vitund vör:
Við að eigum aldrei saman
Andans-nautn né hugar-gaman —

Bönd hafa örlög um mig dregið,
Reyrt mig svona á báða bekki.

Sama stríð og sama vinna —
Sömu lokin — Efalaust.

Þó að eg sé miklu minna
Tildurgjarn og trúar-ýkinn.

Ykkur flagar endalaust
Esaús hönd og Jakobs raust:
»Prédikun« og »Pólitíkin«.

Ef til víga væru ríkin
Vopnuð — Öðru megin þið,
Völd og fé á hina hlið,
Og þó hefði ekkert traust
Á í þeirri orra-hríð,
Að þið mynduð haldast við,
Fús eg ykkar fylli lið —
Ærlegra væri ykkar stríð!

1902

---

## Úrlausn.

Þú baðst mig, frændka, að kveða kvæði um þig
En hvorki mætti hrós né last þar vera —
Já, svona bón er bagalaus við mig,
En biddu skáldin aldrei slíkt að gera
Því trúðu mér, eg alveg satt þér segi,
Þó sjálf þau vildu gætu þau það eigi.

Því skáld er háð þeim háska-lögum fyrst:
Frá hugsjóninni fall er því að víkja,

Og til að flytja af fullkomnustu list
Inn fylsta sannleik, verður það að ýkja —
»Þeir ljúga«, er svar þitt, »svei, mig við þeim hryllir!«
Nei satt þau tjá, en varast alt sem spillir.

Til dæmis, ef þau lýsa lindi-hól
Er laufin sölna á hausti, sem við vitum,
Þau draga upp skóg við skýjalausa sól
Og skreyttan öllum friðarboga litum —
Og þenna sannleik eykur ára-fjöldinn
Og yndið þitt við sólskinið á kvöldin.

En þau um laufin sneiða hinu hjá
— Sem hver þó veit, en öllum þætti særing —:
Þau séu bara bleik og rauð og grá
Og beri lit af hitasótt og tæring.
Og öllum finst það skáldið segja sannast,
Sem sjaldnast gat við andstæðurnar kannast.

En þína bón eg gjarnan gera vil,
Og get það líka — fáist stund og tími.
Eg er ei skáld — þar skal nú meira til,
En skrifa stutta blaðagrein í rími —
Eg sannað get það, góða, alla vega,
En glegst með því að yrka hverskynslega.

Þó einhver hafi meira sagt um mig,
Það meinlaust er og ekkert við því liggur.
Og maður brosir hýrt og hneigir sig,
Og hugsar sitt og viljugt lofið þiggur.

Og þú færð bráðum biðla, og líkt að reyna
— Sem betur fer — og skilur hvað eg meina.

Þú reiðist loksins — líklegt væri það —
Að líta ei nokkra hending um þig gerða.
Þú ert víst myrkhærð, móeygð — eða hvað?
Mig minnir helzt þú ættir svo að verða.
Um mig er sagt eg meinist við því bjarta,
Sé myrkra-barn og elski helzt ið svarta!

Eg óska þér svo — þú munt skilja mig,
Eg þekki ei nokkuð öllu sæmilegra —:
Að eitthvert skáldið skrifi bók um þig
— Með skáldum tel eg þá er sannleik fegra —
Úr augum þínum ástasögu spinni
Og æfintýr í lokkum þínum finni.

En ég hef' gleymt, að leggja ofninn í
Svo yfir borðið hangi nærri freðinn —
Já, lengi beiðstu, ljúfa, eftir því,
En loksins er þó vísan um þig kveðin!
Og þarna dró eg ýsu on'í stólinn —
»Adieu« — franskt — og leiktu þér um jólin!

1902

---

## Að skilnaði.

— Hliðsjón af kvæði Jóns Ólafssonar: »Þið ætlið nú til Ameríku! En eg mun sitja heima kyr«. —

Þið farið burt, en eg verð ettir —
Álít heiminn sviplíkan:

Svartir skuggar, sólskins blettir
Sáust hvert sem augað rann.
— Bara víðast vantar Grettir
Vætti illa er sigra kann.

Heill sé þeim, sem hefir þreyju
Höggva í örðugleikann stig!
Sem að dofa dára-treyju
Doða og víls ei spennir sig!
Herðum, lífs sem bónda-beygju
Brjóta, en leggjast ekki á slig.

Þið farið burt, en eg verð eftir —
Auðn í sveit fær manns-hönd breytt.
Náman, gullið rauða réttir
Rekulausum höndum neitt —
Edens-leit er lúa-sprettir,
Labb og skæða-slitið eitt!

Mig ei þangað fýsir flytja
Fyrir-bygð sem jörð er öll,
Geräst annars garðs-horns rytja,
Græða ei út neinn heimavöll —
Rúm fyrir þrótt minn, þar sem strita
Þessir fáu að tímans höll.

Þið farið burt, en eg verð eftir —
Áset mér að reyna og sjá
Áður göngu lífsins léttir:
Loks hvor stærra dagsverk á,

Sytra, er út við skúr sér skvettir
Skjótt, eða farvegs-gróin á.

Þið farið burt, en eg verð ettir —
Ósk sú mér við hug er feld:
Ykkar vegir verði sléttir!
— Viljug fram á æfikveld
Þó þið eltið, blett af bletti,
Brigði-vona haugaeld!

1892

---

## Skuggsýni.

Þið segið, að eg kveði lífið ljótt
Og leiti ekki að gulli heldur skarni —
Að eilífð mín sé eilíf, kolsvört nótt
Og æfin villa á slóðarlausu hjarni.

Þið segið það — Og svo er flónið spurt
Hvort sælla var ei trú-blindingsins hjarta,
Sem forðum daga dreymdi myrkrin burt
Í dúrnum langa, og þekti ei eldinn bjarta.

En hver er heill, að hugsa ið dimma bjart?
Það hamlar kveiking ljóssins sem menn þyrftu.
Mér virðist sælla að vita myrkrið svart,
Það vekur hjá mér löngun eftir birtu.

Ef trúir þú, að sár þitt sé ei sár,
Það seint mun gróa en brýzt út stærra og verra.

Og ef eg sýni að lífið taki tár,
Eg tala kjark í lýð að mýkja og þerra.

Og seinna munu málin greiðast vönd
Úr myrkur-flækju, af dómgreind inna spöku,
Og bjart-skygnt fólkið blessa hverja hönd
Sem brá upp skari á tímans rökkur-vöku.

1902

---

## Eftir jól.

Svo jólin þessi þau eru frá —
Og þú lékst þér suð'r í bænum.
Í kofanum norpti eg norður við á,
Og næddi í vetrar-blænum,
Og milli okkar heiðin og hríðin lá:
Eitt hundrað mílna af gaddi og snjá.

En jól eru meskin og munar ei grand
Um mælistig norður á bóginn.
Og víst er þeim sama um veður og land,
Um vetur og frostið og snjóinn.
Þau koma þar helzt sem að lundin er létt
Og lífið og fjörið á rjúkandi sprett.

Því manstu ekki, heima hvernig það gekk
Að helga þau jól, hverjum smávöxnum rekk?
— Eg enn man þau hátíða-höldin,

Og allan þann hlæjandi hátíða-brag
Og hoppið og skoppið þann guðslangan dag.
Og leikinn við ljósin um kvöldin.

Að fleygjast á skíðum af fellunum,
Að fljúga á skautum á svellunum,
Á »bogum« að hendast af hengjunum,
Að hleypa eftir velli og engjunum.
Að eltast á kveldin af »kellunum«
Og hvekkja þær sífelt með brellunum,
Sem fastlega hétu að »flengja'onum«
Sem fyrstum þær næðu af drengjunum.

Og ósvikin gleði og andagift ný
Var í hverjum þætti þeim jólaleik í.

Svo vóru jól okkar, Siggi minn!
Svona upp í huganum vekst það —
Ég er að reyna að yrkja þau inn
Aftur í líf okkar — Tekst það?

---

## Smala-vísa.

Hann fæddist við jötu, hann fóstruðu kvær
Og fjárhúsin vóru hans uppeldis-bær:
En þó urðu smalanum kynnin sín kær,
Sem keisara-höllin mun þér.

Því það skaltu vita, þó veran sé þröng
Í vistinni þeirri, er fjárgatan löng!
Um hálendið: frjálsræðið, sólskin og söng,
Sem sumargjöf smalanna er.

Því það skiftir engu þó átt hafi stríð
Við örðugar brekkur, við þokur og hríð,
Því heiðríkjan indæl og útsýnin víð
Var engum svo fagnaðar-kær.
Því smalinn á dalinn sinn, fjörur og fjöll,
Alt fagrablik dagsins af brún on'á völl —
Og björt eins og vinfengi er eignin hans öll,
Sem unnusta dálát hver bær.

Hann gekk yfir tinda, en hjallana hann
Í hlíðinni miðri sér þekkasta fann,
Því þar skín í ljósmáli alt sem hann ann:
Hans eigið og sveitin hans víð.
Og hugsana ljósbreiður líða þar hjá,
Sem lagðsíðar hjarðir um fjalla-skörð há,
Og dátt óma ljóðin frá löngun og þrá
Sem lóukvök neðan úr hlíð —
Hann hefir svo glaðværa einveru átt.
Hann óskar þess stundum — en hugsar það lágt,
Því lítil er óskin að hróp 'ana hátt
Um hérað og fjallanna geim — :
»Þú hlíð varzt mér ljúfust! Er leiðin mín þver
Eg leifa vil síðasta byrgið mitt hér.
Því hér hef' eg smíðað svo smátt sem það er.
Og smalinn er alkominn heim.«

1903

## Bæn á eftir samkomu.

Ó, veit þú mér bæn! er í veldið þitt kem,
Þú vistráður herbergja! yfir þeim sem
Af jörðu í föðurhús flytja:
Æ, settu mig þar sem á hávaða er hlé!
Þó húsrúmið lítið og óskrautlegt sé
Og garðs-hornlegt sé þar að sitja.

Á jörð hef' eg furðast það beljandi brölt,
Það brakandi fótþóf og mál-rokka skrölt
Með hvinum og dúandi duni,
Og alt þetta samkvæmis argafas,
Og allan þann troðning og gjallanda-þras
Sem húsinu lægi við hruni.

Hver fjöl slóst í leikinn, og innanstokks alt
Varð uppvægt og hamslaust og byltist og valt
Sem strákar við stökkdans í polli —
Sem hvirfil-byl hýtt væri um hurðir og skáp
Og hlaupinn djöfull í sérhvern kláp:
Einn þjótandi, skröltandi skolli.

Og mér er sú ánægja eilífðar-nóg!
Í umskifti langar mig, spakferð og ró —
En hef' eg í bráðræði beðið?
Því elskuðu landar, það hliðrast ei hjá,
Að himinlangt verður á milli okkar þá
Sé kvöðin veitt eins og er kveðið.

1903

## Á gömlu stöðvunum.

Er þú, kæri, kemur heim
Þar kveldsól lengi á vorin skín,
Og að þér fram úr fjalla-geim
Sitt fangið réttir sveitin þín,
Þar glímuvöllur gamall er
Hver grundin þýð og bali hver,
Og sérhver gatan sópuð slétt
Kann sögu um einhvern sprett.

Þá gangi 'ún æska, að gæta að þér,
Úr gili, dæli, laut og runn',
Og þjóti úr mó, að mæta þér
Og minna á þið voruð kunn.
Frá bæjar-tá og hlíða hlið
Þar haginn sprottinn glóir við,
Úr slægju-gresju er grasvot er
Hún gægist eftir þér.

1903

---

## Á vonar-völ.

Þú reynir, ef strangt viltu standast,
Þú stór-hugans framgjarni son:
Að sannleikur setur þér markið,
Að sigra með úrkula von.

Og sólhvörfin óttast eg ekki
Né útslokkið stjarnanna skin.
Og niðmyrkrið neyddi eg til sátta
Og nóttina gerði að vin.

1903

---

## Í rökkrinu.

Í rökkrinu sjálfboðinn sezt eg hjá þér
Og syng til þín, viljirðu hlýða.
Þó bót sé það smá, þeim sem einmana er
Við andvökur sínar að stríða,
Að heyra að vísan mín vaki hjá sér
Kann viðdvöl sú hraðara líða.

Það telja ei öldungar um fyrir þér
Mín æfisköp þrekrauna-minstu.
Eg rek ekki harm þinn, það hæfir ei mér,
Að hreyfa við strengjunum instu,
Því beiskasti söknuður orð-þrota er
Og ómálga kveðjurnar hinztu.

Þó siglir ei harmtreginn huggun í strand
— Þó hverfult sé rof milli stafna —,
Því söknuður byggir upp bróðernis-land
Þar blíð-vildir alhugum safna,
Hann samtengir hjörtun í heimilis-band
Og hann gerir mennina jafna.

Og sá er ei liðinn, sem innvafinn er
Í æfi-þátt lifandi vina.
Og enginn með sigurlaun fegurri fer
En frænd-ást og ná-vinganina.
Því kunnugra alúð að ávinna sér
Er yfrið — Hvern varðar um hina?

Á ástvina moldum grær minningin hlý
Og minjarnar, stærri en oss dreymd' um.
Við berum á höndum oss huganum í
Hvert hollustu-verk sem við geymdum.
Þá yngist hver vinsemd og velgerð á ný,
Þá vekst upp hver þökk sem við gleymdum.

Og nöfn eru auðgleymd, og eignaður sér
Hver orðstír, í samtíðar þvögu.
En starfið manns aldrei til ónýtis fer
Í umkeypi framtíðar högu —
Vort lífsmark er uppi, fyrst landið vort er
Við lýði og þjóð vor á sögu.

Frá hríslunni, einbirni öræfa-lands
Spratt alskógúð fjallshlíð um vorin,
Eins helzt uppi vongróin viðleitnin manns —
Hún var ekki í gröfina borin.
Að alfara-leið verður einstígur hans
Þó aldirnar fenni yfir sporin.

Þó döpur sé einstæðing dagseturs töf
Og dimt eftir sloknuðu yndin,

Sem sólskinið alt væri ginninga gjöf
— Sú gleðinnar uppsprettu lindin —:
Skín unaðar minning frá ástvinar gröf,
Svo enn þá slær kvöldroða á tindinn.

1903

## Oddhending.

Sittu hátt við hörpuslátt
— Hljóðin átt þú, vaktu —,
Sólskin dátt og sunnanátt,
Seint til hátta gaktu.

## Lyng frá auðum æskustöðvum.

Er miðs-vetrar snjó-þögn að sveit hafði sett
Með svefn-fjötra af lang-nætti undna,
En fjöl-kvæður lækur og flaumur við klett
Lá frosinn með tunguna bundna,
Og lagstur var hugur í harðinda kör,
En hendingar kólnaðar gödduðu á vör.

Þá kom hún, sem lífsmark frá landauðnum nyrst
Úr lyngmó við sandrok og snæinn,
Með æskuna, leikvöllinn, ljóðin mín fyrst',
Með landa-mörk, afdala bæinn.

Með vonir og langanir, vakað og dreymt,
Með vafa og ætlanir, munað og gleymt.

Og enn er hún, grein sú, af grann-lyngi smæst
Í grastó á um-næðings fjöllum,
Á víðferli muna af hríslunum hæst
Í hugmynda skógunum öllum —
Úr lautinni hennar er lengst upp að sól
En laufgræn þó var hún í byl eftir jól.

— Á fornstöðvum okkar er sviplegt, að sögn,
Tóm sandgröf er þar framm' í dölum.
Þar ráða nú öræfum auðn og hún þögn,
En útrýmt er heiðló og smölum.
Og, langt er nú síðan í sandorpið kot
Á sumardag fyrsta skall erindis-þrot.

En eigir þú, sendari, leið um það land
Og lifandi á grafarbarm sínum
Þar verjist enn lyng-tægjur lífshættu-sand',
Þeim ljóðstöfum skilaðu mínum.
Þó deyjandi gróður þeir gæði ei með lið
Á grjótið samt bergmál sem hrekkur þó við:

Við rjúfum ei eyðingar álaga-dóm
Sem uppi erum nú til að vinna,
Vor hugur og elja er tuga-brot tóm
Í tví-skildings árs-vöxtu að finna.
En fram líður að því, við aldanna þörf
— Ei árs-gróðann — metur hver líf sitt og störf.

Þá byggir upp einyrkinn eyðilönd sín —
Og erfða-féð berst svo frá honum.
Og það verður: framtíðar fegurðar-sýn
Og farsæla hrept og í vonum.
Því ættjarðar framför er eilífðin hans
Og ódauðleiks vonin í dáð-gróðri lands.

1903

## Útflutninga-erindi.

I.

Vikur fækka vonsku-éls,
Vetur smækkar þessi,
Flugið hækkar fagra-hvels,
Fjöllin lækka í sessi.

Brettir á tá, við bylja-rót
Bliku-háir tíðum,
Tindar gráir morgni mót
Mara í bláum hlíðum.

Dagmál þiða er röðull rís
Rökkur-tíð þó sýli.
Sprettur víðir upp úr ís
undir hlíða skýli.

Geislar standa af höfði hans,
Haga-landið glitr' um.

Hann að vanda vindur krans
Vetri í andarslitrum.

Vissu þá með vitni styð,
Vetur að sjái feigan:
Úti á eg vin á við
Vorsins spámann fleygan.

Áð'r en getur grunað neinn
Gadd og hret af rokin,
Syngur betur öllum einn
Undir vetrar-lokin.

Fyr en þróun fegrar til
Frostum skóga sviðna
Vorljóð hóf hann, undir yl
Áð'r en snjóar þiðna.

Rætta er heyrum huliðs spá
Heillameiri vona
Rödd hans deyr, hann þagnar þá.
— Það eru fleiri svona.

Þyki 'ann latur liðnu hjá
— Ljóða-hvatur forðum —
Nógir um batann syngja, ef sjá
Sumarmat á borðum.

Hans frá víði heyri klið
— Hlýrri tíða lofið —

Strenginn þýða, stiltan við
Stopult hríða-rofið.

Heim frá leiti að hlustum manns
Hreim 'ann fleytir sínum —
Veit eg breytist heimur. — Hans
Hljóð er í sveitum mínum.

II.

Vornánd þreyð mun varpa af þér
Vetri, eyðingjanum,
Fyrst hún seiðir svona að mér
Söngva, heiðingjanum.

Hátt í vestri veizt þú hvar
Veðrið hvest ei amar,
Vonir beztu ei verði þar
Vetrargestir framar.

Þess munt hvetja, að hvers manns önd
— Hvar sem getur — víki
Í þau betra-lífsins lönd,
Leyst úr vetrarríki.

Þar er ei ótíð eða kvöld,
Alt í ró sig nærir.
Sólskins hógværð ár og öld,
Allir sjóar færir.

Kjósa má um kaup og alt,
Korn og sjáleg engin
Þroskast fá-hirt þúsundfalt,
Þó að sái enginn.

III.

Sumir auðlegð, sælu, þrótt
Safna um snauðar strendur.
Lífsins brauð þeim leiddist fljótt
Lagt í auðar hendur.

Geta svörð á grjótið fest
Graslaus börð með eikum —
Líf og jörð þeim blessast bezt
Bætt í örðugleikum.

Þeim, að letjast alsnægt á,
Ei eg met til hneisu.
Hamlað getur heimaþrá
Hug í vetrarleysu.

Manndóm hæfir loft og láð
Lífvænt, snævi blandið —
Þar sem æfist ýtrust dáð
Er manns gæfu-landið.

IV.

Dregur að kveldi ljós og ljóð,
Lokum veldur bragsins —

Nótt í feldri fjalla hlóð
Felur elda dagsins.

Dáinn heygir daginn minn
Dimma og beygjan felsins —
Hinir eygja aftur sinn
Öðrumegin hvelsins.

Syrtir um haga, sönginn kól.
— Sézt þá dagur enginn,
Þegar braga síðnætt sól
Sezt, til lagar gengin?

Þegar hallast sú í sjá
Sól, þar mjallir skína:
Veit eg kallar vorið á
Veruna alla mína.

Frá því óminn öðlast hef'
Insta í rómi mínum,
Fékk mér blómvon, breytta í stef,
Blæ af hljómum sínum.

Sund þó frjósi um sönginn minn,
Sér frá ós hann lyfti
Vestursjós, í vænginn þinn
Vorsins ljósaskifti.

Skal í anda þíða þá
Þúfu og sand úr herkjum,

Í vistarbandi vorsins, á
Vetrar landamerkjum.

— Spá ei voða vindaský,
Vöst né boðafarið.
Legst svo gnoð mín óhult í
Aftanroða varið.

1904

---

## Hendingar til hagyrðinga-félagsins.

Nú birtir yfir öllum
Frá Yzta-bæ að Fjöllum!
Nú þiðnar lund og lind —
Nýtt líf í öllum æðum!
Sem ísinn verði að kvæðum
Og söng um sund og tind.

Um skap og skorning þræðir
— Hvern skafl í hreyfing bræðir —
Nú vestan-vindurinn,
Sem stælir stofn og rjóður
Til stríðs, fyrir líf og gróður,
Við hláku-hersöng sinn.

Í mó, á víðum völlum,
Í vík, hjá lækja-föllum:
Með söng og fjaðra-flug

Og námið nýrra braga,
Snýst nótt í gróður-daga
Um leystan haga og hug.

Sé stöku rámur rómur,
Sú rödd er lífsins hljómur
Úr klaka þíddur þó.
Í ösku elli-leifa
Er æskan sig að hreyfa
Og klykkja út kör og snjó.

Þér ljóð og söngur lýtur,
Sem lás og þröskuld brýtur:
Þú vega-beinir vor!
Þú heimsins »anark-isti«,
Inn ævarandi og fyrsti!
Sem sprettan fylgdi í spor,

Sem fargi af frjói lyftir,
Sem fyrnsku hömlum sviftir
Jafnt sál og sumri frá,
Eins helgi-hefð sem eddu,
Og hugsjón tæmdri kreddu
Sem aldri raups er á.

Með sál úr öllu ungu,
Með óm af hverri tungu
Og allra veðra von,
Þú vor! ef vel lá á þér,
Við vöktum nátt-langt hjá þér,
Við dagur sólskins-son.

Eg kem á kreptum fótum,
Og kveð á gatnamótum
Við yngda mold og menn —
Í elli endur-nýja
Við anda vorsins fría,
Mitt æsku-heitið enn:

Til loka lifa þora!
Eins lengi og árin vora
Um auða akurrein,
Og bálast orka í æðum
Í óútbrunnum glæðum,
Og vísa er ógerð ein.

Eg öllum föggum fleygi,
Um föng ei spyr né vegi,
Rek engra spark né spor.
En út eg fer og flakka
Um fjöll og marar-bakka
Á verðgang, með þér vor.

1905

---

## Gamlárskveld.

I.

Undir hafsbrún hnjúka
Hnígur sólin föl.

Hinztu geislar hennar
Hanga á kjöl.

Yfir sæ og sveitir,
Sorg og veizluhöld,
Vöggu og grafir gengur
Gamlárskvöld.

Læðir í hús og huga
Húmi og leitar inn.
Skilur á sköflum eftir
Skuggann sinn.

Ár sem öllum gervum
Um bjóst, skilur við —
Svipur þess er seinast:
Svartnættið.

II.

Ekki er kringt um kvæði
Kveðju-þreyttum höld,
Er úr garði gengur
Gamlárskvöld.

Á það dreg eg efa .
— Er eg hugsa og geng —:
Að nótt sé hæf í hörpu,
Húm í streng.

— Strax er á strengi dagsins
Stutt þegar nótt er hæst.

Lýsing lágnættinu
Liggur næst.

Milli lífs og leiða
Ljóð mín festa bönd —
Held frá braga-bekknum
Beggja hönd.

Eg skal öllum vinum
Enn í nýárs-brag
Bjóða á glugga og gröfum:
Góðan dag!

1905

---

## Legstaðir spámannanna.

Eg veit þú ert skáld! Og sem við hefir brunnið,
Með vísunum hvergi þig hrepp-lægan unnið,
Og úr því ei gustuka gistingin bætti
Hjá gamalli venju og óaldarhætti.

Við hjúanna önugleik, ónot og þyrkju
Hjá yfirvalds gorgeir og hræsnara-kirkju.
Þó húsviltur fyltir þú fátækra sjóðinn
Og fálega viðtöku ofborgi ljóðin.

En lát þér ei bregða, því barn er þar inni:
In blundandi framtíð í vöggunni sinni.

Og áður þú kveður og skundar á skóga,
Æ, skildu eftir gull í þeim sofandi lófa!

Á legg dregst hún bráðum, hún vex og hún vaknar,
Hún varðveitir hnoss það og gefandans saknar.
Við þurfamanns fletið þitt verða þá verðir,
Um verðgöngu-slóð þína pílagrímsferðir.

1906

---

## Undir aðfall.

I.

Von er þó þér förlist flug
Fyrir heljar skaga.
Þú hefir hvorki hönd né hug
Hlíft um þína daga.

Þér varð kunnur sérhver sær
Sólar-hvarfs að línum.
Alt var haf og himinn fær
Huga frjálsum þínum.

Vitið sá þar vegu strax,
Vaxið öllum þrautum.
Viljinn beindi á bræðralags
Braut að jarðarskautum.

Eitt er sem til hróss þér hef':
Höfin við að kanna,

Þú hefir login landabréf
Leiðrétt, Guðs og manna.

Sannleiks-hlut á heimalönd
Hugans drógstu mikinn,
Og um versins eyði-strönd
Áttu handarvikin.

Sæmd þín hreinlát hætti á
Hollverk, þörf en skitin.
Slor-fjörunum hélztu ei hjá
Höndum fyrir vitin.

Enginn garpur gat þér fylgt
Gegnum vos og þreytu.
Hefir alla af þér siglt,
Eins í byr og steytu.

Allir við þig vægðu sér,
Víkingar og gauðin.
Enginn kunni að ögra þér,
Ekki sjálfur dauðinn.

Fæstir réðu í rúm þér hjá
Raga gæfu sína.
Flestir lögðu fordóm á
Formenskuna þína.

Þegar undir fall og fjúk
Fleyttir stefni knarar:

Leti og óvild öfundsjúk
Óskuðu sneypu-farar.

Lífsvon settist undir ár
Ein á þóftu hjá þér —
Strandar-glópum steypi-sjár
Stefjaði kveðjur frá þér:

»Þjóðtrú farðu þess ei duld,
Þú mátt ráða og eiga
Upp á þína skota-skuld,
Skipshöfn hverja feiga«.

II.

Varð sú einför yndis-snauð?
Alt meðan svaf til baka
Yfir lofts og lagar auð
Lifa einn og vaka.

Utar storm' og öldugang
Eiga stefnu vísa,
Unz um djúpið flaut í fang
Fyrsta morgunlýsa.

Skeyta ei hvar að strönd var styzt.
Stika nótt og sæinn
Undir höfn við heimskaut yzt,
Heiðríkjuna og daginn.

III.

Lítil undur eru það
Óvænt, þeim sem skilur,
Þó um síðir sækong að
Sverfi manndráps bylur.

Drífa segl til sama lands,
Sekkur skútan leka.
Bezti vilji vogaðs manns
Verður afturreka.

Allir hafa aflað smátt
Endir þann sem hræðast —
Nóg er að hafa afgert átt
Erindi að fæðast.

Þú hefir beitt við blítt og strangt,
Brim og ísa klofið —
Þú hefir af þér æfilangt
Engan róður sofið.

Hittir engin ókunn mið
Út' um hinzta rokið
Sem ei hefir setið við —
Svo er því bezta lokið.

Hugur þinn og hjartaþrá
Hlakkar yfir sogin,
Þegar herkinn hallast á
Hinztu áratogin.

»Alt sem eg hef' grætt og gert
Geymt er upp á landi —
Nú er ekkert uppboðs vert
Eftir í þessu strandi.«

IV.

Ferðahugur er þér úr,
Orðinn heimafeginn —
Segist ekki í útúrdúr
Ætla hinumegin.

Til í gletni gazt, að nú
Gerist vant að hyggja,
Hvort í feigðar-fjöru þú
Fáir kyr að liggja.

Eitt er tákn, sem telur þú
Til sem bera kynni:
Afturgöngu í andatrú,
Eftirhermu þinni.

Sagðir: Ef það undrar þig,
Eða finst það skrítið,
Bjóddu and-stygð ögn í mig —
En ekki nema lítið.«

En ég vil ekkert andabúr
Eiga að gjöf, né kaupa —
Hæna til mín eilífð úr
Alla skollans laupa.

Efa-sýkin mögur má
Morra við þann fjanda,
Í hverjum bauk að hlusta á
Hásan sagnar-anda.

Óhemjandi anda skrök
Ekki kæri mig um.
Mér er nógu vönd í vök
Vörn mót kvikra lygum.

Er ei minni hjátrú höpp
Hún svo standi á nálum,
Þó að borðs og bekkjar löpp
Brölti á dauðum sálum.

Afarmennin okkar hér
Afstyrmt hefir körin.
Vofum þeirra virðist mér
Versni aftur-förin.

Það er ekkert lyga-last
Liðnum draug til rýrðar.
Allar vofur uppgefast
Eðlilega skýrðar.

Eina leið þeim öllum fer,
Engin stoðar dylgja —
Þessi óláns þáttur er
Þeirra ættar-fylgja.

Vitnin munu síðar sótt
Sjálfsblekkingar yfir,
Að sérhver draugur dag sem nótt
Dylst í þeim sem lifir.

V.

»Í grafar nöpru nausti þó
Nú hvíli skipin kyr,
Aftur mun þeim á annan sjó
Eilífðar fleyta byr«.
*Grímur Thomsen.*

Kannske er þig að heimta hann
Himna skipa-veginn,
Sem kvað eiga eilífan
Útveg hinumegin.

Hermdu ekki upp á mig,
Að um það sé fróður —
Grímur sagði 'ann sendi þig
Svona í annan róður.

Sannmælis þess si og æ
Sigling þín skal njóta:
Þó að öðrum þeytti í sæ
Þér var gjarnt að fljóta.

Og við skulum setja svo,
Svo eigi enn að fara:
Engan nema ykkur tvo
Í það sæktuð bara.

Míkilleik hans mettir hátt,
En mátt sem kynni að skeika,
Eins og þú við þrautir átt
Þekti á örðugleika.

Fullkom-leikinn legðist að
Lífs og vaxtar snauður.
Einkis vant, og úti er það —
Algerður og dauður.

Heilsaðir bróður-hug, sem krept
Hindrun gat ef mætir,
Þegar von er veðurtept,
Viljinn barning sætir.

Formanns-lundin leyfði ei þér
Lækkun gamals vana,
Né láta annan eigna sér
Alla skilmálana.

Þitt mér ómar auðheyrt svar
Yfir flæddum borðum,
Þegar uppsett eins manns far
Átt í hinztu skorðum:

»Nú var ei við æfistrand
Utar hægt að beita.
En hér hefir aldrei orpist sand'
Út-taugaðri fleyta.

Seglin hefir sundur tætt
Svifti-bylja þunginn,
Kubbað reipin knýtt og bætt,
Kjölur á skeri sprunginn.

Brotin stefnin, beygð og lúð,
Barin ís og straumum.
Brimi gnúin, gliðnuð súð
Gengin öll af saumum.

Þurfi eg enn að sækja sjá,
Sigla að dýpstu miðum:
Annað verð eg fært að fá
Far úr nýjum viðum.

Orlof tek eg ekki af þér
Út í nýjan vanda —
En sé þér lífsins-lið að mér
Læt ei á mér standa.

Nái eg þrótt' og hönd sé hraust
Hugur skal ei letjast —
Ég mun aftur orðalaust
Undir stýrið setjast.

Ég skal ýta fram, sem fyr,
Flestir meðan sofa.
Áhöfn stórri og óska-byr
Ekki þarftu að lofa.

Mínu eðli er engin nyt
Eilíft logn að hreppum —
Mér hefir vaxið megn og vit
Mest í þrauta-kreppum.

Mína heimta hagi um:
»Heldur tjón á sjónum,
En undir farfa og fægingum
Fúna inn' á lónum«.

1906

## Hlaðgerður.

En því kom eg heim, að eg örlög þar á —
Og eitt af þeim, Hlaðgerður, var þig að sjá!
Því Faxahaus gróf eg í flaginu hér.
En feigð veit eg enginn að sér þó á mér,
Þó við höfum þurft til þess þriðjung úr öld,
Að þekkjast og kveðjast og hittast í kvöld.

Hvert atvik mér rifjar upp reykult og gleymt,
Nú ræð eg að lokum það áður var dreymt.
Það kemur sem heiðríkjan, hljóðlát en köld,
Ef hríðina birtir með frosti um kvöld
Svo landamörk skýrast. Nú lít eg í hug
Á leiðinni gengnu hvern einasta bug.

Nú skil eg hví hönd þín var hvít eins og ull
En haldlaus — og þetta sem skein eins og gull
Í silkiþráð glitað, þitt glóbjarta hár,
Var gefið til sýnis en engum til fjár.
Þú hefðir ei léð það til liðþurfa manns,
Í lífshættu stöddum, í bogastreng hans.

Nú sé eg að augun þín svelldoða-gljá
Sem sævarós lagður en djúpöldu-blá —
En tennurnar, hvirfing úr hafperlum gjör
Um hláturinn tamda er svaf þér á vör —
Og heiðslétta ennið og í-roðin kinn
Var alt-saman gert fyrir spegilinn þinn.

Eg sem ekki ljóð mitt til lýtis um þig!
En lestu það fjöldanum, rétt fyrir mig,
Og hann mun svo innsveitis annast um hitt:
Úr óskiftu máli að hver fái sitt —
Sjálf Guðrún varð nunna og iðraðist als
Og ást sína á Kjartani grét eins og fals.

Sú greiðviknin mun þér og meinalaus æ —
Eg mætti þér nálega á sérhverjum bæ
Því venjurnar heimta þig svona til sín,
Úr siðum og háttum er innrætni þín.
Og það er oss sveinunum sjálf-þakkavert
Því svona við höfum vor boð til þín gert.

Eg veit í því sæti þú sómir þér vel,
Eg sé þar ei læging né á þig eg tel —
Þó til séu aðrar sem æfin varð breytt
Frá örlögum þínum, það bjargaði eitt:
Þær gátu ekki, eins og þú, hugsað sér hátt,
Þær höfðu um dagana úrval svo fátt.

Og nú get eg metið, þú maklega kaust
— Þess miður en skyldi til lengdar þú nauzt —:
Þú valdir þér alt sem var utan á lagt
Af arfteknum munað og fengilegt sagt.
Eg veit þar er tómlegur svipur hjá sýn,
Það sóaðist burt eins og fegurðin þín.

En trúðu mér, Hlaðgerður, að eins um eitt:
Eg yrki ekki til þess að sakast um neitt,
Eg kveð ekki í hefndanna hugmóð — Eg skil,
Að hlutfalli beggja þú réðir í vil,
Að það varð mér gæfa sem fár hélt eg fyrst!
— Og fyrir það hef' eg nú glófann þinn kyst.

1907

## Í gamlárs-gildi.

Í óveðrunum árin lengst af mætast,
Og úti er kalt og hrollsamt flestri þjóð —
Og nú finst ykkur ætli á ilt að bætast,
Því inni fyrir kveði eg vetrar-ljóð.

Eg skil það vel hvað veldur ótta þínum
— En varnir engar geri um sjálfan mig —:
Þú kvíðir við, að krókna í ljóðum mínum
Frá kolastónni ef hreyfa yrðir þig.

Samt el eg von, að ykkur hepnist þrautin,
Þó engan vermi þetta sem eg hef' —
Því jafnvel ísinn út' við jarðar-skautin
Er undarlega fjarstæður við kvef.

Þau hafa stórskemst, lungun okkar landa,
Í lágsléttunnar berklasýkis reit —
En jafnvel þeim er auðveldast að anda
Í úti-lofti í hárra fjalla sveit.

Svo kvíðið engu fimbul-vetrar fári!
Því frostleysan er stundum synda-gjöld.
En takið sól og sumri í nýju ári
Í sátt við liðið fyrir tunglskins-kvöld.

1906

## Einkennis-nöfn og upphöf.